Fimtíu og sex

# Tíðavísur

yfir árin 1779 til 1834

ortar af

Síra Jóni Hjaltalín,
Sóknarpresti til Breidabólstaðar og Narfeyrar safnaða
á Skógarströnd.

Kaupmannahöfn.
Prentaðað hjá Bókþryckjara S. L. Møller.
1836.

# Tileinkunar-stef.

Hér fágljádur er Fjalars gaglvidur
Rekinn á dyr, Fyrst rómi þrotinn
Gumna fær ei Med gali lengur
Kætt edur sumbli Kjalars tósar.

Fløgtir og fløgtir Fjødrum rúinn,
Leitar sér skýlis Lamvidrum kvídinn,
Flýa vill hret þgu, Er hrjóta kynnu
Ur atkasta-fúsum Elevâgum.

Takid nú, herra Thorlacius!
Undir skjól ydar Skrædu þessa;
Misvirdid ei, Þó málsnillis-leysu
Dirfist eg ydur Ad dedicéra!

Líf, heilsa, fridur, Lán og yndi
Fylgi ydur um Flód og haudur!
Kærust farsæld Í knérunn ydrum
Haldist med blessun Heims um aldur!

Svo mælir sá, Er figur-vønds-klótur
Benhjúpi vafdi A býli útþondu,
Sezt þar á undan Sal karsa ræfur
Bølþreytt seta, Er svanhvít heldur.

---

1ta Tídavísa
yfir árid 1779.

Stiklnvik.

Vakni fríir virdar hér, Vakni frúr og sveinar, Angurs lýum eyda ber, Arid nýa komid er.

Seytján rædast hundrud há, Hérmed áttatíu, Hjóli stædu aldar á, Arin fæding Kristí frá.

Vetur gódur, vor þó svalt Vann á horkindunum, Nordan gjódur kramdi kalt, Kári módur blés ávalt.

Garpar fengu grasa fátt, Gréri jørdin lítid, Því vard engi þroskasmátt, Þurkar gengu fram á slátt.

Skipti þá um skýaból, Skémdust todur vída, Skadan háa skúrin ól, Skjaldan sá í heidi sól.

Sýndi snjóa September, Sunnan-regn þareptir, Skígdi flóa skýa-her, Skipti þó med Nóvember.

Nordan kuldi, frost og fjúk Fram ad Jólum gengu, Isinn huldi ýmisbúk, Einnin duldi fjalla-hnúk.

Afla-feng úr salnum sands Sydra margir dróu, Fagna lengi brjótar brands Bjargar-gengi Vestanlands.

Hér ad austan fiski-fátt Fregna þegnar meiga, Uppk nausti heldur hátt Hvíla flauslur dag og nátt.

Sótt og kvillar særdu menn, Sumir burtu dóu, Bragna hillast bágenden, Bísnum fyllast kjørin senn.

Hóla-sætis hreinlyndur Herra Gísli deydi, Biskup gætinn, gódsamur, Gudvís, mætur, hálærdur.

Grætur sólar-hvarfid halt, Hvørein kyrkjustjarna, Grætur skólinn gaman kalt, Grætur Hólastiptid allt.

Syrgja flestir børinn brands Bjarna Pálsson látinn, Lærdóms mesta lagdan krans, Læknir besta Íslands.

Hrínga-jørdin hans og børn Herrann dáinn gráta, Sé þeim vørdur, sól, og vørn Sá, sem gjørdi land og tjørn.

Daudans reidda skálm uppskar Skjóltré Steingríms-fjardar, Prófast deyddi prúdan þar, Prýdi eyddi glad-værdar.

Ásgeir Síra þessi þó, Þar sem stad nam halda, Hafinn er í himna ró, Hulinn hér í jardar-mó.

Vildar-gagnid Vatnsfjardar, Virdtur prófasts nafni, Sóma-hagnad sífelt bar, Síra Magnús deydi þar.

Adrir prestar taldir tveir Trádu daudans gøtu, Yndid brestur aldrei meir, Unun bestu fengu þeir.

Holta gladur þíngum því Þjónadi Bødvar prestur, Og sóma-hradur sorgafrí Síra Dadi Mýrdal í.

Blódstíng hardan beid og tjón Bragna senn af dauda, Hafs vid garda hvellan tón, Hornafjardar sveitin Lón.

Fyrra vetur voda-fár Virdum þremur sendi Oldu hret, þeir urdu nár, Ekkjur grétu ræntar þrjár.

Nú um þenna vetur vann Vatn, er Laxá heitir, Ad sér spenna mætan mann, Midt í henni drecktist hann.

Hid seinasta feigdar-far Flestum er í minni, Sex í rastir sucku þar Sidprúdastir skipverjar.

Huldir dúkum hafs um strind Héldu ad sela-drápi, Fengu mjúkan fyrst þá vind, Fyltu búkum sigluhind.

Hérnæst skelja heim um rann Hugdi kuggur vitja, Ægir belja bistur vann, Báran heljar fylti hann.

Feigdar ólgu umvafder Itar sex þar dóu, Sjáfar kólgu sveipader, Sorgar-bólgu þreydir hér.

Guds ótrauda gædskan ad Gæti sálum manna, Hvar sem dauda hitta vad, Hels svo naudum létti þad.
Meira þylja man nú sízt, Mæddur hugar-andi, Grund því hylja gríma býst, Grídar kylja þreitist víst.
Endíng ódar fyrst mun fást, Fellur hljód úr kverkum, Prýtur ljódalist óskást, Lifdu, bródir! guds í ást.

## Aur Tídavísa
### yfir árid 1780.

Gagraljód.

Upp oss rísa øllum ber, Er nú runnin nýárs-sól, Drottinn prísi allt hvad er Undir sunnu heims um ból.
Seytján urdu hundrud há, Hérmed áttatíu og eitt, Kristí burdi fridum frá, Fyrst hid nýa ár er veitt.
Vetur hardur, vorid kalt, Vída sendi hrøfnum bráð, Kári bardi yfir allt, Einatt rendi snjó um láð.
Porri gódan sýndi sig, Sveipud Góa hvítum fald Brúnsíd ód um bjarna-stig, Breiddi á móa ísa-tjald.
Harkan strída þrengdi þjód, Pirmdi valla Aprílis, Vorsins tídin var ei gód, Vard ad falla féd á mis.
Gréru engin valla víd, Virda huldi ad slættinum Rosafengin regnatíd, Reifud kulda-þræsíngum.
Fidrid vallar, fellt í ljá, Fúna nádi sumstadar, Svoddan kalla særíng má, Sem ad ládi ørþjakar.
Kári svelt med grimdar géd Gjørdi draga loptid í, Heyid fellt í múga med, Margur baga hlaut af því.
Haustid strída eptir á Ofan feldi ský a-tár, Féllu vída fannir þá, Fossum belgdu vøtn og ár.
Sydra þádi þjódin ør Poska-fenginn upp úr sjó, Var og tjád úr virda-før, Vestra gengi betur þó.

Sumir reifast sútar streng, Sæla þreya vini lands,
Aðrir hreifa ølva-feng Innyst í meya prýðodum krans.

Yndid rótt ad gardi géck Góðum, biskup Hannes þá
Amtmanns dóttur ektad féck, Efli vizkan farsæld há.

Syrgdu Hólar helzt í ár Herra Gísla lidinn sinn,
Nú skín sól í sudri klár, Sézt þar nýi biskupinn.

Elli-hærdur herra Jón, Hann er kjørinn biskup þar,
Gæda lærdur gudsords þjón Gángi førin blessunar.

Doktors hættur daudi vard Dapur mengi vídt um
frón, Aptur bætt er í þad skard, Annar fenginn nefndur Jón.

Oms á kvonu eydir brands Opnist mjúka farsæld hér,
Hann er sonur Sveins løgmans, Sem á Múkaþverá er.

Iss um veldi stigdin stór, Sturlun karga sumum lér,
Vindr, eldr, vøtn og sjór Vilja farga mønnum hér.

Hefur muggan hættuløgd Hrodid slík, því er til sanns
Ullar-duggan sockin søgd, Send frá Vík til Austurlands.

Einnin sýslar út um bý Eggjud bráda dauda sigd,
Herra Gísli Odda í Andadur þádi himna bygd.

Síra Magnús Sæmundsbur, Sem Þíngvalla bygdi stad,
Margra gagn er mjøg tryggur Mátti kallast, ljóst er þad.

Vatnid hulid vatna-slík Vildi ríða kyrkju frá, Hans
þar dulid liggur lík, Lifir fridur himnum á.

Síra Jón og Sigurds bur, Sem ad slepti Nordrárdal,
Drottins þjóninn dygdugur Dáinn hrepti himna-sal.

Oddsson prestur einnin Jón, Er fyrr þénti Hjaltastad,
Hafinn er frá harmasón, Heimfør lénti frelsi þad.

Daudinn alla deysir prakt, Dvínar þarna sæld og féd,
Hjálpar valla hefd né makt, Høfdíngjarnir deya med.

Landskrifarinn hefdar hár, Hlídarenda átti rád, Burt
er farinn, banaljár Bútadi sendur lífsins þrád.

Listum vasiun ljúfmennid Leid frá kíssins mædudal, Dýrdar hafinn fús í frid, Fagnar líffins gædasál.
Kjósar-þíngis kostugur, Kjørinn ádur sýslumann, Gæfu slíngur Gudmundur Grøf í ládi sína fann.
Líf er hætt í heimi, vér Hugsum þrátt um sízta blund, Flest ágætt, sem heitir hér, Hjálpar smátt á þeirri stund.
Djarfur sínar daudinn því Drjúgum hvetur ørvarnar, Magtin dvínar moldu í, Maurinn etur kroppinn þar.
Hlýt eg kynna meinin meir, Margan larar raunastand, Skírt því finnast skrádir tveir Skiptapar um Austurland.
Utá salinn upsa fór Eitt úr Breiddal sigludýr, Pessu hvalur hvolfdi stór, Hreptu bana reckar þrír.
Fáskrúds annar firdi í Fiskur granda skipi vann, Tveir med sanni þá af því Pegnar anda hreptu bann.
Madur og kona meidsla lón Máttu vada dauda kífs, Stephánssonur Síra Jón Frá søgdum skada komst þó lífs.
Veri hár oss Herrann nær, Hugar þorid eykur þad, Pegar báran bana slær Brjóstum vorum utan ad.
Listin ódar mínkar mér, Mærdar lestur fram sem bar, Systir góda! séud þér Sæmdum bestu umvafdar!

## 3ja Tídavísa
### yfir árid 1781.

Stafhenda.

Vakna madr! vakna fljód! Vakna glada Íslands þjód! Angurs fría øldin sér Arid nýa komid er.
Áttatíu enn og tvø, Einnin fríu hundrud sjø, Yfir þúsund eru viss Árin nú frá burdi Krists.
Lidna árid lýdum fékk Lista kláran gledi smeck, Gjalda skyldi gumna hér Gudi mildum vegsemder.

Orma-bani sín um sinn Sendi ad vanda hretvidrin, Vors þó bætti værdin blíd Vetrar hættu snjóa tíd.

Janúaríus fenti fold, Febrúaríus grenti hold, Fór vid stridu Marz á mis, Mjúk var blída Aprílis.

Grasár besta gésid var, Gæda mestu nýtíngar Sumar fengu sveitir med, Saddi mengi yndæled.

Rosa-hausti fylgdu frost, Færdu austan snjóa-kost, Hlákan þýda hefur í stad Haldist sídan jólum ad.

Aflaveidar út vid sjó, Upp ad heidum saga fló, Hátta fródur hvals um beck Hluti góda margur féck.

Ymsu eldir heims um høll, Hardla kveldar gledin øll, Adra hrærir harma kør, Hina særir daudans ør.

Hættu-snera heims á grund Hitti Síra Ingimund, Híru bestur herma má, Hann var prestur Eydum á.

Hremdur trødum hættunnar, Hann frá stødum Arneidar Reid um grímu røkna þá Rír var skíma brautum á.

Inn med fljóti Lagar lá Leidin grjótug foldu á, Hrygdar veini harmadur, Hann þar meinast drucknadur.

Ærid stæckar ángur hér, Ofmjøg fæcka réttláter, Drottinn, vørn er veita kann, Vægi børnum sínum hann.

Síra Benedict mæla má Meiddur sénum daudans ljá, I Vestmannaeyum dó, Ædstu kannar sælu þó.

Ut var hafinn andadur, Einnin grafinn Þorlákur, Sý slumadur metinn frí Múla gladur þíngi í.

Enginn treysti aud né makt, Enginn hreysti, vøld né prakt Daudans blundi døprum frá Daudastundu frelsar á.

Angurs saga ullum brands Olli baga Nordanlands, Gledi tóninn mínka má Manna tjónid fjøllum á.

Riklundadir reckar þá Reynistadar klaustri frá Sendir fjórir, sem med skil Sauda fóru kaupa til.

Hér um sveitir fengu féd Firdar keitir kaupi med, Fjølgudu manni fimta beim, Ferdast þannig vildu heim.

Nordur Kjalveg lánga leid Løgdu halir hausts um skeid, Fengu strídu fjør-þurdar, Fregnast sídan daudir þar.

Margur hrellist heims um rann, Helgafell til øsku brann, Heppni var og fridar fró, Fólkid þar þó ecki dó.

Í Borgarfirdi brann og kot, Birt er, yrdi æfi-þrot Einu barni inni þar, Ærid harna fréttirnar.

Bæ í Fljótshlíd brendi med, Bálid ljóta svo er téd, Býlid nefndu skatnar Skard, Skada hefnd er fyrir vard.

Ymsir smacka ángurs lón, Eyrarbacka skipsins tjón Mein og ama mær og reck Mæduşama aflad féck.

Sagan tér þad sannliga, September hinn nítjánda Duggan fest á lægi lá, Leidur hvesti vindur þá.

Atkers strengur støckva vann, Stódst ei lengur vedrid hann, Sneckjan brotna héraf hlaut, Hreptu gotnar dauda þraut.

Atján mistu firdar fjør, Feigdar gistu bleika kør, Hérmed endti æfi sín Assistentinn Vidalín.

Færist ama-fregn á ný Frá Pverhamri Breiddal í, Fim í sjónum þegnar þar Poldu tjónid hérvistar.

Drottinn blídur barna þín Bættu stríd og varna pín, Send ótrega huggun hér, Heiminn þegar kvedjum vér.

Ríkum farnast røksemder, Rektor Bjarni vígdur er, Og sig ferjar enn nær sæ Ad Gaulverja stórum bæ.

Landsíns rara læknir féck Landskrifarans dóttur þeck, Yndisblída audargná Old Gudrídi nefna má.

Markús prestur, innt sem er, Adra festi handa sér, Bjuggu hradir brúdkaup ný Barkarstadar sølum í.

Kjósar þíngid frídan fann Firna slíngan sýslumann, Lucku-efndan vel ad von, Vigfús nefndan Pórarinsson.

Múlasýslu annar í A ad rísla vídt um bý, Sveinsson Jón sá sagdur er Sjáfar lóna elda ver.

Þessa leidi luckan há, Lífsins greidi veginn á, Halla tekur ærid ód, Illa lekur Kvásirs blód.

Bresta taka ljód ólærd, Lestist staka þjódum tærd, Þagnar kvæda hendíng hér, Hagnar rædu endíng mér.

## 4da Tídavísa
### yfir árid 1782.

Flettubønd.

Sitji í fridi frúr og menn, Fagni nýu ári, Dýrkum smidinn sólar senn, Sem ad mýar fári.

Ártal fundid inna rétt Itar sátta fríu, Seytján hundrud þrisa þétt, Þrjú og áttatíu.

Landsins reita rauna-fár Reifar trega mestum, Þad má heita eymdar ár Wtla eg hjá flestum.

Hardur vetur þókti því, Þrauta tærdi sofnum, Kulda hretin kvída ný Krásir færdu hrøfnum.

Wddi Góa einsog ljón, Ypti þúngum naudum, Þakti snjóum fjøll og frón, Færdi húngur saudum.

Hristi faldin grana-grá G.f oss ríka presśu, Fyrr eg aldrei augum sá Adur slíka skéśsu.

Ef ei dádin Einmánuds Jokadi mildi dýra, Held eg rádin góda Guds Góa vildi ríra.

Verdi hún med í vetur stríd, Og vondsku hreifi gallinn, Eg skal kveda um hana níd, Einsog Leifi um jallinn.

Kynni hún þjóa kláda ad fá, Kvillanum til léttirs, Kappar Góu klóri þá Med kømbunum hans Grettirs.

Hardla þéttur hafís grár Hart féck grandi ollad, Hann hefur þetta heila ár Hér vid landid tollad.

Sigling hrekur hɵfnum frá, Hamlar strengja dýri, Allskyns vekur sorgir sá, Sjáfar fenginn rírir.

Byrgir sól, en beltar lád, Bægdi landsins gróda, Kuldann ól, en svæfdi sád, Sefadi mannsins góda.

Grasár lítid vída var, Vann ei ljár á-jordu, Gód þó nýting blída bar Bót vid fári hɵrdu.

Aflaveidin Austanlands Af er lɵgd ad kalla, Pad er neyd hjá múga manns, Máltíd sɵgd fæst valla.

Sydra gengur skɵtnum skár, Skip þeir vestra hlada, Nordan fengur fréttist smár, Fólk þar brestur tada.

Nockra meidir sorgin sár, Sútir finna tvistir, Adra leidir Herrann hár Himna inní vistir.

Biskup Hóla herra Jón Hvarf frá meinsins kjarna, Lambs hjá stóli, laus vid tjón, Ljómar einsog stjarna.

Dýran sigur féck og frid, Frjáls af lasta gildi, Síra Vigfús Setberg vid, Sem prófastur skildi.

Síra Skapti sáladist, Sem var aústur á Hofi, Heimi tapti en himna vist Hrepti, traust þó sofi.

Kyrkjubóli kjɵrinn á Klerkur Síra Jllugi, Nauda-róli frelstur frá Fridar ber nú hugi.

Hann úr kaupstad heimferd bjó, Hrepti óra-vedur, Dauda-staup þá drack í sjó Drengjum fjórum medur.

Ɵgurs prestur Sigurdsson Síra Jón hjá Drottni Lista hrestur lífs á von, Lagdur í frón þó rotni.

Lista hradur, lærdur vel, Laus v- vɵndu dóma, Sveinn lɵgmadur hrepti hel, Hans er ɵnd í sóma.

Markads vɵrdinn Hartmann hér, Helsótt mardan vidur, Daudans hɵrdu drómarner Dróu í jardar idur.

Vestmanneyum er Jón í Undirkaupmann látinn, Eckjan segist súpa af því Sorgarstaupid grátin.

Fréttu nesi Alptar af Itar kargan skada, Nú má lesa nauda-haf Nógu margir vada.

Bæa milli madur géck, Midt um voda balann, Víst med snilli virdum féck Varníng bodid falan.

Stóra skjódu í barmi bar Benja stýrir nødru, Hvar í voru hvatir þar Hnífar þrír med ødru.

Púnga strídu þoldi um sinn Pjassa veska beimur, Hann fanst sídan helstúnginn Af hnífum þessum tveimur.

Margt er yrkismálid opt, Meiníng skilur flestra, Eyrar kyrkju upp í lopt Einn tók bilur vestra.

Eptir stód þar altarid, Annad fór í mola, Mátti góda gudshúsid Grandid stóra þola.

Førlast tekur mærdin mér, Minnis rásir hamla, Illa lekur æda-hver Ur hønum Kvásir gamla.

Spjøllud ódar mælskan mín Mál er endíng finni, Gollud ljóda dælskan dvín, Dregin ad lendíng sinni.

## 5ta Tídavísa

### yfir árid 1783.

Stikluvik.

Møndilfera meyan blíd, Mæt af austri núna, Færa gérir landsins lýd Lista bera nýárs tíd.

Seytján hundrud aldar ár, Attatíu og fjøgur, Sett um grundu segjast klár, Svona fundid datum stár.

Rauna-tída meiga menn Minnast nú um stundir, Margir lída mótbir enn, Mørgum svída bágenden.

Næsta hardur vetur var Víst á austur-sveitum, Hafís garda bláa bar Belti jardar vída hvar.

Frost og strída sjúkid géck Fram ad sumarmálum, Margur bída bagann féck, Bægdi tídin gledismeck.

Kári þuldi kosta spar Kvæði sín hin fornu, Hann með kulda klæðum þar Kinnur huldi fjørgýnar.

Veðrin góðu græddu þraung Greitt með sumarmál-um, Pessu gróða fylgdu faung, Flýði þjóðir tíðin straung.

Fram að blíðum farðøgum Fagra tíðin varði, Pá tók hríð af harðindum Hnekkja þýðum farsældum.

Hvítasunnu sjálfa þá Sást í norðri mockur, Grønd að runnu, himininn há Hvørgi kunnu menn að sjá.

Prumur dundu, eldur óð Upp úr Skaptár-jøkli, Fjøll-in stundu, heyrdust hljóð, Hristist grund svo skélfdist þjóð.

Sandur mikill féll um fold, Fyltur brennisteini, Misti kvikfé haga og hold, Hnég af vikri dauðt á mold.

Eldurinn raktist út og braust, Eyddi bygðum víða, Fólkið hraktist húsalaust, Hrygðin vaktist geðs um naust.

Kyrkjur eyddar eru fimm, Ein með hrauni þakin, Harm útleiddi hríðin grimm, Hægdum sneiddi tíðin dimm.

Síðu-reitur sýndist þá, Sem í einum loga, Bálið hneit við himininn há, Hræddust sveitir það að sjá.

Veðrin hørðu, frost og fjúk Fylgðu ógnum þessum, Byrgði ørðug bjørg og hnúk Breidd á jørðu fønn ómjúk.

Pví má segja sæla þá, Sem úr þessum heimi Fá að deya, firtir þrá, Friðt svo eigi Guði hjá.

Pví hefir ljósa-þengill þá Pessum flutt úr raunum, Heim í Gósen himnum á, Hvørjum glósa nú skal frá.

Prýði ræðinn prófast þann, Pál í Vallanesi, Hér á svæði feigðin fann, Friður hæða gleður hann.

Prófast Síra Porleif þar, Pá í Reykjaholti, Dauðinn hér frá heimi bar Hægt í veru rósemdar.

Síra Magnús Søndum á, Sæmdur prófasts nafni, Líður hagnað laus við stjá, Lífi fagnar himna sá.

Síra Jón og klerkur kær, Kjörinn Eggertsson, Lífs kórónu fríða fær, Frelsarans tróni glæstum nær.

Síra Einar fór í frid Frá Grenjadarstadnum, Horfinn meini, hvíld og grid Herrans reynir sídu vid.

Middals prestur kosta klár Kolbeinn líka deydi, Sedur hrestann sjatna tár Sælan besta um eylíf ár.

Kvennabrecku kjörinn á, Klerkur Hannes Síra, Daudans gékk um götu sá Í gledi þecka heimi frá.

Alráds-höndin, inna skal, Olafs prests í Gördum Flutti önd úr dauda-dal, Dvína grónd í himna sal.

Síra Jón, sem veikur var Í Vallanesi lengi, Heims frá tjóni helid bar, Hulinn fróni blundar þar.

Hokla-baldur Brjámslæk á, Birtann Eyólf Síra, Tók alvaldur fári frá, Foldin kalda hylur ná.

Frægd ónauma farsældar Fá nú þessir allir, Horfnir glaumi harma þar, Hjá vatnsstraumi sælunnar.

Sál mín deyi, Drottinn minn! Dauda þess réttláta! Sál mín eigi sigurinn! Sál mín þreyi vidbúin!

Fiskaranna far í sjó Fór á Sudurnesjum, Atta manna missir þó Mörgum sannar raunir bjó.

Annar þóttu-sessinn sökk Seltjarnar á nesi, Sex þar nóttin dauda-dökk Dró med ótta hels í mökk.

Hér á Mýrum fór og fley Fram í Hvaleyarnar, Sækja dýrir hugdu hey, Höldar skírir géds um þey.

Hlódu skip af heyi fast, Héldu svo ad landi, Feigum gripnir helzt med hast, Fengu svipljótt bilja-kast.

Fárid trauda fríun gaf, Fjórir menn og stúlka Þoldu nauda kélgu kaf, Kofudu daudans rauda haf.

Meinid stæckar, margur deyr, Mæddir eptir þreya, Guds börn fæcka meir og meir, Mitt dramb læcki, eg er leir.

Stilt eg glósa í stokubrag, Stephán Þórarinssonur Ammanns hrósar æruhag, Og féck drósar fadmalag.

Valinn spennir vísid mjótt Vigfús Schevíngsdóttir, Sútin grennist sælu skjótt, Sól þeim renni dag og nótt.

Efnid ljóda þannig þver, Pad er mál ad hætta, Storkna blódid berlings fer, Byrgist ódar skálin mér.

Kvásirs linnir blæda blód, Bladid finni enda, Rásin grynnist æda ód, Ása-minnid frædi þjód.

## 6ta Tídavísa
### yfir árid 1784.
Ferskeitt.

Dvalins leika leiptrandi Lýsir dimman æginn, Skjótt frambregur Skinfaxi, Skíran nýárs-daginn.

Datum ritar recka þjód, Rétt med ári nýu, Seytján hundrud fridar fród, Fim og áttatíu.

Lidna árid rauna-ramt Nádi gæda-standid, Mun þad verda minnissamt, Medan byggist landid.

Flúdi tídin lista ljúf, Lengi harkan vardi, Kalla má ad stíngi í stúf, Steypist flest er hjardi.

Fimbulvetur ferligur, Fárra maki ad kalla, Huldi skoslum hardfentur Hnikars bedju alla.

Gripir nærdust naumliga, Rogudu elju rindar, Jafnt-vid skafla járnharda Jálmudu kjálka-tindar.

Hvad sem ecki hafdi því Hús og fódrid inni, Hrundi dapran daudann í, Drepid af vesøldinni.

Eins og hrannir hafs vid lón, Hárs á bedju þúngri, Láu skorpin skeifna ljón, Skinin daud af húngri.

Slíkum kynja ógnum á Undra þjódir flestar, Rádu falla nærri í strá Nautin, fé og hestar.

Hinu, sem þó hafdi ró Húngurs fyrir kvølum, Lída veikin bana bjó, Og benti ad daudasølum.

Aumt er ad líta út um bý, Eru tómir hagar, Býlin leggjast eydi í, Angrid framúr skagar.

Fólkid hrynur húngri af Hópum saman nidur, Margir vada hrygdar-haf, Horfinn er gledi-fridur.

Sótt og kvillar mæda med, Margir þaraf deya, Hinir sídan, gramt med géd, Grátnir eptir þreya.

Heyskap lítinn høfdu menn Hér um sumars stundir, Þetta græda gódvidren, Sem gánga um þessar mundir.

Hluti mikla þegnar þó Þángs úr ranni fengu, Þeim þad sæta sadníng bjó, Er sárhúngradir gengu.

Sumra trú eg minni og mál Í megnum sóttum þrotni, Adrir drecka dauda skál Djúpt á mararbotni.

Sudurnesjum sagdist af Svipull daudans vodinn, Sexæríng þar keirdi í kaf Kólgan dreira rodin.

Bát úr Engey burtu sleit Brim á þara rønnum, Annar fórst í Eyrarsveit A med fjórum mønnum.

Skjálftan jardar fælist frí Fólkid enn um stundu, Er fjórtánda Augústí Ísa hrærdi grundu.

Hrana bedja hristist fest, Hægdum þjódin slepti, Arness sýsla allra mest Af því skada hrepti.

Bæir vída bifudust, Biltust sumir nidur, Skálholts húsin høggudust Hræríng þessa vidur.

Þó dómkyrkjan sé súin frekt, Føst hún stod ad vana, Þad var ysrid undarlegt, Ellin studdi hana.

Flýdu bæinn biskupar, Bløskrar vid þad øldum, Lágt á jørdu, letrad var, Láu úti tjøldum.

Øldin bæum flýdi frá, Færdust hús úr skordum, Svoddan undur enginn sá Ísa fyrr á stordum.

Margur hrepti meidsli þar Madur í þessu kísi, Tvær manneskjur, tjád þad var, Töpudu einnin lísi.
Farsælt er í hýra hønd Hjálparans ad falla, Hann kann leida lúna ønd Lífs til dýrdar halla.
Fengid hefur fylta von, Fagnar sælu-hnossi Þorsteinn Stephans Síra son, Sem ad var á Krossi.
Gud lét ædstu unun fá, Eptir rauna byrdi, Síra Þorberg Eyri á J hønum Skutulsfirdi.
Ondu hníginn høldar þó Huldu jardar rosi, Síra Þorleif, sem ad bjó J sýslu Múla á Hofi.
Síra Jón med lista-lag, Laufás þént sem hefur, Finnur dýran hvíldar-hag, Hægt í jørdu sefur.
Borgarfjardar-sýslu sá Sæmdi dómum snjøllum, Játast lidinn, eg vil tjá, Jón á Hvítárvøllum.
Hann var ljúfur høfdíngsmann, Hýr med lund ónauma Géstrisni ei gleymdi hann, Gjørdi vel þeim auma.
Því hefur engla helgur her, Hér úr tára dalnum, Fært hans øndu fús med sér Fridar upp ad salnum.
Mentum hladna mannvalid, Margra reifdur hrósi, Lárus Scheving skildi vid, Skodar Gud í ljósi.
Eyrarbacka kaupmanns knør, Kafinn þrautum vøndum, Hrepti enn nú feigdar før, Fyrir Mýrdals-søndum.
Fley og gózid fór í sjó, Falid marar-sandi, Fólkid allt med fjøri þó Frelsad nádi landi.
Herra Arna þrautin þver, Þakinn Rínar sólum, Sezt nú fjádur best sem ber, Biskup nýr ad Hólum.
Hønum fylgi fridar gnægd, Farsæld, yndi, sómi, Vinsæld, gledi, hugar-hægd, Heidur, gæda-blómi.
Sendi eg aptur óma val Upp ad þagnar landi, Ervidt fellur hryggum hal Ad hreifa Ása-blandi.

Kvæda hljódin minka mér, Mædist sagna kraptur, Gæda þjódin heyri hér, Hjalid þagnar aptur.

## 7da Tídavísa
### yfir árid 1785.

Skothendt.

Þjódin Isa ætti hér Efnum lýsa gæda, Vér skulum prísa best sem ber Budlúng vísan hæda.

Artal brátt nú reikna rétt Reckar hátta fríu, Hundr-ud sáttir seytján nett, Sex og áttatíu.

Vetur gódan, vedra hægd, Varid lódar fidur, Sumars gródann, grasa=nægd Gaf oss þjóda=smidur.

Heilla=tídum haf og bý Hrósar blídu gæda, Skyldt er lýdir þacki því Þengil frídum hæda.

O! ad skatnar ørt í stad, Um lífs gatna brautir, Vildu barna, einsog ad Arsins sjatna þrautir.

Herrann kefur hrygd og pín, Harma sefar kælu, Suma hefur hann til sín Heim, og géfur sælu.

Síra Jón, sem bana beid, Bergsson, þjón guds dygg-ur, Lofsaung tónar, laus af neyd, Ljóss vid trón óhryggur.

Burt þó farinn sofi sætt, Samt vid þar ad gáum, Eptir varir mannord mætt; Medan hjara náum.

Síra Rafnkéll sigur vann, Sem er jafnan fagur, Sælu hafnir fridar fann, Fridar dafnar hagur.

Herra Eirík, son hans hér, Svædis leirinn byrgir, Kífs úr seiru kommin er, Kátur meir ei syrgir.

Frí vid mein á Fellsmula Folur Einar prestur, Lífs hjá hreinum hèrtoga Hægd ei neina brestur.

Síra Bjarni í Selárdal Sútir farnar skilur, Lista-gjarn í sælu=sal Saung guds=barna þylur.

Torfi Síra í Flatey fèck Fegurd bera sanna, Dauda hèr frá gøtu gèck Guds til herbúdanna.

Backastadar þínga þjón, Þorsteinn gladur deydi, Full-mettadur sælu-sjón, Svo ei skadar leidi.

Prófasts kjørin hafdi hann, Hjálpar ør vid lýdi, Sig-ur-før því fagna kann, Frí nú gjørr af strídi.

Hálfdán Rektor Hóla dó, Hulinn spektar rædum, Gæda frekt fær gengi þó Glediligt á hædum.

Síra Grímólfs grafar-mid Gráts nam tíma hamla, Horfinn líma fór í frid Fús med Símeon gamla.

Síra Jón med sælu-von Sorgartóninn endti, Herr-ans þjóninn Helgason Hans hjá tróni lendti.

Benedikt Síra sorgum frá Sverda-ver nú deydi, Breida — er á — bólstad sá, Borinn hèr í leidi.

Rángárvalla valdsmadur, Vel til fallinn þreydi, Þor-steinn allvel þockadur, Prísa-snjallur deydi.

Hjálpar ei þó hrúgjist fèd, Heims eru vegir slíkir, Linast þeigi løgmáled, Líka deya ríkir.

Þorgrím sóma sýslumann Seggir róma dáinn, Bedj-an óma burt-daudann Byrgir tómann náinn.

Sálin finnur sælu hans, Sem ei linna náir, Hrósid svinna merkismanns Margur inna gáir.

Dauda-staup vid sorgar sjó, Sem hans draup á skrúda, Nýtur saup í nádum þó Nevel kaupmann Búda.

Angrast dróttir, ørvast fár, Ýmsa sóttir begja, Egg-ertsdóttir kosta-klár Kristín rótt nam deya.

Hún var sómi, lýda ljós, Lærdi fróma sidi, Mun því rómast hennar hrós, Hún og ljóma í fridi.

Lída fleyin lemstur ný, Lamin eya-bandi, Seggir deya sjónum í, Sviptir megin-landi.

Nesíd Akra nýta enn Nádi blaki mœta, Tvø skip rak med tíu menn Til língbaka sœta.

Malarifi mœtti á Mastra-bífur voda, Sex menn þrifnir sucku þá, Sjáfar drifnir hroda.

Bátinn strandar bylgjurnar Byrgdu andhvals svædum, Tveir menn anda tíndu þar, Tóku land á hædum.

Arid smæckar Íslands þjód, Yndid læckar ríka, Bølid stæckar, bólan ód, Brøgnum fæckar líka.

Margt má rita í sagnarsal, Sorg þó bitur typti, Stóllinn flytjast Skálholts skal, Skiptir litum stipti.

Jardir stóla seljast senn, Svo vid bóli rana, Tjarnar sólir aptur enn Ødlast sjóli Dana.

Stiptamtmadr burt sig bjó, Bragna þad ei hryggir, Lísta hradur Levetzó, Lauritz stad nú byggir.

Skipid backa Eyrar á Enn til skacka snéri, Araracki svo ad sá Sundursprack á skéri.

Hafdi lýdr land og fjør, Laminn hrídum sárum, Søck í vídir klofinn knør, Kraminn strídum bárum.

Oma valur mædist minn, Mínkar hjalid góma, Heidur talinn þróist þinn, Pundur fjalars róma!

Fródur ódur flatt nú datt, Fljódin rjódu hyrdi, Þjód til góda hvattann hratt Hródrar gródur virdi.

## 8da Tídavísa.

### yfir árid 1786.

#### Sagravilla.

Tídin hefur tæpa leid, Tídin vekja ætti lýd, Tídin rennur tilsett skeid, Tídin enda skal um síd.

Arid forna úti er, Ar þad vakti mørgum tár, Arid nýa ad nú fer, Ar þad blessi Drottinn hár.

Sæl nú þjód um sinnu hyl Seytján hundrud skrifar neyt, Mælir áttatíu til Teit og sjø um Íslands reit.

Gæda vetur reckum réd Ráð til afla veita bráð, Ædi stórri mædu med Mádist knør um géddu lád.

Aungla hjúpur fiski-feng Fródri veitti íta þjód, Saung þá byr í stífum streng, Stód á eptir hvals um slód.

Arid gott ad vedri var, Vægdarsamt med grasa nægd, Fár þó margur baga bar, Bægdist sumum gledi hægd.

Sóttir fæcka firdum hætt, Fátt kønn standast daudans mátt, Dróttir fóru ad sofa sætt, Sáttar budu góda nátt.

Brád um æddi bólan ód, Baud ei gledi vægdar snaud, Dádum prýdda deyddi þjód, Dauda þoldi margur naud.

Hustrú Þórun frægust fyrst, Fest biskupi Hannes best, Gust af dauda hørdum hrist, Hrest í Gudi sáladist.

Rakna brár þad sorg er sín, Svídur skadinn Íslands lýd, Sakna menn, en sú er lín, Sídar kémur betri tíd.

Skara manna, segnin sver, Sárligt bólu deyddi fár, Þaraf margur baga ber, Báran heljar svall í ár.

Adrar sóttir einnin med, Adur sem eg hefi tjád, Badid daudans bjuggu séd Brádum fólki út um lád.

Lostinn kvída lýist mest, Lystir því á burt sem fyrst, Kostablída kjósa best Kristi þjónar himna víst.

Hjørleif prófast, hvor ed var Hradordur á Valþjófs-stad, Orin dauda skædbeitt skar, Skada víst má reikna þad.

Þjódskáld gott med sóma sid, Sanna margir ordstír þann, Fródleik allan vandist vid, Vann því fylgja mannæran.

Ærumadur audnu hár, Adur sem ad rækti dád, Næred fyllti nýræd ár Nádi høfn vid dýrdar lád.

Síra Vigfús, sem ad fyrr Sáum Miklaholti á, Er í gégnum daudans dyr Dáinn leiddur heimi frá.

Vel framgéck med vizku-skil Válmennid um harma-dal, Vel því fær, sem von er til, Valid hrós í dýrdar sal.

Hálfdán prest eg hníginn tel, Hólum í sá dygd ei fól, Sálin skín í sælu vel Sólu fegri lambs hjá stól.

Síra Þórdur sem ad skír Svarabeinn á Hálsi var, Er í fridi fremdar-dýr Farinn upp til Guds dýrdar.

Hlýdinn prest á Hjaltastad, Heitinn Grím, úr sorgar reit Blídum sælu sølum ad Sveitin Engla flutti neyt.

Prest á Heidi Sigurd síst Saka nádi daudans tak, Bestan hrepti blóma víst, Blakar eckért mædu skvak.

Gætinn prest í Sudursveit, Síra Brynjúlf dáinn hér, Lætur Drottinn, víst eg veit, Vera nú í dýrd hjá sér.

Síra Oddur sóma dýr, Sá er Miklabæ nam fá, Er burt horfinn, øld svo skír A jørd hann ei finna má.

Madurinn hvarf af heim í leid, Hann þó ecki finnast kann, Gladur sá med sælum deyd Sannann hrepti dýrdar-rann.

Stórum fæckud øldin er, Árin brugga sorgar-fár, Sjórinn skada líka lér, Ljárinn dauda bítur sár.

Nordur á Skaga skiptjón vard, Skvøldrud æstist báran køld, Borda hindin hrepti gard, Hølda fim þar misti øld.

Þjód í Fljótum fær og téd, Féck eitt skipid bana smeck, Bródir elds þar ryckja réd Reckum sex á heljar-beck.

Od á Gufuskálum skæd Skadlig aldan birdíng ad, Fródir þrír um hvala-hæd Hradast þoldu daudans bad.

Eyrarbacka siglu sýr Sundrast hlaut á karfa grund, Fleirum Ránar-her óhýr Hrundid féck í þorska-lund.

Mæríng Dana, margur tér, Mýki efnin sorgar-rík, Lærdóms-skólann lagdi hér Líka nú ad Reikjavík.

Kvæda þverra þulin ljód, Práda vantar hvíld og nád, Æda Kváſirs buna blód Brádum ſtemmiſt orku þjád.
Fridur, gledi, gæfan blíd, Gladvær ſæld í hvørjum ſtad, Ydur fadmi fyrr og ſíd, Fadir dýrdar géſi þad!
Tjódrud ódum gjørir gád Gródurs ljóda hljód ófród, Módu glóda bør í brád Bjóda rjódur gódri þjód.

## 9da Tídavíſa

### yfir árid 1787.

Stafhenda.

Lof ſé Gudi, einn því er Alda púnktur lidinn hér, Arid gamla endaſt vann, En hid nýa byrjaſt kann.
Frá Kriſts burdi ſælum ſenn, Seytján hundrud árin menn, Attatíu og átta hjá, Alda hjóli minnaſt á.
Lidinn vetur lék vid þjód, Liſta tídin hæg og gód, Høldum jók þad hepnis ard, Hagalítid ſkjaldan vard.
Virdum féck þó værdar ſtans Vorid hart til ſjós og lands, Graſa kæfdu gródann hér Grimdar hørdu kuldarner.
Naumt var ſprottid náttar jód, Nýting féckſt ei heldur gód, Skada gjørdu ſkurirnar, Skémduſt tødur vída hvar.
Gódan hlut og ſiſkifans Fengu margir ſunnanlands, Ferdamanna mál þó kvad, Minni afla veſtan ad.
Herrans gaf nú høndin beſt Hvíld af ſóttum, neyd og peſt, Fátt ſvo hér af fólki dó, Frid og hægdir Gud oſs bjó.
Ei gat daudans ilſkugéd Alla ſamt í fridi ſéd, Sumum hrygd og ſøknud jók, Suma hann í burtu tók.
Herra Arni hugar-rór Hóla biſkup deya fór, Endti hann med ſóma ſid Sitt ákvardad æfi-mid.
Hann var madr hreinlyndr, Hjarta prúdur, raungódur, Vitur, lærdur, velidinn, Vina hollur, trú-rækinn.

Mannvøl landi misśast úr, Mjøg þad eykur harma-
skúr, Hitt má gledja þó, ad þeir Þursa aldrei deya meir.

Síra Markús frelsi fann, Flatey vestra þénti hann,
Gégnum daudans gøtu fór Gladur inní englakór.

Dáudinn brúkar djarft tilgrip, Druknad hafa fjøgur
skip Þessu lidnu ári á, Ymsum svída skadinn má.

Eitt úr Lóni vestra var, Virdar ser þá dóu þar,
Einnin tédi øldin teit Annad væri úr Stadarsveit.

Þridji ránar-rackinn snar Róms af Hvalauesi vat, Og
svo drekti ofþýngdum Aldan bát í Njardvíkum.

Austan til vid Ísaland Engelsk dugga hrepti grand,
Fast í hafís fleyid var, Fannst ei rád til útlausnar.

Flýdu bátum ítar á Alda lestum birni frá, Annar
svo med siglu-slík Sydra nádi Grindavík.

Hinum fréttist eckért af, Allir halda hann í kaf
Sockid hafi sels um reit, Sannleik þarum eg ei veit.

Kaupmanns-skip úr Kúvíkum Kramdist lest á grynn-
íngum, Trékillis hjá vík þad var, Virdar dóu allir þar.

Fríhøndlunin fer í hønd, Frítt má hvør um Dana-
lønd Velja kjørin kosta gód, Og kaupa nú vid Íslands þjód.

Hafnir, skip og húsin greipt Hvørjum bídst, er gétur
keypt, Þó skal hvør einn høndlari Heita og vera borgari.

Eg þó leingi ei ordin par Um þad stand og nýúngar,
Mun þad verda virdum samt Vel kunnugt og minnis-tamt.

Birtir ritid bodskap hann, Byggjast skal nú dómkyrkjan,
Gengur verkid greitt sem ber, Grunnmúrinn því lagdur er.

Hún skal standa hefdarrík Há og breid í Reikjavík,
Meistaraliga múrud gløgt, Med blódraudum steini þokt.

Þángad flytjist austan ad Ærin skrúdi og hvadannad,
Er má prýdi auka þar, Og í Skálholts kyrkju var.

Skálholts-leysi mun nú mælt, Mjøg sem hreysi nidur bælt, Stórlegana steipast fer Stóll biskupa forni hér.

Svo sem eckja, er misti mann, Mænir hrørleg dómkyrkjan, Prýdi firt og føl ad sjá, Fyrri daga sakna má.

Svona er heimsins sæld og fé, Svona er flest hans ágæte, Hverfult eins og hjól annad, Hvør vill setja traust á þad.

Marga stángar mædu kíf, Manns er fullt af sorgum líf, Trega eykur tírum brands Tilburdurinn utanlands.

Landi vor á Lodins kvon, Listagjarn Jón Eyríksson, Konferenzrád hilmirs hér, Hørmuliga dáinn er.

Þørf er jafnan þjódin blíd Þess sér óski fyrr og síd, Guds ad ødlast fridar fund Og farsælliga dauda-stund.

Inndælt líf med audnu hag, Afgángssælann banadag, Himna vissa vegsemd mest Veiti ydur Drottinn best!

Gródur ódar falla fer, Fer ei ljóda spjallid mér, Mér ad þagna hentar hast, Hast því gagnid menta brast.

## 10da Tídavísa
### yfir árid 1788.
Stikluþáttur.

Fjøll há gyllir, hvít af snjó, Hlýa nýárs-sólin, Øllum hylli ítum bjó, Allri snilli flýtir þó.

Fjølga tídir, finna má Farid er ad kvølda, Heiminn lídur eflaust á, Endíng sídast reynir sá.

Burtu fleytir ári ár Ydar tíd á hjóli, Tída breitíng kosta klár Kætir sveit, þó mædi fár.

Kristi þvíad fædíng frá Faldar aldir seytján, Attatíu ár þarhjá Og svo níu finna má.

Sídstaflidinn vetur var Vída strídur nærsta, Kinnarfidur fjorgýnar Føldu nidur snjó-skaflar.

Af því segja áttu þó Allar valla-sveitir, Sumar eigi sáu snjó, Ad sídhøtts-meyu hló eygló.

Veitti skjaldan vorid gladt Vægd né hægd á stormi, Nordan kalda kulid stadt Kunni valda gras ei spratt.

Hart um engi haudurs fló Hræsvelgs æstur þitur, Ríxdi fenginn sá úr sjó, Seggjum lengi skada bjó.

Ymist stedjar útum heim Audur, naud og gledi, Nockrir sedjast sæld og seim, Sumir kvedja snaudir heim.

Eggért Síra sagt er frá, Selárdalsins prestur, Holl-ann sér nam fridinn fá, Farinn er úr heimi sá.

Prýdi-mæta prófast þann, Pál á Valþjófsstadnum, Dáinn grætur margur mann, Meinabætur fékk þó hann.

Gísli prestur ádur á Arnar-forna-bæli, Lúa mesta leystur frá, Líf fékk gódum Gudi hjá.

Síra Eggért, sem ad deyd Sat í Flatey vestra, Lasta dreggja laus vid neyd, Lífsins seggur endti skeid.

Arni Síra birtir blad, Vægisá sem þénti, Skilinn hér vid harma-vad Hafinn er í dýrdar-stad.

Signór Wíum sýslumann Svida daudans kéndi, Sigri nýum hrósar hann, Himna fríu sælu fann.

Jón valdsmadur reisdur ró Rángár-þíngi stýrdi, Heims vid gladur gæfu-bjó, Gódhjartadur líka dó.

Manna Baldur vitur var, Vasinn losi granna, Fær um aldur eylífdar Ædra vald hjá Gudi þar.

Daudinn kann ad gjøra grand, Grípur svipull mengi, Eykur manni amastand, Ædir hann um sjó og land.

Ollad hefir tólf eg tel Tøpun skipum þessi, Mjøg hann krefur menn í hel, Marga vefur rauna-jel.

Meir enn hundrad hálft eg finn Holda aldan gleipti, Er vid stundar afgáng sinn J sjó fundu dauda sinn.

Ærid dignar orkan góð, Øllum fallast hendur, Manntjón rignir mjøg á lóð, Mikið hnignar Íslands þjóð.

Þetta stipti, það er satt, Þrjú ár nú sem liðu, Mørgum sviptist mønnum hratt, Mjøg það tiptun hørd á dátt.

Þjóð má undra þulan séd Þúsund níu yfir, Er í grund um árin téd Øndud fundu grafar-beð.

Hundrud fim sem birtir bók Búið þúsund yfir Bólan grim í burtu tók, Blakið dimma mædu jók.

Margt ádunar mædubað, Margir farga kæti, Kauphøndlunin kreppir að Kopar munum standið það.

Ymsir glapa á ábatann, Ærna girnast dali, Niðurhrapar hæverskan, Húngrud gapir fépíngjan.

Sumir vínið hvoma hast, Hollri spilla rænu, Eins og svín í feni fast Fálma, hvína, botnveltast.

Rádahradur ráð tilbjó Rétt með nettu skrifi, Stiptar gladur stipti ró Stiptamtmadur Levetzó.

Vill hann smíði vopn og sverd Virda mergd í landi, Efað lýðum yrði gérd Øvild stríð af hernadsferd.

Ævar hrestu Íslands þjóð Ærna vørn og skýla, Herrans mesta hjálpin góð, Hann gaf besta frið á lóð.

Børn hann selur sízt í grand Sín né pínu lánga, Hann sér vel vorn hag og stand, Høuum fel eg Ísaland.

Að oss gæti ætíð sá Aðalrádur besti, Sendi kæti svædi á, Sjálfur bæti raun og þrá!

Rendur kjalars rjómi þver Ranni inn að kvæða, Sendur valur óma er, Endar halur róminn hér.

## 11ta Tídavísa
### yfir árid 1789.

Alhendíng.

Rodull fagur renna fer, Rís því bragur lítill hér, Nauda hagur núna þver, Nýárs-dagur kominn er.

Seytján húndrud sóma há, Sjálfu stunda-hjóli á, Og níu — fundin — tíu tjá Tyrfíngs þundar datum stá.

Vetur lidinn var hægspar, Vardist fridi høggvardar, Lódar-fidur lítid þar Lákadi kvidinn skævadar.

Vorid kulda vakti pín, Varma duldi kjørin fín, Kári þuldi kvædi sín, Kræfur buldi um fjørgýn.

Líka gengu landskjálftar, Lýdum fengu hrædslu par, Gøptu lengi gjábarmar, Gusudu strengjum vatnsædar.

Heyskap medal-máta í, Margur tédi útum by, Dynja rédu regnin ný, Rírun skédi tødum því.

Hluti góda, hermt sem var, Hlutu þjódir sumstadar, Nockrir hlódu hlunna mar, Helzt til gróda framkvæmdar.

Aflinn strandar stapa frá Stórum landid audga má, Rírir standid sultur sá, Sumum vandar faung ósmá.

Veikt er nædi veraldar, Vølt eru gædi luckunnar, Daudinn ædir ecki spar, Ymsa mædir hér og hvar.

Margt hann bakar meidsla sár, Mjøg svo flaka eymstrud sár, Mørg orsakar mædutár, Marga blaka vann í ár.

Harmagjøldin hørd tilbjó Hann med kvøldi líffins þó, Skard í holda skara hjó, Skérdist øldum þaraf ró.

Inngáng vidur árfins þá, Ædstu gridum féck ad ná, Upp í fridar unun há, Olafur smidur Lundum frá.

Bús í drifinn breitni stands, Bjó med þrifum innanlands, Hrósid lífir listamanns Lengi yfir moldum hans.

Slepti hreti heims um frón, Hrepti betri dýrdar-sjón Ljóss í setri, laus vid tjón, Landfógétinn herra Jón.

Gledi-tída tjónid séd Tældi fridrar eckju géd, Djúpt í vídir varpast réd Widøe frídi son hans med.

Hel gat þvíngad hóffamann, Húnvetnínga sýslumann, Magnús slíngum bættist bann, Bøl ei þínga mædir hann.

Old þó lúrist, Lausnarinn Leiddi trúr í himininn, Burt frá skúrum sorga senn, Síons múra vokumenn.

Á þad minnast mønnum ber, Mædu tvinnast strengur ser, Doktor Finnur dáinn er, Dáda svinnur biskup hér.

Prýddur lista lærdómi, Lausnarans kvistu vøkvadi, Dyggur Kristi dýrkari, Doktor fyrsti á Íslandi.

Grætur stiftid merkismann, Mætur sviptist burtu hann, Sæta giptu kjósa kann, Med kæti lyptur Guds í rann.

Dauda-kastid blída bjó Berg prófasti sálar-ró, Var ad lasti vitur þó, Vinsælasti hédan dó.

Gudlaug prófast Gørdum á Grøsin rósemd kunni ljá, Burtu dó í Drottni sá, Dýrdar hann féck vist ad ná.

Drottins þjóni hæfdi hrós, Himna tróna barst í ljós, Burt frá lóni sorgarsjós, Síra Jón, sem var í Kjós.

Líka deya vitur vann, Vestmanneyja kénnimann, Páll er feginn finna kann Frids á vegi sælu-rann.

Sorgar-bægi sviptist frá Síra Snæbjørn Lundi á, Burt þó dæi, dýr mun fá Dýrdar-hægi Gudi hjá.

Austur á Sídu sáladur, Í sælu frída innleiddur, Síra blídur Sigurdur, Segist vída harmadur.

Þessir allir unandi Yndis snjallri farsælni, Lífs um hallir ljómandi Lof Guds spjalla dansandi.

Biskup Hóla brádt í stad, Bod sem sjóla fyrri kvad, Sigurdur stóli sezt nú ad, Sveit og skóli gledst vid þad.

Luckan bædi og lánglífi, Lán er grædi mótlæti, Ljófs og hæda lidfinni Léuist gæda mannvali.

Sinni annad birta ber, Biskup Hannes giptur er, Ungann svanna átti sér, Ad þeim hranniſt luckan hér.

Yndis gróda ununin, Æra, hródur, bleſsunin, Og gledi fróda farſældin Fadmi góda biſkupinn.

Sóma hradur son amtmanns, Segir kvada ſtjórnarans, Magnús gladur fá til sanns Sé løgmadur nordanlands.

Sýſlan Kjósar kæti ann, Kjørnum hrósar valdamann, Sendir ljósa sævar þann, Sigurd glósa øldin kann.

Peſsa leidi luckan há Lífſins ſkeidi jafnan á, Hér eg eydi ódar-ſkrá, Oma veidi hverf svo frá.

Porns fé Baldur þríſligur Peim alvalda afhendtur, Lángann aldur lánſamur, Lífs og kaldur bleſsadur!

Odar ſmidur mædaſt má Módur vidur kvæda ſkrá, Hljódin nidur lædaſt lá, Ljóda gydjur æda frá.

## 12ta Tídavísa

### yfir árid 1790.

Sléttubønd.

Gyllir ſunna foldar ſit, Flýtir klára gagni, Fyllir runna loga lit, Lýdir ári fagni!

Stunda breiting ſkédur ſkjótt, Skrifaſt því med fríu, Hundrud ſeytján árin ótt, Eitt og níutíu.

Hridjuſamur vetur var, Vargur ſelja ódur, Ydju tamur þeirri þar, Paut um ſkélja-rjódur.

Vorſins gæda blídu blær Bægdi vinda meinum, Horſins mæda nú ei nær Nagadi kinda beinum.

Góda fengu heybjørg hér Hirdar liprir ſkída, Gróda mengi ljúfann lér, Lifna gripir vída.

Ránga-hundar sóktu sjó, Svo ad linni bægi, Spánga-lundar þádu þó Þorsk í minna lægi.

Slítur sorga-klída klíd Kaupa-vaninn þjóda, Hlýt-ur borga fiskinn frid Fríhøndlanin góda.

Marga vegi hefur há Herrans mildin sæta, Bjarga degi æfi á, Old þess skyldi gæta.

Nægann greidir, skíra skal, Skérf ad líffins notum, Þægann leidir svo í sal Sinn ad kíssins þrotum.

Hefur leidda ýmsa enn Upp frá strídu tjørnum, Séf-ur reidda sælu senn Sínum frídu børnum.

Prestur Jón á Hólmum hné, Hulinn dygdum tédur, Brestur tjónid sá þó sé Syrgdur hrygdum medur.

Kjørin medur prýdi par Prófasts rækta kunni, Bør-inn tédur Þorláks þar Prisum nægtar unni.

Leiddi dauda gatan greid Gudmund prestablóma, Eyddist nauda lasin leid Lífs í besta sóma.

Arfa fróma Þorgríms þann Þreyir vísid rjóda, Þarfa ljóma hulinn hann, Hrepti lísid góda.

Síra Bjarna fallinn frá Fridar hæda gengi, Bera þarna mætur má Merkin gæda lengi.

Blídur prestur, mælir mál, Melstad ráda gérdi, Frid-ur bestur sælir sál Sigur dáda verdi.

Dauda høggur sigdin sár, Sorgar bægi lisir, Nauda snøggur flytur fár Frón og lægi yfir.

Réru taldir Fljótum frá, Fallid máttar ríka, Eru faldir seggir sjá Sextán, átta líka.

Grindavíkur báru-bjørn Bodar stórir nístu, Hrinda slíkir ára ørn, Øndu fjórir mistu.

Eyrarsveit nú sakna má Seggja þar sem unni, Leiru-reitur þegna þrjá Þreif ad marargrunni.

Konum þremur eystra ár Ódar dreckja nádu, Vonum fremur sorgar sár Sældum hneckja gádu.

Vestra hrapa gjørdi greitt Gargans hlídar heidi, Lestra gapa þøllin breitt Paraf sídar deydi.

Fyrir vestan þegna þrjá Þjádi bráda daudi, Kyrrir bestan søgnud sá, Fjádir dáda audi.

Snjallir valla held eg hér Hørku dauda svæsi, Allir falla þegar þver Þessi nauda-æsi.

Hæda gramur øllum oss Andláts blessi stundi, Græda tamur kryddi kross, Kramda hressi lundu!

Von nú krefur kætumst vér, Kvída sviptur, gladur, Sonur Stepháns ordinn er, Olafur stiptamtmadur.

Setur snoturt ør nú á Amtmann nýr ad þiggja, Bessastadi mætur má Meldal fría byggja.

Fellur ljóda máttur mér, Mér ei lætur staka, Hvellur hljóda þáttur þver, Þverrar nætur vaka.

Slétta bandid mædir mig, Mærdar spjallid tefur, Þetta standid sýnir sig Sumum fallid hefur.

Hrósar gruni túngan treg, Tóm vid ama-sláttinn, Glósar muni aldrei eg Yrkja sama háttinn.

Skyldu ljódin ríra rétt Rænu stóra trega, Vildu sljódin letur létt Lesa fjóra vega.

Frídann hjørva vessi ver Vænstur gæda sómi, Sídan orva gledji grér Gódur hæda ljómi.

Fundur óma þreittur hátt Hætta vegi gengur, Lundur skjóma þreittur þrátt Þvættir eigi lengur.

## 13da Tídavísa
### yfir árid 1791.

Snidhenda.

Hlær hin skæra eygló enn Yfir dofra-hollu, Nýárs hlýa sunna senn Svædis prýdir vollu.

Seytján heita hundrud téd, Hvad ei lýdi furdi, Níutíu og tvø ár med, Trútt frá Drottins burdi.

Frekur breka bani var, Byrgdi jardar frída Haddinn gaddi hér og þar, Haga bágur vída.

Þundar sprundid þreitt og mædd, Þørfum horsin raka, Stundi undir klaka klædd Køldu tjaldi jaka.

Lengi gengu lýdum hjá Lurka horkur mestar, Hrundu blindar bedju á Bædi féd og hestar.

Þó garpar snarpir greiddu vad A grunnúngs ranni bláum, Hlutum lutu ítar ad Ædi vída smáum.

Vori óra-vedur á Vann med fønnum þrasa, Sumar kom, enn þurkur þá Þvíngadi tímgun grasa.

Vegna regna hróktust hér Heyin ný og tada, Margir farga fódurs sér Firdar hjørd til skada.

Fyrst ad listin fjáraflans Farsæld nær ei veita, Skyldi mildin Skaparans Skír oss kærust heita.

Unnum kunnum audnu plóg, Or sem Herrann géfur, Enginn drengja nær enn nóg Nýtur veit ad hefur.

Daudinn audi sinnir sízt, Sér þá slær ad lýdum, Hølda valda hrísur víst Hart í burt á tídum.

Merkin verkin vísa ný, Vorum dyrùm nærri, Ita nýta nockra því Numdi eymdum fjærri.

Meldal helid amtmann á Ædi studdann sóma, Sálin táli frelsud frá Finnur sánnann ljóma.

Játast látinn lögmann Björn, Laus vid hneisur allar, Sæt hann kætir sóma-gjörn Sælan alráds hallar.

Gunnar kunni gódlærdur Guds hjörd fódra dyggur, Pálsson frjálsi prófastur Prýdi hæda þiggur.

Hóla skóla rektor rétt Rækti spektar gengi, Prýddi skrýdda presta-stétt Prúdur sídan lengi.

Seggist hníginn Sira Jón, Sonur Steingríms frómi, Eptir sleptann sorgar-sjón Sálu hylur ljómi.

Klerkur merkur Kyrkjubæ Kjörinn Pórdur rédi, Högna fagnar arfi æ Ædstu fridar gledi.

Snaudur daudinn vída vann Veidi brádur flana, Yldu kalda eirninn hann Itum lætur bana.

Fernum hérna sydra senn Saltid velti knörum, Níu fríast fengu menn Frá heims lúa-kjörum.

Skíri eg Mýrum skip eitt af Skada beid og svona, Dýrir þrír um daudans haf Drengir gengu og kona.

Stýris dýrinn tvø, menn tjá, Tjaldid síldar byrgdi, Svalid fal menn sér og þrjá Sjós í Isafirdi.

Prjáli málud póstjagtin Prýdi fridar misti, Húna lúni haukurinn Hrakfall mikid gisti.

Báran ára sleipnir sló, Slétt svo datt vid landid, Þegnar fegnir fjøri þó Flýdu dauda grandid.

Sótt med ótta vestra vann Værdar skérda fridinn, Særdann færdi margan mann, Módur ydrum lidinn.

Fundid hundrad hálft og tveir, Helgafells í þíngi, A vikum hiklaust þremur þeir Þádu dauda stíngi.

Atján gráta eckjurnar, Eirninn börnin laungum, Grædarinn hæda þeirra þar Þerri tár af vaungum.

Vídar strída sóttin sár Seggjum brugga rédi, Naud og dauda nú í ár, Nockud smæckar gledi.

Gæti mætur Gud í nád Gódur lýda finna, Nægdar vægd í neyd og rád Nýt oss láti finna.
Von er svona høndin hans Hrísid fús upprétti, Undrum stundar ilskan manns Ofurgnæfa pretti.
Okur, hroka, ágirnd, róg, Ykjur, svik og stygdir Heyra freirar nadda nóg Nú um Snælands bygdir.
Dvína sýnast dróttum hjá Drottins óttinn mesti, Menn, er kénna naudir ná, Rádi Fadirinn besti.
Fengid mengi hefur hér Hagordt løgmanns efni, Geymir seima Grøndals ber Gédugt vidur-nefni.
Lýsi vísdóms ljósid þekt Lundi handar sóla, Svo vanda grandi géti hnekt Greidir nødru bóla.
Letin hvetur huga minn Hér ad ríra stefid, Rædu kvæda róm um sinn Ræmir ama kvefid.
Vessa þessi linna ljód, Lýdir kvædi þiggi, Hressa blessi firda og fljód Fridur hæda tiggi!

## 14da Tídavísa
### yfir árid 1792.
Staghenda.

Nýársdagur sýnir sig, Sigtýrs hani vekur mig, Mig vill fá ad laga ljód, Ljódum væntir eptir þjód.
Þjódin átján kosta klár, Klár svo skrifi hundrud ár, Árin sjø nú vanta vid, Vid svo reiknum ártalid.
Talid ára minnir mann, Manns ad dvøl í heimsins rann Rann sem straumur ør í á, Á þad þenkja sérhvør má.
Máské líssins tæpa tíd Tídum endi fyrr enn lýd Lyda vardi skamtad skeid, Skeidar æfin hrada leid.
Leid árstídin gørpum gód, Gódan vetur hafdi þjód, Þjódar fé féck jafnan jørd, Jørd þó væri stundum hørd.

Hørdu frostin løgdu lá, Láu firdir vøtn og á, A vordøgum snøggum snjó Snjóadi yfir foldu þó.

Þó sumarid gengi í gard, Garda fódur lítid vard, Vard heybjørgin recka rír, Ríraft faung þvi skéraft kýr.

Kýrgláms brjótar hægan hlut Hlutu opt, þó vættu skut, Skutar giltan tølti tóm, Tóman bar og margur góm.

Góma krár, sem spara ei spjall, Spjalla fisk fyrir ofan fjall, Fjall og bárdar kríngum kann, Kannast øld vid þoskaslann.

Aflinn sydra þverdi þjód, Þjódum ørbirgd hér af stód, Stód til baga málin mørg, Mørgum ef ei kæmi bjørg.

Bjørg því Dana gilfi gaf, Gaf hann sinni mildi af, Af korntunnum hlunns med hund Hundrud tvø á Ísagrund.

Grundi menn þad gjøf er gód, Gódan kóng þá hefur þjód, Þjódin slíkan Íslands á, A því Gudi þackir tjá.

Tjádann Dana mildíng mest Mestur Drottinn annist best, Besta yndis farsæld frid Frídann krýni ár og síd.

Sídhøtts orra tíst eg tel, Telur nú þá fengu hel, Hels og sídstu útfør í J Guds hendur lidu frí.

Frí prófastur mein vid mørg, Mørgum Síra Páll vann bjørg, Bjørg í kisi fús því fann, Fann hjá Gudi sælu hann.

Hann í Holti kéndi klár, Klár um lidin seytján ár, Ár kalladur blóma ber, Berliga því Drottinn sér.

Síra Jón og nádum nær Nærir þjádann hvíldin kær, Kæru sinni mætri med, Medal daudra jardast réd.

Rédi nesi Hítar hýr, Hýr nú þiggur kjørin dýr, Dýran sigur fékk og fann, Fann svo víst í himna-rann.

Rann út ára-glasid gjørt, Gjørt Þorsteini presti ørt, Ørt svo Hallgríms sonur sá Sá Guds blídu himnum á.

Askóg stærra værn á var, Var hann lengi prestur þar, Þar til daudinn fús ad fór, Fór hann þá í englakór.

Kórum þénti sér med sann, Sannur Bjarna nidur hann, Hann Eiríkur klerks med kjør, Kjør þó máttar bristi ør.

Þrin dauda lífid lént, Léntum krapti þá féck endt, Endt nær hafdi kosta klár, Klár á nýrædt átta ár.

Arum saddur hvíld svo hlaut, Hlaut þar víst er mæda þraut, Þrautum horfinn finnur frid Fridar kóngsins sídu vid.

Ar sín endti vel ad von Von-gódur Jón Arnórsson, Svona Snæfells þíngid þann Þannig misti sýslumann.

Bar um sveitir þjódin þeck Þeckjanligann kvillasmeck, Smeck súr daudans veig er var Varir sumra bleikti þar.

Þarvid daudinn eyrdi ei, Eyabandid lamdi fley, Fleyast menn í saltann sjó, Sjóar-bylgjan margann sló.

Sló hún Selvogs mastra mar, Marinn gleipti sjø menn þar, Þarmed fjóra ødrum af, Afar-bíst var sjóar haf.

Haf í Grindavík eg veit Veita kunni baga sveit, Sveitarmenn í hættum hyl Hylja gjørdi dauda til.

Til eg greini seytján senn, Senn og átta fiskimenn, Menn er látna þuldu þar, Þara tún því ófært var.

Varar mynni fór hér frá, Frá eg, bátur nesi á, A sem höldar tøldust tveir, Tveir og látnir meinast þeir.

Þeir sem fóru um Hræbardshaf, Hafa dáid vedrum af, Af þeim sex vid kulda kíf Kíssamt létu þetta líf.

Lífi tapa virt sem vann Vann í Hvítá úngur mann, Mannvænligum geira grér Gréru sár, því hólpinn er.

Eru tveir sem glens ad gjørd Gjørdu ferd um Skérjafjørd, Fjørd þann dottnir ofan í Í svo deydu sundi því.

Því er verr ad margur mann Mannaskadann reyna vann, Vann og funi gørpum grand, Grandar margt um Ísaland.

Lands um reika fregn sú fór, Fóruſt menn í reikhafs jór, Jór þann bruna kvaldi kaf, Kafi dóu fjórir af.

Af ſkrifpiſli ſatt eg ſá, Sá hét bærinn Hellum á, Á hann hølda ſegir ſveit Sveit í Biſkups-túngu reit.

Reita fréttir menn ad mér, Mér því barnaſkólinn er, Er á Hauſaſtødum ſtár, Stár þad ritad, ſagdur klár.

Klár nú Snæfells ſveitin ſér, Sér ný-fenginn bauga ver, Ver því fagnar ſýſlu ſín, Sínum frída Eſpólín.

Líneik, prýdda dofra dóm, Dómkyrkjunnar preſtshønd fróm Fróma feſti ſjálfri ſér, Síra Geirs er prýdi ber.

Beri gæfan luckuløgd, Løgd á arma hjónin ſøgd, Søgdu láni reiſiſt rétt Réttvís hvør í ſinni ſtétt.

Stéttir allar næri nád Nádarhøndin Drottins ſjád, Sjádir dygdum vel ſvo vid Vid hans unum ſtyrk og frid.

Frid ljær endir mærdar mér, Mér er beſt ad þagna hér, Hér ſkal mund, er ſkrádi ſkjal, Skjalad enda vísna tal.

Talid rædu hæſir hal, Halur kvæda læſir ſal, Sal í þagnar anar inn Innfús Ragnars ſvanurinn.

## 15da Tídavísa
### yfir árid 1793.

Tvíſkáhendt.

Geiſlum frána Gullbjørt mána hueita, Angur rekur óds úr ſal, Atrids vekur hanagal.

Nýárs-ſkálir Nú er mál uppſetja, Vínid jara jeg framber, Janúaríus kominn er.

Sveit á grundu Seytján hundrud ſkrifar Nauda frí, þar nærſt er téd, Níutíu og fjøgur med.

Er þad valin Aratalan ſídan Kóngur hæda hátign-ar Heims til mædu føddur var.

Vindsvals arfi, Vedra starfi tamur, Reidur lengi um roda tún, Rosa-fenginn ýgldi brún.

Ævi snjóa Opt á móa lagdi, Hérmed blotum hleypti í, Haga-notin rírdust því.

Gripum manna Gjørdi fanna kýngja Ei þó glata elgs um haf, Opt því bata Drottinn gaf.

Hluti ríra Hlunna-dýrin báru, Um vertíd því vída hér Voru strídar ógæfter.

Vors um daga Vallar fagurlima Kneist ad vanda kefja vann Kalsablandin vedráttan.

Sumarstíd þó Sydra lýdum færdi Hluti mestu úr hnísu-bed, Heya bestu nýtíng med.

Haustś regnórar Heyskap stórum rírdu, Sídan gæda vedur vær Virdum nædi lédu kær.

Hafa settum Haldist rétt ad jólum, Vídt um slódir vinda-ranns, Vedur gód til sjós og lands.

Engin sóttin Sérlig dróttum hefur Núna fækkad ør í ár, Eda stækkad rauna-sár.

Þó hefur hari Himnaskara fridur Nú frá allri neyd og pín Rockra kallad heim til sín.

Sodd lífdøgum, Sóma føgur skilin Heims vid neyd-arhretin mørg, Hustrú deydi Ingibjørg.

Biskups Gísla Grund ár-kvíslar bála, Eckja var med dáda dóm, Dygda varast kvenna blóm.

Løgsagnarinn, Laungum marinn kvilla, Liljendal, sem lýstir bar, Leid til sala Guds dýrdar.

Vígdur prestur, Vanur bresti sældar, Er í fridinn innleiddur, Olafs nidur Sigurdur.

Uti létu Líf í hreti snjóa Tvø børn prests á Eydalsá, Er heim messu héldu frá.

Dauda-blundur, Daudastund þá kémur, Ecki tefur, opt þad séſt, Itum géfur lítinn freſt.

Nockrum mætti, Nú ſvo bætti kvída, Hann á mýrum hrafnreidar, Hlunns er dýrum rendu þar.

Nordur í Fljótum Nauda fljótur bilur Nítján brøgnum brá í kaf Báru-vøgnum tveimur af.

Ur Veſtmanna-Eyum ſanna lýdir, Tirfíngsſlíngum tírum med Tíæríngur druckna réd.

Veit eg eigi Víſt ad ſegja lýdum, Hvørſu margir hjørsgautar Hafa fargad líſi þar.

Skagaſtrandar Skip á landi þoſka Hættu ſtóra hlaut og tjón, Hlunna-jórinn fór í ſpón.

Einn þar deydi Oturs reidamadur, Fleiri meidſli fengu þó, Fridar eydſlan ſkada bjó.

Hér úr Skaga Harmaſaga flýgur, Bát med tveimur brøgnum þar Byrgdi geimur marhnútar.

Eyabandid Eyaſandinn vidur Flutníngsſkipi formann af, Feigdum gripinn, ſló í kaf.

Drukna nádi Nú af ládi Iſa, Audi búinn óms á kvon, Einar ſtúdent Brynjólfsſon.

Vareygd ſnjallir Vert er allir brúki, Adgætnin er ágæt vørn, Ofdirfdin er ſkadagjorn.

Heims er vegur Hættuligur næſta, A hønum ſlaſa enginn má, Ef ſig ſlaſa vill ei ſá.

Margir reyna Miſtilteina vidir, Heims ad vølt er virdíngin, Valda ſkrøltull hjóláſinn.

Má þad ſanna, Medal annra núna, Lengi metinn luckúſnjall Landfógétinn Skúli kall.

Elli mettur Af er ſettur vøldum, Búſtad ſleppir, léni og lýd, Lúinn hreppir hvíld um ſíd.

Hans umbrota Hvar eru nok og gródi? Er þad nema auds útkast, Ormsemi, þreita, last?

Hug ei límum Heims vid tíma sælu, Afslepp gædi eru hans, Auka mædi sálu manns.

Einsog straumur Ydar naumur tími, Einninn fésecks ástvinir Eru Mesecks náttgéstir.

Þeir sem hlædast Heimsins gædasafni Eru líkir øsnum þeim Utí ríkum sudurheim.

Þessir bera Þrátt á sér um daga, A sem reyna aslid hart, Edalsteina, gull og skart.

En nær leidin Endast greid ad kvøldi, Sínum búníng svo med hast Sveittir og lúnir úrfærast.

Þreita sjúkir Þeir med búkinn hrumann, Allri prýdi alsneiddir Eru sídan burtleiddir.

Margir virdar Mammons byrdum undir Alteins kjaga ofþýngdir, Alla daga hugsjúkir.

Ofurgjøldum Allt ad kvøldi safna, Piggur audinn þánka haf, Þar til daudinn sprettir af.

Hrekjast sídan, Hér þá lídur æsi, Baksárir af byrdum þeim, Bersnaudir úr þessum heim.

Þannig tídum Þessum lýdum gengur, Betra mundi meidum seims Minna stunda gædi heims.

Mál er ódur Ordа fródur valla Sinni hvati endíng ad, Er mér bati sjálfum þad.

Illa vøldu Gillíngs gjøld því dvína, Dilli øldum fridur fús, Fylli hølda gridum hús!

# 16da Tídavísa

## yfir árid 1794.

Gagraljód.

Gagra sel eg lýdum ljód, Lifnar hyrjar kiljan fríd, Fagra hvelid upp nú ód, Er því byrjud nýárstíd.

Breitíng stunda brádum skér, Biltir skýum tídin dymm, Seytján hundrud ártal er, Einninn níutíu og fim.

Stirdur hardur vinnast vann Vetur þrotinn nockra stund, Byrgdi jardar haddinn hann, Hleypti blotum opt á grund.

Þó affara-illur ei Itum heita mátti hann, Snjóa-skara þýddi þey, Þegar beitin mínka vann.

Gæda vedur vors um dag Vann ad jeljum úlfs um sit, Klæda rédi rétt í hag Rindar elju grænum lit.

Nóg var gras en nýtíng best, Nytjudu sveinar dýra sley, Dróu þrasamála mest Mistilteinar ad sér hey.

Haust ópecka rosum reist, Nakt af sútum Geirraudar, Traust ei féck nú lýdum leyst Lángar úti-vinnurnar.

Oldin tédi útum bý Afla gódan þetta ár, Fjøldi lédi fiska því Firdum gróda-efnin klár.

Vard þó mestur vori á Vidbætir af hlutunum, Barda-hestar báru stjá Búnkadir á skutunum.

Fargar mædu farsæld dæl, Firda sedur haf og grund, Bjargargæda blessun sæl Bædi gledur menn og sprund.

Onn ef kíssins orka má Ockar sedja girnd og þel, Sønn mun líssins sælan þá Sætar gledja dána vel.

Er í kjornu inndæli Aerusaldinn sáladur Síra Bjørn á Setbergi, Sonur Haldórs prófastur.

Var hann prestur trygda-trúr Tvø og fjørutíu ár, Var svo mestu býtum úr Blóma-kjørin yndis klár.

Kvellíng þvínga kunni ør Kosta-stórann Drottins þjón, Hellpaþínga bóka bør, Burinn Þorgils Síra Jón.

Tuttu árin tvenn og eitt Trúi eg hafi þjónad hann, Stutt er fár til lykta leidt, Líssins afhendt kórónan.

Særdi dauda sigd óvær Síra Gudmund Høgnason, Værdi haudurs hvíldin hæg Hér øndudum lífs med von.

Sá fimtíu ár og eitt Ey Vestmanna fæddi best, Fá mun því med vegsemd veitt Verdkaup sanna gledi mest.

Veit eg best í fridum frid Fost ánægjan gledja má Heit-inn prest Jón Haldórs nid, Hann var Snæfuglsstødum á.

Fern í árin þrettán þar Þjóna bordi Drottins vann, Hérna klárann hann frambar Herrans orda sannleikann.

Atta árin søgd med sann Síra Benedict Hálsi kéd, Sátta klár þá sálast vann, Svo féck lénad grafarbed.

Hérvist bragna hverful þvér Heims um stíginn mædu-gjørn, Síra Magnús Einars er Arfi hníginn burt frá Tjørn.

Þarfa halur svo féck sá Sælu háa dýrdarranns, En Svarfadardalur sakna má Svoddan dáins listamanns.

Gud med bestu gledi von Gæda fundar heim til bar Gudmund prestinn sama son, Sem á Undirfelli var.

Hér í grafinn fylsni fróns, Fær ósparann gledi smeck Síra Olafur sonur Jóns, Sem ad var á Kvíabeck.

Þarfa stig nær þrotid fann, Þegna flestra syrgdi ønd Arfa Sigurds ørendann, Eyólf prest á Høfdaстrønd.

Stadarbacka ádur á Eirík prestinn dauda fleinn Hrad-ur stack, svo þessi þá Pádi bestu rósemd einn.

Oksins léttir ofþýngdum Yndis metinn søgnud bjó, Loksins mettur lífdøgum Landfógétinn Skúli dó.

Lengi mæddist mørgu í, Mér ei bæri lasta það, Enginn fæddist útum bý, Ei sem væri fundið að.

Rómi enginn ílt um þann, Öndu slepti dáinn hér, Dóminn fengið hefir hann, Hinir eptir gái að sér.

Fornjóts róma følur ver, Fast sem vefur náklæðið, Vorum dómi undan er, Ödlast hefir sannann frið.

Drottinn deyfi synd, en sætt Sé vort skjól í hvørjum stað, Gott svo leyfum rikti rædt, Rínar sólum betra er það.

Óma svølu augun smá Andhvalanna skoðar bý, Rómar tølu þeirra þá Pángs er ranni dóu í.

Bát úr Garði báran sló, Biltust tveir í saltann hyl, Lát þeim varð að lísi þó, Leiddust báðir himna til.

Af Miðnesi út á sjó Einn réð flana siglu-mar, Haf þá trésins hjørtinn sló, Høfðu bana 7 menn þar.

Otur ára kóps um kjós, Kjalar róinn nesi frá, Vota báran svelgði sjós, Seggir dóu tveir þará.

Grædis jór í Grindavík, Gáng er rakti djúps um hyl, Ædis stóra Elris tík Unnar hrakti botna til.

Öndu mistu þegnar þar Proknir ráðum fim og tveir, Løndin gistu gleðinnar Guðs af náðum allir þeir.

Tírar plátu sels í sal Sviptust øndu fegir þá, Prír á báti, skírir skjal, Skagastrøndu rónir frá.

Fleiri rackar ránga ný Nævils þáðu heiptargrip, Eyrarbacka bædi því Brotna náðu kaupmans-skip.

Í mógrøfum, birtir blað, Barn á Alptanesi dó, Frí með gjøfum friðar það Fagnar sjálft og þiggur ró.

Fljót að vanda størf og sljá, Stúlka hvarf í Mosfells-sveit, Njólarbranda nýtir þá Nærdu þarfa eptirleit.

Tafði lýða leit á ný, Lokfins fundin auðgrund var, Hafði víða vatnið í Villst og blundað síðast þar.

Ærid sendi geisla glód Grand í vetur bragna sal, Bærinn brendi þar hjá þjód, Þverá hét í Hallardal.

Ein þar kona innibrann, Undir kallid dauda seld, Meinin svona særa mann, Sjái allir vel um eld.

Grøndum reyrist hæd og haf, Hylur strindi mæda korg, Løndum heyrist ødrum af Ótídindi nógu mørg.

Mistur sorgar med ónot Mørgum sendi hrygdarbil, Kristjánsborgar kóngligt slot Kindir brendi øsku til.

Danskir væntu voda sér, Vogs er bjuggu hindurnar, Því Franskir ræntu frón vid hér Fiskiduggur Hollendskar.

Greidir tóku fimtán før Fyrir vestur-stranda geim, Reidi jóku reckum kjør, Ræntu mestu faung hjá þeim.

Alla bragna alrænda, Einn á hneptu sigluhund, Alskyns gagni úttæmda Ad svo sleptu klakagrund.

Aptur ferjur 6 er sagt Sudur undan Breidafiørd Raptar verju ræntu óspart, Reckar fundu kjørin hørd.

Eitt ásettir ølduskíd Itar tveir og sjøtíger, Beittu rétt um birtíngs hlíd Bragnar þeir ad landi hér.

Grundar fundu fjardar mót Fóru þar á úlfa mar, Pundum undvargs þjódin fljót Pesaum var til adstodar.

Feugu lýdum landsins hjá Lidsemd stóra, er huggun gaf, Gengu sídan gladir á Grædisjór og létu í haf.

Fyrir austan Ísalád Ita fleyum mørgum enn Stirjar hraustir hofdu nád, Hvad gløgt ei þó viti menn.

Klók svo dafni hyggja hæst, Hérmed gipta runnum brands, Bókasafns er félag fast Fagurt stiptad sunnanlands.

Gángi þad med giptu mest, Gæfan fríd þar hlynni ad, Gángi hvad sem gégnir best Gódum lýd í hvørjum stad!

Gángi fridargjøf um lønd, Gángi vo til þurdar hér, Gángi ydur gæfa í hønd, Gángi svo uns deyi þér!

Binda rædu bagar þel, Byrgdi ódinn flód úr són,
Hrinda mædu hagar vel, Hyrdi þjódin ljóda tón!

## 17da Tídavísa
### yfir árid 1795.

Alsneidd Gagraljód.

Nordur pólinn sæmir sæl, Sefar kalan, þýdir hyl, Nýárs sólin, sem yndæl Selur falann geisla yl.

Hundrud segjast seytján nú Sex og níutíu hjá, Arin slegjast, adgæt þú, Einsog slýum vér hér frá.

Vetrar fasta værd ókneist Vedur bestu duldi sízt, Þó vard kast á Góu geist, Sem gégndi mestu hørku víst.

Hørku metinn bilur beit, Bardi þrútinn jørd og grjót, Fim menn létu fjør um reit, Følir úti hárs á snót.

Hrakti féd, svo hrepti deyd, Helzt um vída austurlád, Virdum tédum vann og neyd Vorsins strída kulda grád.

Sumar-øldin þoku þýld, Þordi gjalda regn á fold, Ar og kvøldin skúrum skíld Skoladi kalda Imis hold.

Háann smára hjall ei bar, Hvarfyrir ad afli rír Gæda fár í gørdum var, Garpar skéra fé og kýr.

Haustid sídan hefir tjád Hret og óda storma naud, Féd þó vída féck um lád Fylli góda, jørd var aud.

Þettad ár frá upsa-kór Asla-kjørin margur bar, Filin báru saungin stór Fluttu ad vørum lendíngar.

Audinn hyllist øldin snjøll, Agirnd valla sedjast vill, Daudinn fyllist vart um vøll, Vidt þó kalli horfin snill.

Magnús Síra mælsku-skír, Møgur Þórhalls ordinn nár, Fluttur er med frelsi dýr Í fridar kórinn þetta ár.

Hagadi slíngur helgi saung Hérna lengi um árahríng, Holls-Villínga géck um gaung, Gæsu fenginn med virdíng.

Plúm kaupmadur bana beid Brátt á ládi grjóts af hríd, Annar skada einninn leid, Er þó nádi bata um síd.

Fjalli Ennis undir hann Arka kunni hinsta sinn, Dauds svo þennann daginn fann, Datt á runninn grjót-hrídin.

Mørg vill henda menn um stund Mæda vønd og kæti grand, Nockrum sendi bana blund Bára þønd um karfaland.

Sydra fóru seggir tveir, Sem ad báran dró ad sér, Af sama voru þó ei þeir Presti ára bádir hér.

Eitt af Mýrum ferda far Foldin skerja gleipti stór, Drengir þrír, er dóu þar, Dreifdust hér um síldar kór.

Hvalafjardarstrøndin stird, Stormum reird med blásinn svørd, Finnur skard í hølda hird Harmadreirdu sáringjørd.

Padan fjóra grimdargjør Garpa dýra nú í ár Gleipti sjórin ilsku-ør, Eckjur fíra grétu þrjár.

Nesíd svana merkti mein, Menn þar fínir bjargar án, Tveir andvana báru bein Báti sínum af í rán.

Adrir fóru upp á skér, Ara dýrid steitti þar, Létust fjórir lágt í ver, Lifdu þrír sem bjargad var.

Skógar vestra nes þvínæst Náda misti kjør óføst, Fim þar lestu fjørid dæst, Følir gistu djúpt í røst.

Bát í Rifi báran þreif, Vísna ýfin vægd ei gaf, Tvo menn yfir drøfnin dreif, Daudinn lísid tók þeim af.

Vestra halùr vildi bøl Vinna sel um skérin hál, Féll í svalid frá heims døøl, Fann svo hel, en slepti sál.

Beimur dó í Brúará Brædra — frí frá — túngu ní, Annar ró nam feigur sá Fljóti í med sanna trú.

Atkers banda útlenzk hind, Ofmjøg reynd vid Midnes-lønd, Gjørdi stranda í gæfum vind, Gørpum treindist líf og ønd.

Nýr amtmadur lédist lód, Lyndis þýdur svo er téd, Víbe gladur gjørir þjód Gledja fridum rétti med.

Sydra finnum fógétann, Frægd sem unnir viti menn, Sagt er er Finne heiti hann Hjørsa runnur ný komenn.

Nauda safnar stífum stofn Stefja efni flutt um drøfn, Kaupinhafnar eldbáls ofn Undur nefni fæstum jøfn.

Verst med firdum fregnin hørd, Fljótt um stordu gløggvar spurd, Þó lítt eg hyrdi í letur gjørd Lengja ord um þann tilburd.

Ei svo þvíngi drós né dreng Deisu þúngi géds um váng, Lands frædíngar félags feng Fólks náríngar komu á gáng,

Prentverk ferdugt fengu í kyrd, Fjárs ei spørdu þar til ard, Lista verdugt lands hjá hird J Leirárgørdum stofnad vard.

Hefur kæna hér umsjón, Hardla frínn vid dóma lén, Mærdur vænum menta tón, Magnús lærdi Stephensen.

Luckan stidji lád og féd, Luckan greidi prentverkid, Luckan ydji lýdum med, Luckan breidi á oss frid!

Luckan þjóda hradi í hlad, Hlýfi naudum sannblessud, Luckan gód þér ladist ad, Lífs og daudann annist Gud!

Olli kolla ukki hrell, Allmjøg hallast gallad brall Holl því golla full sátt fell, Fallegt valla kallast spjall.

## 18da Tídavísa
### yfir árid 1796.

Stikluvik.

Sólar hvarfa enn fyrst er Adur lidinn dagur, Omæ þarfa egdur hér Ods til starfa bendir mér.

Seytján hundrud sjáum vid, Sjø og níutíu, Artal fundid letrar lid, Lídur undir sídsta mid.

Vetrar lýsíng vída hørd Var til Porra loka, Sókti hýsíng sauda hjørd, Svell og ísíng þakti jørd.

Ur því hláka eyddi þar Ama ad sumarmálum, Hjarl ei snáka helsótt bar, Hrestu fáka þýdurnar.

Vedur stirt um vordaga, Vafid gnæfum þurki, Gródur myrdti grashaga, Gagni firrti búsmala.

Grasár lítid øld sem ei Ardar færdi gnægdir, Vágust nýtíng, brunnin hey, Búraun flýtir gauts á mey.

Sumum gerdum engin í Ät má heita túgga Kvernbíts njørdum kvøl sú ný Kjørum hørdum spáir því.

Rosum strídum hreisdi haust, Hrakadist kvikfénadur, Hasa sídan hørkulaust Haldist blídu vedur traust.

Afla=fengur vera var Vída gódur nærsta, Fløgtudu strengja fílungar Fram um engi Geirreidar.

Kosta sól þó kæti brá, Kunna menn ad finna, Luckan hjóli idar á, Ymist rólar til og frá.

Dygda hreina merkismenn Margir syrgja hljóta, Slikt má reyna Island enn, Ei sér leyna bágsinden.

Burt frá manna sjón um sinn Sælann helid leiddi, Dygda sanna dádvørdinn, Doktor Hannes biskupinn.

Virda Baldur virdta klár, Vitur, gætinn, tryggur, Mannval haldinn menta hár, Mýtri faldinn nítján ár.

Island grætist, Island má Angrad lengi sakna, Full svo rætist fæd af brá, Fyrst ei bætist skadi sá.

Líkhams brustu bøndin mædd, Borin var til hvílu Margrét hustrú Finni fædd, Fridsælustu sælu gædd.

Heims þá tjón var hér endad, Hrepti stiptprófastur Sælu þjóna samfagnad, Síra Jón á Stadastad.

Vellærdur sem var Guds þjón Vanur Ønfirdínga, Søck ópur í sjáfar lón Sigurds bur í Holti Jón.

Bóka=runn med bestu von Bragnar fregna látinn, Sæmdum kunnann svids á kvon, Síra Gunnlaug Snorrason.

Aldur gladur æfinnar Øl á Helgafelli, Lágtaladur lærdóm bar, Listamadur haldinn var.

Sæmdum haldinn Síra Jón Sáladíst Gils á backa, Gáfum faldinn Guds ords þjóa Gleymdi aldrei fátæks bón.

Sann-vandadann sauda vørd Sæmdi fremd og snilli, Fullstílada fridargjørd Fær því gladur lífs á jørd.

Hafa fleiri hnígid ad Haudri, Gud því leiddi, Svo í meiri saunfagnad, Síra Eiríf burt frá Stad.

Þorsteins arsi prýddur prís, Pétur gætir sýslu, Leid frá staisi lagavís, Lífs innhvarf í paradís.

Ísfirdínga opt á leid Einatt Jón hér dæmdi, Arnórs slíngur arsi beid Audnu kríugur líka deyd.

Thómáss feginn firdar tja Fridur nidur líka Bjørn hlaut deya, bættist þrá, Burt Píngeyarsýslu frá.

Høndlun fría helzt med ró Hlaut í Skutulsfirdi, Tángra dýa tærir þó, Thorlacíus Magnús dó.

Daudinn grætir dáda-spar Dróttir þrátt á jørdu, Itum mætir einninn snar Ut um stræti marvallar.

Stickishólmi fullann frá Farinn stýris-racka Gjørdi ólmur ægir slá, Ísu bólmi køldum á.

Bjøruinn slegna brimvallar Breida — lúdi — fjørdur, Gríman megna grand ad bar, Góts og þegna svelgdi mar.

Reyndi þrotinn audnu ør, Olafs — talinn — víkur, Siglu gotinn svadilfør, Sundurbrotinn lands í vør.

Borgarfirdi aldan á Ara dýri bilti, Drøfn ókyrda drifin þá Deyddi firda tvo og þrjá.

Nesi svana einninn af Otur lítill ránga Bjargarvana komst í kaf, Kólgan bana þremur gaf.

Unnar skídi øldurnar Od á Sudurnesjum, Féllu í vídir fjórir þar, Fengu blídu rósemdar.

Af Seltjarnarnesi neyd Nýtur bátur reyndi, Tjón alfárna tepti leid, Tveir menn þarna hreptu deyd.

Alptneſs halur ítum frá Utaf beitu ſkipi Féll í ſal-
inn ſíla blá, Sjónum falinn daudur lá.

Bát úr Rifi rétt óſvíf Rán ad vana fyllti, Meinum
drifin miſtu líf Madur þrifinn, barn og víf.

Blódug hadda bláſin ſló Bát á Hrútafirdi, Tírar
nadda tveir í ſjó, Trauſti ſaddir, fengu ró.

Holtaſtødum Erlend á Undan landi hrakti, Stýrdi
hrødum ſtafni ſá, Straums á vødum, Skaga frá.

A féll vedur, aldan greitt Ox ad ſexæríngi, Ita géd
féck ángur þreitt, Ecki rédu þeir vid neitt.

Dimman magnaſt, dagur ſvaf, Dróſt ad hauſts níd-
myrkur, Mætti bragna mjøg dró af, Maſtra vagninn
dreif í haf.

Vindur ægur áls um beck Ara-dýrid hrakti, Sex í
dægur ſvoddan géck, Sjór óvægur hvíld ei féck.

Elris greyid ára val Ottadi þrátt, um ſídir Audnu
ſley af upſa-ſal A Flateyar — hitti — dal.

Tveir þá maſtra hrakinn hund Hrjádir ſídaſt knúdu,
Og úr raſta ólgu lund Upp ad faſta leiddu grund.

Land vid Gjøgurs tóku tá, Tirfíngs þarfir njótar,
Lífgjøf føgur þóckti þá Þeim er løgur buldi á.

Einn vár hjá þeim albana Ordinn vørdur klæda,
Følir, já ſem fjørvana, Fleſtir láu magnþrota.

Hraknings ſtrik er høfdu reynt, Helzt ef ſtyttſt er farid,
Þegnar hiklauſt þylja hreint Þrjátígi vikur áfram beint.

Skýlu-merkin Skaparans Skodum, ad hann þrífur
Menn úr kverkum mordbodans, Mikil verkin eru hans.

Ørnudalſins áin vann, Ør í Borgarfirdi, Dreckja
hal, ſvo deydi hann, Dýrdar ſalinn øndin fann.

Skaga — var og — firdi frá Falinn helju annar, Dauda svarinn drengur sá Deydi þar í Grafará.

Grímsá eystra einum bar Andláts sendann bikar, Ydan geista þegninn þar Praut frá leysti hérvistar.

Full nær auda fell í tjörn, Fús í Mosfells-sveitu, Drengur nauda kraminn kvörn Kaus þar dauda, firtur vörn.

Feigdar lögum falinn þó, Tjárpiltur í Hvammi Fjalls úr högum féll á mó, Fáum dögum sídar dó.

Sæmdar-fastur, svo sem ber, Síra Markús gladur Stiftprófastur ordinn er, Andríkastur klerkur hér.

Fridar andi frædi best Fridarboda snjalla, Fridur landid fadmi mest, Fridarstand svo vidhaldest!

Fridur bid eg brædi tál Burtu virtur taki, Fridur grida frædi mál, Fridur ydar grædi sál!

Gagnar vaninn grímunnar, Garpi snörp því kilja, Fagnar þaninn þurbordar, Pagnar hauinn Valgautar.

## 19da Tídavísa

### yfir árid 1797.

Kolbeinslag.

Nýtt þar knúid til med trú Tekür rólid aldahjól Heims innbúar hýrna nú, Hækkar sól vid nordur-pól.

Níutíu og átta í Yfir seytján hundrud neyt Ritum nýum réttast því Recka sveitin datum leit.

Vetrartíd þó þækti þýd, Porri snjóa-kast tilbjó, Ur því blída hlákan hlíd, Holt og móa þýddi frjó.

Svo óbreytid bætti reit Blídvidrid, ad lömb med frid, Lands í sveitum flestum feit, Filtu kvid og hélduft vid.

Vors óþýdu vedur strîd Veiktu gróda lands um slód, Heyskaps tída bar þó blíd Býti þjódum nýtíug gód.

Svo má haustid segjast traust, Sízt þó traudi storma naud, Hørkulaust um héra naust, Hjørdum sauda jørd var aud.

Þorskur gódur géck ad lód, Gafst því fírum afli dýr, Safnar gróda sjáfar þjód, Sæld órír ad henni snýr.

Arnarstapa dróttin drap Dýrin marar, ritad var, Máttu hrapa hels í gap Hnídíngar vid landid þar.

Ráku frí sem fé ad kví Firdar módir uppá slód, Alls simtíu og fjórtán því, Fenginn góda nýtti þjód.

Færstir segja nægtum nei, Nær þó skrídi daudans mid, Merkis deya menn þar ei Mundur vid þeim géfur bid.

Gísla Síra Sigurds lér Syni mótgángs dýrdin bót, Ei hér bera Eydaler Opt hans nóta hárs á snót.

Hálfdáns nidur Hóla vid Herrans þjóninn skildi Jón, Reifdur gridum fór í frid, Frí vid tjón af Krístí bón.

Hvammi frá, sá lasinn lá, Leiddur Síra Steindór er, Værd hann má í fridi fá, Følann skér ei mædan hér.

Grímsson Jón, einn gudsords þjón, Gørdum hann er þéna vann, Laus vid tjón, hjá Lambsins trón Ljóma fann í sælu rann.

Bjørn og Síra hrumur hér, Hárs á kvon sá Snorrason, Leiddur er af engla-her Eptir von í Guds Síon.

Stephán prófast prúdann dró Prests-frá-hólum dauda njól, Syni bjó Gud Þorleifs þó Prisa skjólid sinn vid stól.

Geymir stáls án grida táls Gudmund hér sem þektum vér, Í Kjós á Hálsi fregnin frjáls Følann tér því grafinn er.

Ad sinn boga Olaf Vog Assistent gat daudinn bendt, Dapurt slog hann deyddi og Dygdarment fær verdlaun hendt.

Dæmin sanna, daudinn kann Dáda vandad slíta band, Eykur manni margopt hann Mæduskand um sjó og land.

Straums um reit úr Stadarsveit Steypti bára negl-umar, Atta veitan vogs útsleit, Verdir ára gérdust nár.

Nordur í Fljótum nádu bót Njótar geira, sem ad tveir Sóktu skjótir sela-nót, Sáust þeir ei framar meir.

Ur Borgarfirdí bára stird Bilting hafri þóttu gaf, Al-hjálp virdum ei var byrd, Einn komst af, en tveir í kaf.

Sumum fleinninn bana beinn Bjó til grønd vid skérja rønd, Madur einn í myrkri seinn Misti ønd af bát á Strønd.

J Hverá, sem austur frá Er Fljótshlídar nærri líd, Madur dáinn segist, sá Sér nú blída fridar tíd.

Kata — náir — nesi frá Nauda hendast fregnin kénd, Kafnan þá í Kalmansá Knapi sendur um haglend.

Møtunautur Loka laut Líka skada fólksins ad Sér uppskaut, en sorg af flaut, Sagt er þad í mørgum stad.

Eysan galin Arnardal Æsti rimmu svælu dym, Baula-sal um blundardval Brendi grimm og nautin sim.

Raunabønd á Bardaströnd Bál ad dró og nidursló Bæ, en vøndud Herrans hønd Hlífdi þó, svo fólk ei dó.

Skémma brann hjá barnamann Bjargarseit og smidja neyt, Bæinn þann, er bagann fann, Belgsholt veit í Melasveit.

Líka þar á Læk ad bar Logaglett, því smidja nett, Bygd sem var til brúkunar, Brann upp rétt til øsku slétt.

A Vestfjørdum vída hørd Vella skridar fjøllin vid, Tók frá jørdum tún og svørd, Tæpt er fridar ágætid.

Eya — bláum — firdi frá Frétt samhljóda ritar þjód, Fólk af háum hædum sá Hrynja flódin eins á lód.

Biskup nýr er skenktur skír Skálholts heyrum stipti meir, Yndis dýra ástin hýr Ecki deyr hjá herra Geir.

Blóma fjáda blessud nád Biskup krýni Vídalín, Sóma báda sól um lád Sífeldt skíni Vídalín.

Lyktar ódur, þiggi þjód Þetta midur framborid, Herrans góda likn um lód Leidi ydur best med frid!

Dvínar frétt, en mín skrif-mett Mundin kløck er undra skøck, Línan rétt ei sýnist sett, Sundlióss hløck ei stundi þøck.

## 20ta Tídavísa
### yfir árid 1798.
#### Frumhenda.

Rás á fljótri tídin tøltir, Tekur endur flest med sér, Uppad móti alda røltir, Ei vidstendur, kémur, fer.

Níutíu og níu skrifast Nú seytjándu yfir øld, Árin því mum ecki bifast Ad í nánd fer heimsins kvøld.

Vetrartídin var í fyrra Vindaskékin nærsta hørd, Kvaddi lýdinn logn og kyrra, Lagdi frekann snjó á jørd.

Haddinn jardar hjarn ábreiddu Hørku grófu blótarnir, Gaddar hardir orku eyddu, Ønduđust hófa gotarnir.

Vedrid kalda vors um daga, Vanad raka, þrátt sem géck, Gródur kvaldi helzt í haga, Heyskap lakann margur féck.

Nýting laka líka fengu Lundar skída gauts á mey, Sudda rakar sífeldt gengu, Sárskémd vída eru hey.

Haustid vindum hreifdi strídum, Hrakti féd, en skipiñ braut, Elju Rindar ecki tídum Yndæl vedur sídan þraut.

Vetrar-afli veittist gódur, Vordaganna fengur rír, Blódsins hafla sendir sjódur Sonum manna faungin dýr.

Sumir hradir sig umbúa Seims á torgum hérvistar, Adrir gladir á burt snúa Uppad borgum farsældar.

Biskup Hóla, hulinn sóma, Herra Sigurd daudinn bar, Líkan sólar ljósum blóma, Lífs um stig til farsældar.

Stiftid grætur, Hólar harma, Höldar sakna, mannval dó, Fær ágætur unun varma, Yndis vakna hlýtur ró.

Breida — þar frá — bólstad gódum Bjarna lúinn prófast þann Daudinn bar í burt frá þjódum, Blundar nú í fridi hann.

Gaulverjanna bæ frá bestur Bjarni leiddur Magister, Himnaranna sæld adseztur, Sorg frásneiddur, kransinn ber.

Síra Jón sá Arngríms-arfi, Ungur prestur Borgar til, Æru þjóninn ydnis þarfi Uti lézt í kafalds bil.

Valinn Síra Bernard kéndann, Virdta prest frá Otrardal, Engla-herinn hóf ørendann Heim í bestan fridarsal.

Sveinsson Jón, er nyrdra nádi Nýtur þjóna Goddølum, Djúpt í fróni falinn þádi Fridarsjon í himninum.

Þórdur Síra Olafs-arfi, J Hrappseyu kapellan, Leystur er frá eymdar starfi, Yndi feginn, hrygd ei nam.

Sigurdur taldur sóma prestur, Sonur Vigfúss Hofi á, Fús í tjaldi ferdagéstur, Feigs á stigum daudur lá.

Alpta-mýrar aldinn prestur, Arfi Snæbjørns, Hákon dó, Sælan dýr og sigur bestur Sí og æ hann gledur þó.

Þessir Kristí þjónar allir, Þaktir frægdum hædanna, Gledi lystir lífs um hallir, Lifa í nægdum gædanna.

Merkiskvinna greind ágæta Gudrún, prests í Saurbæ fljód, Rédi finna rósemd mæta, Réttlætt, hress og trúargód.

Atján árin ektabundin Af fjórtándu barnsæng dó, Lífsins klára fridar-fundinn Fékk í nánd vid Drottinn þó.

Borinn heims frá böli hørdu Bjørn var apóthekarinn, Skilinn seims vid safn á jørdu Sá ódapur bana sinn.

Daudinn ædir orku-frekur, Eina gaf ei frest um stund, Ymsa mædir, adra tekur Eins um hafid, vøtn og grund.

Bragna fjóra af bátum tveimur Byrgdi sjór úr Mosfellssveit, Gafst þeim stór, þó þvirfi heimur, Hagur rór í vígdum reit.

Skip úr Rifi ræfill feldi, Réru fjórir bragnar því, Dauds adsvifid hølda hreldi, Hnigu kórinn reidar í.

Báran sló í Berufirdi Bát med þremur austanlands, Løgur þó ad búka byrgdi, Bod adkémur skildagans.

Nyrdra úti urdu í biljum Itar þrír á køldum snjá, Firdir sútum, samt þad skiljum, Sæld órira gjørdu fá.

Barn Gudmundar, pilt í pitti, Prófasts þó á Stadastad, Daudablundur bratt á hitti, Himna ró nú fagnar þad.

Snjóflód glóstast yfir ædi Eystra bæ í Mýrdal var, Hét á Fjósum meinid mæddi, Menn þó dæu aungvir þar.

Nú er farinn Nordra bátur, Nýttur eigi verdur grand, Illa marinn uppí sátur Er vid dreginn þagnar land.

Njóti þundar þrívaldsmála Prýdu stærstu gædanna, Hljóti lundar býleiks bála Blídu ædstu hædanna.

Falur góma, fljótt ónýtur, Fagnar nádum gløggt vid þad, Valur óma þróttinn þrýtur, Pagnar ládum fløktir ad.

## 21ta Tídavísa

### yfir árid 1799.

Hálfsneidt.

Tímans straumur ydar á Oríóns landa rótum, Æ, hvad slegir fólki fá Fram ad alda-mótum.

Lof sé jøfur ljósarans, Líkn er alla fremur, Oss og blessi høndin hans, Hvad sem eptir kémur.

Enn er runnin nota nýt Nýárs-sólin ljósa, Foldin kalda fagnar hvít, Fjøllin geislum hrósa.

Atján heita hundrud ár, Herrann sídan fæddist, Pá af meyu maktar-hár Manna holdi klæddist.

Gódur lidinn vetur var Vora lands um reita, Víst hinn besti vída hvar Vel hann mátti heita.

Skada brádann sumum sá Sannliga þó veitti, Þegar stigum ísu á Afli kári beitti.

Ædis flód af álgrundu, Æstur þarmed kaldi, Rádi lód þá níundu Nótt er Janus taldi.

Braut alvota báran þá Bædi skip og hjalla, Marg-ann tjørgu meid réd á Mikill skadi falla.

Greind á hundrad þridja því Pilsjudýr hjá vødum Moludu talin ókjør í Ymsum veidistødum.

Bilgjan sólgin braut og gnæfd Búdir kaupstadanna, Grandadi sundfoss grædgin æfd Gózi vørumanna.

Eyrar — fór á — backa búd, Bátsendar ad mestu, Ein þar kona lasin, lúd Lífs féck skiptin bestu.

Þjódin Búdir vestra vid Vard þvílíkt ad kanna, Féll ad kalla hallt á hlid Húsid kramvaranna.

Skødudust vída hús og hey, Hérmed braut af stord-um Sterkar kyrkjur gripnisgrey Galladi og úr skordum.

Musterid reista Hvalsness braut Hallt á adra sídu, Nauda vedrid nú og braut Ness kyrkju þá frídu.

Féd, er grædir fram vid géck, Flæddi á Eyrarbacka, Einninn sjór þar feiga féck Fimtíu skeifna-racka.

En hvad þannig mæltum mid Mørg vid kópabecki Býli svalsins skémdi skrid, Skrásett fæ eg ecki.

Lidin tíd þá vetrar var, Vægin flestum þjódum, Vorid hýra vedur bar, Vóx því gras á slódum.

Gódann vída gauts á frú Grasvøxtinn ad mestu Brjótar hlutu nadda nú, Nýtíng þar med bestu.

Haustíd besta vedur vann Virdum út ad mæla, Gledur bædi grip og mann. Gódvidranna sæla.

Hluti nýta vel í vil Vídast fengu þjódir, Vøgudu laglig flóda fyl Full um reidar slódir.

Sumir framast fast med seim, Fylla báda hnefa, Adrir kvedja hús og heim, Hinum rúm svo géfa.

Vard í hørdum vedra bil Vigfús, Grímsnefs prestur, Uti látinn, lífsins til Leiddur trúar-bestur.

Hvida daudans heims um bý, Hvøt á fæti vøkrum, Síra bar og Sigurd í Sælu burt frá Økrum.

Síra farinn Jónsson Jón Játast frá Grímstúngum, Fengins sýngur fridar tón, Frí af mædum þúngum.

Frúna Steinun baninn bar Burt til dýrdarstóla, Arnór borna eckja var Arna biskups Hóla.

Prófasts dáin eckja er, Inní Kjós er tafdi, Níu sú um nýrædt hér Nefnd Cecilja hafdi.

Kendur Andres kapellán, Kosinn Flatey vestra, Lidinn mædu laus vid þján, Leid til kjøra bestra.

Gunnlaug sanna Gunnlaugs nid Gud á Hálsi leysti, Prestur lista frá med frid Fnjóskdælingum reisti.

Múla — talast — sýslu sé Sveinsson Jón dómarinn Sal vidskilinn sinn og fé, Sæll til hvíldar farinn.

Einarssonur fædu frí, Fyrrum sýslumadur, Bjarni hérna haudri í Hvílir burtsofnadur.

Nockrir reckar létu líf Lands í ýmsum stødum, Sumir heimsins kvøddu kíf Karfa fram á vødum.

Ordast nyrdra eitt skip fór Á Flateyarsundi, Fim menn rammur saltur sjór Svæfdi hels med blundi.

Bar úr Leyrár — bátur — sveit Bragna tvo um grædi, Þeim á brimils rökum reit Ránar drekti ædi.

Hné á sjáfar hjarta barn Hjaltalíns á Stapa, Nidur á breidum unnar arn Ond svo gjørdi tapa.

Par úr hverfis bragnar bý Báru fregn og slíka, Grysju hafi úngbarn í Annad dáid líka.

Einninn barn frá bæ í Kjós, Burtrólad af palli, Hittist daudt vid Hnikarsdrós Hátt á Eyrarfjalli.

Skopra Kópvogs skati vann Á Skildínganess bæinn, Fótarbrotinn fanst lífs hans Í Fossvog annann daginn.

Allmjøg spillist heldur herd Høndlun kaupstadanna, Ofhátt skrúfad vøruverd Veldur ørbyrgd manna.

Oskum doskar efra stands Embættisins dosi, Finnast kann vid forsvar lands Fólks nárúngar sosi.

Gud á hædum gæti vor, Gyrdi landid fridur, Gud og leidi luckuspor Lífs um stundir ydur!

## 22ur Tídavísa

yfir árid 1800.

Sagraljód.

Tídin streymir fram sem foss, Fyrrenn vardi stundum þver, Lotsins skilar oldin oss Átjánda af høndum sér.

Greidi þjódir Gudi prís, Gnæfir æ hans makt og hlíf, Hans er stjórnin væg og vís, Veitir, geymir, styrkir líf.

Sízti aldar vetur var Vægur, þýdur Íslands þjód, Litla skafla landid bar, Lagdi skjaldan á né flód.

Vorid færdi vindagjód, Vætu loptid nidurhratt, Nægri svo um njørfa jód Nockurnvegin grasid spratt.

Nýtíng bága fólkid féck, Fidrid vallar skémmast vann, Hrídin nærri hvørn dag géck, Hey í gørdum vída brann.
Kom svo haustid kastasamt, Kvikfé hrakid vída dó, Stífladi frostid strauma ramt, Stundum gott á milli þó.
Í minna lagi medalhlut Mengid sydra féck úr sjó, Fyrir vestan fyllti skut Fólk med gódum abla þó.
Sama þýtur heims í skjá, Þjóta heims mun slitum ad, Einir fædast, adrir fá Anda ríkis sama stad.
Leiddur daudans leidir géck Løgmann Magnús Olafsson, Sefur hold, en sálin féck Sína fyllta trú og von.
Deydi kvennval dygdug ræmd, Dýrdarlaunin féck óklén Margrét húsfrú, sigri sæmd, Sekretéra Stephensen.
Rafnseyri burtridinn frá, Rétt til vígslu hug sem bar, Druckna rédi einn í á Olafur stúdent vestra þar.
Þrír um fjørur laungu leid Løgdu reckar, greip þá flód, Þessir dauda þoldu neyd, Þó vard lúnum hvíldin gód.
Í Oseyri óms vid kvon Ain tók sjo manna líf, Markús prestur Sigurdsson Sínu hélt, en misti víf.
Fim skip Stadar — søgd úr — sveit Sjáfar uppæst hrakti flug, Þrjú í sela suckn reit, Sáludust menn á þridja tug.
Tvø uppundir vidris víf Vestan jøkuls aldan dró, Einn þá hafdi látid líf, Lerkadir hinir tórdu þó.
Frá Bjarneyum báran sló Báta þrjá, svo drektust þeir, Þrettán létu líf í sjó Lundar stáls og kvennmenn tveir.
Fyrir Enni vestra vann Vindur granda feræríng, Fjórir menn í rostúngs rann Røkum mistu lífshræríng.
Hvalrekans vid Hrútafjørd Hljódbær saga vídt um fer, Tóku menn vid teistu jørd Trú eg undir þrjátíger.

Þannig útrann þessi øld Prísa sæl, í mørgu góð, Hún hefur bædi hýr og køld Heita mátt vid Íslands þjóð.

Yfrid marga umbreitíng, Ynnisligt sem gagn ad var, Á sjóndeildar Íslands hríng Upp hún dró til skodunar.

Tólf biskupum Íslands af Andardrátt hún taka vann, Firna mørgum fleirum gaf Fararleyfi heim úr rann,

Híngad stóru bólu bar, Búum lands er hlífdi sízt, Ádrar þrjár á eptir þar, Er mannskædar hétu víst.

Eldgos færdi og um lád Ur Grímsvøtnum nordurfrá, Eins úr-Heklu, skírt er skrád, Skaptárjøkli og Køtlugjá.

Íslenzka hér amtmenn gaf, Og fógéta samlendann, Og nú loksíns láni af Lándi fæddann stiptamtmann.

Flutti hún hér frónid á Fabrickuna í Reykjavík, Fjárpestin, sem fylgdi þá, Fólki vard of skadarík.

Stiptadi hún á stord um sinn Stjørnukunstar æfdann síd, Læknir færdi og hér inn Apóthek og tugthúsid.

Skálholts færdi skóla og stól Skrifud øld ad Reykjavík, Børnum lærdóms en þó ól Ordugleika breitni slík.

Øldin prentverk einninn gaf Oss hér nýtt á sudurland, Þess svo komist ydju af Upplýsíng í betra stand.

Átjánda nam øld og ljá Eptirlegur kaupmannsstétt, Loksíns færdi frón vort á Fríhøndlun og borgarrétt.

Alþíngid frá Oxará Ofaní Reykjavíkurstad Flutti hún, og fékk svo þá Fornri venju umturnad.

Í þrjú skipti ømtin sett Eyju vorri þarmed sú Løgmanns nidurlagdi stétt, Líka nafnid sídast nú.

Løgréttuna lagdi af, Laga stytti mæliþrád, Yfirrétt oss aptur gaf, Assessóra og Júſtizrád.

Oski lucku øld um geym Innréttíngu, sem er skén, Og Júſtitiarió þeim Íslands fyrsta Stephensen.

Hérmed kvedur öldin oss Atjánda og burtu fer, Rétt med votum vinakoss Vale henni segjum vér.

Fardu vel hin fræga öld, Forþénar þú mikid hrós, Uppgötvanin ótalföld A þér vída kom í ljós.

Villu myrkur vondt er eydt Vída hvar og hjátrú ørg, Svo í stadinn sést innleidt Sannleikur og skynsemd mørg.

Veri öldin nýa nú Nítjánda oss velkomin, Ad sannsarsæl yrdi sú Oskar hjartans þánki minn.

Gud! sem rædur himni hár, Hvørs alveldi stjórnar vídt, Géf ad komin öld og ár Oss sé blessad, farsælt, blídt!

Hérvid lenda læt eg ód, Lýdur snildar stundi dád, Heims til enda Islands þjód Anníst mildur Gud í nád!

## 23ja Tídavísa
### yfir árid 1801.
#### Stafhendíng.

Batnar hagur, blídkast menn, Byrjar dagur nýárs senn, Sem umlidnu ári snar Utgángsmid nú takmarkar.

Atján hundrud árin töld Og tvø fundin nú í kvøld Datum skorda drottnar seims, Dýr um nordurløndin heims.

Margt ángrædi, mein og fár Mæddi svædi þetta ár, Hjarl og vídir hørku bar, Hardna tídir vída hvar.

Orma myrdir ánaud bjó, Einatt stirdur, framast þó Gjørdu hretin hørkustands Hardann vetur nordanlands.

Orlynd Góa ilsku til Af sér snjóa fæddi bil, Sem framundir sumarmál Svell um grundir bardi hál.

Hrundu víða hross og féd, Hjardir lýda fentu med, Bauasárin sveltid gaf, Sumir skáru heyum af.

Sig í hlé ei harkan dró, Hrakti fé í ár, vøtn, sjó, Fórust enn vid frosinn geym Fjórir menn í biljum þeim.

Lúngnasóttin leid og hørd Líka dróttar myrdti hjørd,
Enn þá kénnir keim af því, Kindur grennaſt vídt um bý.
Vorſins tídum vedur høſt Vgrdi lýdum ferd um røſt,
Tjøru límd ſvo trippin hluns Tídum hímdu í vørum gruns.
Sveitar trega ſumarid hratt, Sæmiliga graſid ſpratt,
Skada-næm þó nærdi grand Nýtíng ſlæm um ſudurland.
Roſum hreifdi hauſtid þó, Hørkur leyfdi, froſt og
ſnjó, Skafla hvíta haudur ber, Hagalítid vídaſt er.
Afla-fenginn allgódann Ødlaſt mengid ſydra vann,
Auſtur og veſtur var med ſjó Veidibreſtur nockur þó.
Merkis deydi fólkid fátt, Fóru leid ad grafar nátt
Nockrir þó, ſem nefna ber, Náð og ró þeim géfin er.
Krøptum farna kraminn meſt Kálfatjarnar aldinn preſt
Hylur frónid, ſvo med ſann, Sigurd Jónsſon ørendann.
Hnég brádkvaddur Herrans þjón Heima ſtaddur Síra
Jón, Raunir ſjatna, rætiſt von, Á Reidarvatni Henriksſon.
Svefninn géfur ſannann frid, Síra Stephán Høgnanid
Konu og dóttur fylgdi fús Følur ſkjótt í grafarhús.
Sjøtnun meina ſvids á kvon Síra Einar Þórdarſon
Hlaut med fró í Hvammi hann, Hefur ró í grafar rann.
Miſti dapur máttinn ſinn Magnús apótekarinn Orms-
ſon, byrgdur ormum hjá, Er í kyrd, en rís þeim frá.
Drótt ei fordaſt daudans tjón, Deydi nordan læknir
Jón, Sudur á leid ad Leirá hann Líffins ſkeidid enda vann.
Sigríd kvinna prýdi prýdd, Prófaſtsinna dygdum
ſkrídd, Stephäns deydi dóttur kær, Dáin þreyda ſælu fær.
Einatt kári þrúnginn þrátt Þetta ár med ramman mátt
Ægir belgdi uppí ſvip, Ad hann ſvelgdi menn og ſkip.
Geiſi kælinn guſtur ſá, Gróu-þrælinn ſjálfan á, Sjø
fyl eyddi øldubecks, Atján deyddi menn og ſex.

Keyrdur seinn á kémbíngs reit Kuggur einn úr Eyrar-sveit Nádi kanna neyd, og hét Níu manna banaslet.

Kéndi hlés og kólgu grip Af Kjalarnesi flutníngs-skip, Nadda freirar nýtir þó Náduft tveir, en einn þar dó.

Af Hvalfjardar — einninn — strönd Ægirhardur þóttu önd, Braut á mýri Lardhvalar, Bragnar þrír svo dóu þar.

Meiníng líka manna er, Margt því slíku vitni ber, Hofsós-skip og Heidimann Hafi gripid sjóaldan.

Olafsvíkur kaupmanns knør Kéndi ríkur heljarfør, Eyrarbacka vid þad var, Vidir stacka deydu þar.

Odur funi einninn réd Æda bruna skædum med, Vid Búdir vestra brádur hann Brendi meftann vøru-rann.

Einninn heyrist ad nam sá, A Hvaleyri sudur frá, Strángur idja stærdarspjøll, Stóra smidjan brann þar øll.

Stefid svara kynna kann, Commissara landreisan, Bod sem géfur bygdum klár, Byrjast hefur þettad ár.

Sendir hér og eru inn Officérar tveir um sinn, Þeir skilvandir børvar brands Bygd og strandir mæli lands.

Nefnist laungum nú um bý, Nýr er saungur kyrkjum í Leiddur inn, en ítum hjá Alit finnur misjafnt sá.

Illt er þjód nær virdir vest Verkin gód og nýdir mest, Af því bædi last og lof Laungum rædir dárans of.

Englands lýda ecki gód Orlog strid vid Danaþjód, Mín þó dylji mærdin klest, Munu þylja adrir best.

Drottins sterka dýrdarhønd Danamerkur verndi lønd, Eydi hrygdum, efli dád, Audgi dygdum, fridi, nád!

Ydar greidi æfispor, Ydur leidi Drottinn vor, Ydar sesi sorgarkíf, Sídan gési eylíft líf!

Rénar efni, rekst ad nótt, Røckur-svefninn legst á drótt, Forn sem vana færir gøgn, Fengs því hana slær í þøgn.

# 24da Tídavísa
## yfir árid 1802.
### Tví-Skothenda.

Ecki hvílíst alda-hjól Utum býli vinda, Fagra gýla sendir sól, Sem náttgrílum hrinda.

Atján hundrud ár þrjú hjá, Alheims stund svo þurdi, Dróttir fundu datum frá Drottins undra burdi.

Mædan stríd þó lúri lýd Lands á vídum grøndum, Alteins skrídur bág sem blíd Brøgnum tíd úr høndum.

Felli-vetur furdu hast Fjúks nam hret ad tvinna, Valla gétur útmálast Einsog lét sig finna.

Blota fanna sendir sá Svells um hvanna reita, Lýsíng sanna lidinn á Lurkur annar heita.

Hrundu um landid hross og féd, Hel bjó vanda kvída, Daudans granda maulur med Máttu andra vída.

Harkan bardi haf og jørd, Høldum spardi ródur, Há því vard ei hlutagjørd Hvals um garda rjódur.

Vestra mengi hærri hlut Hlaut og gengi þarfa, Vorsins fengur fyllti skut Fram um engi karfa.

Hafís kaldur andi af Ungu kvaldi stráin, Jóll sem aldinn Ymir gaf Ecki faldi ljánn.

Hefdi ei nýtíng besta bætt Badma hnýti jardar, Mundu hvítíngs hara grædt Hafa lítid gardar.

Síki forn, er sveitin sló, Sem uppþorna gjørdu, Drýgdu skorna ladar ló, Líkn réd orna jørdu.

Haust ófrída fróns um leid Fanna hríd uppvakti, Ferda lýdir fengu neyd, Fénad vída hrakti.

Margur kénna mátti þá Meins um hlenna breidu, Klaka fennu kaldri á Kólu menn, þrír deydu.

Tídin góda sídan séd Sældi gródur reita, Ppin lód-in ávalt réd Árid fódur veita.

Nockrir kvída sviptir seim Sútar hvída køfum, Adrir lidu hér frá heim, Hafa frid í grøfum.

Víbe amtmann enda vann Ési-skamt á foldu, Garpar framt þó grétu hann, Grófu samt í moldu.

Mesti trygdamadur var, Mun ei brigda rédi, Avørt dygda upp því skar, Efsstu bygda gledi.

Síra deydi Sveinn í Stød Sviptur neyd burtlidinn, Sál hans leid frá líki glød Lífs í þreida fridinn.

Hilaríus Síra sætt Sefur frí vid tárin, Grímsness því hann fólk gat frædt Fjørutíu árin.

Hansson kaupmann Henrik dó, Høfdi draup ad foldu, Allvel hlaupid endti þó Adurenn kraup ad moldu.

Fleiri bidu dauda dá Dýrann frid svo kanni, Nockrir lidu lífi frá Língbaks nidur í ranni.

Bist óholla báran sló Bát á Kollafirdi, Tjørgu þolla tvo í sjó Tekna sollin byrgdi.

Leyrársveit nam annar úr Jtum sleyta tveimur, Þeim réd veita dauda dúr Deigur Geitis-heimur.

Snjóbyl falinn datt í dá Drengur, halir lesi, Heidi Hvalness úti á, Annar á Kjalarnesi.

Þjórsá sendi kalda kíf Klóta-bendir einum, Sverrir kéndur lét þar líf Loks frá vendi meinum.

Flóa veikur bær í brann, Borinn kveikjar gøllum, Þordi steikja herkir hann, Hét á Reykjarvøllum.

Tvær mannkindur létu líf, Lifri vindar glæddur, Gaf brádlyndur hvørgi hlíf Húss um grind ómæddur.

Eyrarbacka einninn ljós Eldur stacka sendi, Heysins stacka, hesthús, fjós Hýr offrackur brendi.

Kúvíkanna kaupmanns skip Kólgan vann og steypti, Tveggja manna sjór í svip Sálar rauna gleypti.

Lofdar kjóla lasta traud, Løg er sjóla héldu, Jardir stólsins enn vid aud Allar Hóla seldu.

Forláts beida nennir nú Nera skeida smidur, Bestu leidir lífsins trú Luckan greidi ydur.

. Hverrar hljód og legst í lá, Linnir ódar vessi, Herrann gódur himnum á Hjálpi þjód og blessi!

## 25ta Tídavísa
### yfir árid 1803.

Skjálfhendíng

Nýárs líta ljómann nýta lund skal etja Fram og ríta flegir hvetja Fjødur á hvítann pappír setja.

Atján hundrud ár um grund og einninn fjøgur, Datum fundid sannar søgur Setja undir ritin føgur.

Veitti snjóa vídt á móa vetur lidinn, Lítinn Góa grœddi fridinn, Gaf óróa logna bidin.

Værdir spardi voda hardi vedra haflinn, Laungum bardi lagdann skaflinn, Lítill vard því sjáfar aflinn.

Vestra heyrist, hluti meiri hrepti mengi, Eystra geira gautar lengi Gódum eyra hákalls fengi.

Vorsins daga vedur baga valla bættu, Ylgir draga opt því mættu Als um haga daudans hættu.

Gróðurs kyrda krapt réd myrda kælinn andi, Hafís nyrdra lá ad landi, Læsti stirdur eyabandi.

Bjargar þrot því áfram ota eymdum sveita, Utan nota ítar leita Utum vota kembíngs reita.

Njótar meya nóg spratt ei, þó nýttust tødur, En úthey um engjá stødur Í fór þvegid gard og hlødur.

Haust vedráttan hefur mátt þó heita blída, Kvikfé fátt, sem lifir lýda, Luzast smátt um jørdu vída.

Blódsótt hefur krøm og kvef med kvilla baga, Norn sem krefur náreidslaga, Nockrum gésid endíng daga.

Landphysicus sómarikur Sveinsson deydi Jón, þó slíkan þjódin þreidi, Piggur lík hans hvíld í leidi.

Síra Egill Eldjárns feginn arfinn hrestur Fór ad deya fyrrum prestur, Følanæ eigi værdin brestur.

Hølda þorri hrygdist, orri hárs kvad félli Ur samvist vorri, saddur elli, Síra Snorri á Húsafelli.

Prjá um nírædt dáda drýgir daga endti, J sextíu ár frek þénti Ámafrí hinn fullvel menti.

Prestur djarfur Þórdur þarfur þraut útkljádi, Þórhalls arfi leg í ládi Laus vid starf í Saurbæ þádi.

Þraut frá vendann þó ørendann þjódin byrgdi Gudmunds kéndan son og syrgdi Síra Erlend í Stødvarfirdi.

Á Mikla — betur — bæ í vetur baninn greidi Anda setur setti í eydi, Síra Pétur gamli deydi.

Ásmundur Pálsson metinn máls einn múks apaldur, Kúlu frjáls er ól á aldur, Er ad sjálfs Gudsbodi kaldur.

Um þad gétur, endti vetur audnu mærdur Sýslu — metinn — madur lærdur, Magnús Kétils arfinn hærdur.

Eignast ró þeir daudinn dró í dáværd slíka, Vel sá bjó med blessun ríka, Bógi dó í Hrapsey líka.

Mjøg í ár vard margur nár í marar-sundum, Hels því bára bilti stundum Borda-mar á reidargrundum.

Einn úr Gardi bjørninn barda á breka køldum Fárid harda fékk af øldum, Fim þad vard ad bana høldum.

Bjarni kauna klerkur vann þar kíf í grádi, Líf med annann þá samt þádi, Þó son hann sinn missa nádi.

Af Akranesi ullar fés á ylgjum draga Átta, les eg, endtu daga, Ofan hlés þeir sucku í maga.

Sudur í Njardvík soltinn fjardar sugur bagur Trippi barda tók óragur, Tveimur vard þad banadagur.

At nesi Kjalar brimilsbali bát einn hrjádi, Einn í svali andast nádi, Annar halur lísid þádi.

Ur Drángeyu einu fleyi øldur hrundu, Átta segjast menn þar mundu Marhnúts deya nedst í grundu.

Grímseyar og flutníngsfari ferdar greidu Neyd tilbar á náhvals breidu, Níu þar med presti deydu.

Einn af sjó hér sydra dó á síglukarsa, Øldin þó med øndur farsa Aldinn dró Jón Magnúsarsa.

Í Hvítá einn daudadáid drengur hrepti, Lísi sá og sálu slepti, Sem hérfrá til himna képti.

Þjórsá lédi bana-bedin black og sprundi, Stúlka téd í søgdu sundi Sálast réd af daudans fundi.

Stapa-knørinn øldur ørar ákast skéldu Grjóts í vørum gnód svo feldu, Gózi og fjøri lýdir héldu.

Skaut sig madur skilníngshradur skástum líkur, Ofhugadur, æruríkur, Í kaupstadi Reykjavíkur.

Horfinn þyckju helzt í rick hjá haudri svana, Hlód fallstycki helzt med vana Hann ad skicki þjódar Dana.

Kúlu trøll vid skot med skøllum skért tók rofna, Brúna høllin háls nam klofna, Hné á vøllinn líkid dofna.

Brotin þrutu lángt og lutu loks ad haga, Aungvir hlutu adrir baga, Annra nutu heims forlaga.

Høldar segja hrap réd slegja hal svo skadur Vard ad deya daudrotadur Drángaeyar sígamadur.

Í Landeyum einn hlaut deya út á jørdu, Biljá sleginn hreti hørdu, Hans er þeigi lísid spørdu.

Erichsen fékk amtmanns léni Íslands gladur, Og uns skén er ad sjón hradur Eins og þéni stiptamtmadur.

Sida stýrir sendist skír þeim sögn afskrikur Rádadýr til Reikjavíkur, Refsing býr þeim glæp aflýkur.

Frydensberg sá kæsir kergju kallast vitur, Stóls í fergju sjaldan situr Sízt þá ergju heyrist kritur.

Straff tilsetur, misgjörd metur, mjög aktadur, Brands umgétinn bør er gladur Byfógéti og sýslumadur.

Vísir fjádi vill med dád sig vandi þjónar, Kammerrád til Commisstonar Kom á lád, sem fréttin tónar.

Nú skal banna rænu ranna rindum byggja, Ydju manna ad meir hyggja, Opt hid sanna kyrt má liggja.

Odur falla fródur valla fær hinn stirdi, Þjód þó all-litt hljód um hyrdi, Hnjódlaust spjallid ljóda virdi!

## 26ta Tídavísa
### yfir árid 1804.

Sléttubønd.

Nett ef vanda mætti mál Marar glóda hlinum, Sléttubanda skyldi skál Skenkja ljóda vinum.

Kát óglündrud þorir þýd Þjód, sem vita spurdi, Atján hundrud fim ár fríd Frá Krists rita burdi.

Besti vetur sveitti sízt Sveit med önnum hørdu, Festi, letur vottar víst, Valla fønn um jørdu.

Einmánadur reif upp røst, Rédi kyrdum enda, Meina hradur kulda køst Kunni firdum senda.

Frosti hætti uppheims ørn Il þá glæddist vænum, Kosti bætti søl því fjørn Feldi klæddist grænum.

Midur sprottid frón var frítt Foldar lángs vid blakid, Fidur dottid nær þó nýtt Nádist vángs óhrakid.

Vedur beſtu hér gaf hauſt, Hrídir bágar ſefaſt, Gledur heſta nera nauſt, Rógir hagar géfaſt.

Hluti góda margur mann Marhnúts hlaut úr vødum, Skuti þjóda fiſkur fann Fram á gauta trødum.

Tídum ber frá vøggu vorn Veg til þriſa tegja, Lýdum eru forløg forn, Fædaſt, lifa og deya.

Eru=fremdi hné ſem hey, Hulinn ſénu leidi, Hærur kémbdi amtmann ei, Erichſen hann deydi.

Lundar dyggur veik ſinn veg Víſt í betra inni, Grundar byggir látinn leg Landfógéti Finne.

Frekri ber eg ſagnir ſenn, Svo þær fleirum greidi, Sekretéri Oddur enn A Píngeyrum deydi.

Kvída tínir fús ſá fer Freir und hríſlu gladur, Vídalín hann Oddur er Andadur ſýſlumadur.

Meina gøllum frelſtur fra Falinn er í leidi, Reinivøllum ítur á Oddur Síra deydi.

Manna talda valid vel Víti fleſt nam hata, Fann vid kalda halur hel Hægd og meſtan bata.

Hjardarholts Jón bóka bør, Burinn Kétils þarfa, Fjardar ſolíin aldin ør Andaſt lét í farfa.

Annar reckur líka lézt Lundi ſtála medur, Kannar þeckur frelſid feſt, Fridur ſálir gledur.

Ráinn grefur marar makt Minnúngs runna byrgdra, Dáinn hefur ſveit og ſagt Síra Gunnlaug nyrdra.

Meirum hnekti báran brott Brædrum vogahundum, Freirum drekti hart upphvøtt Hnikars loga þundum.

Skip úr Njardvík fjóra falt Firda bar á unni, Grip=inn fjardar ſogid ſalt Saug ad marargrunni.

Dýrafirdi aldan á Amadi hundi ſtjóra, Hlýra byrgdi þrútin þá Pegna grundin fjóra.

Bát úr Gardi vafdi vog Votur Høgna geymur, Látur barda saltid sog Sálgadi brøgnum tveimur.

Austan úr Mýrdal lágt í lá, Lundar stála skrafa, Traustaun stýrir ferju frá Feigann sálast hafa.

Ferdamanni kalt vid kíf, Kynnir rænan lestra, Gérdi banna lengra líf Lækjar-spræna vestra.

Tjáir skrafid manna meir Margra tals úr gjánni, Dáid hafi fífu freir Flókadals í ánni.

Gnýr ofhastur bjó um bý Bølid mest til reidu, Skírdags-kasti úti í Atta vestra deydu.

Brádum kvaddir ellefu í Ísafjardarsýslu, Nádum saddir fengu frí Frid und jardar hríslu.

Sveit í Stadar dauds vid dag Dóu þrír umgétinn, Veitir skada heilsuhag Háfur nýr mjøg etinn.

Styttust naudir, þarf ei þráut Pesbum meir ad nidra, Hittust daudir lands um laut Líka tveir hér sydra.

Hjørleifs þræla eyum af Urdu tveir ad hrapa, Fjøri dæla hels vid haf Hlutu þeir ad tapa.

Akureyrar kaupmanns knør Kiljur stífar brutu, Rakur keirast vann í vør, Virdar líf þó hlutu.

Bissa hladin rann á reck Reykjavíkur Dana, Viss var skadinn, feigur féck Fljótt af slíku bana.

Manna stig er þrátt um þraut Þegar betur kjørum, Annar sig á skipi skaut, Skaddur lét úr vørum.

Brestur grandid, sér mun senn Sælu hreifa glampi, Vesturlandid einn féck enn Amtmann greifa Trampe.

Landphysicum frónid féck, Fólki ró sem veiti, Handa slíkum gód til géck Gæfan, Kló ad heiti.

Allir dafni fast ad frægd, Follum vidur sjái, Snjallir safni gæda gnægd, Gollum nidurslái.

Orda korda linni líd, Lítt er nettur háttur, Borda-
skorda finni frid, Flyttur dettur þáttur.

## 27da Tídavísa
### yfir árid 1805.

Samhend alhendíng.

Otar tídum alda hjól, Ornar lýdum nýársól, Ský í
hlídum il sem ól Undir frídum nordur-pól.

Atján hundrud sex ár senn Seggir fundu datum enn,
Afram skundar yd med tvenn Æfistundin viti menn.

Vetur blídann fold nú fékk, Feldi kvídann øldin þeck
Utum vídann besta beck Blesšud þýdan optast gékk.

Vors um mund þó veittust øld Vedur stundum hvøss og
køld, Reifd á grundum rýr ei tøld Rosafundum tídum vøld.

Sumarid brœddi svellin hørd Sauda fœddi lembda hjørd,
Vindum grœddi gnúdann svørd, Grøsum klœddi vída jørd.

Stráin spruttu best um bý Barin duttu hirdtust ný,
Grøs óstuttu garpar því Garda fluttu mikil í.

Haustvedráttan hefur gód Heita mátt, en regna flód
Ofan þrátt þó lak á lód, Líka brátt um vindur ód.

Heya gnótt þá hærstú fá Horkuslótta tídum á Bægdi
sótt þó sumum frá, Sjúk því dróttin vída lá.

Svelti vørin mildi mjó Margann knørinn út sem dró,
Nockur kjøru not úr sjó Netja førin sydra þó.

Náreidslaga nornin bráð Nockrum baga vann um láð,
Og sem haga alvalds ráð Æfidaga slytti þráð.

Arna prófast andláts neyd Øldnum bjó í Holti deyd,
Sigurds þó fékk son þad skeid Sanna ró nær hédan leid.

Hraungérds þádi sóknar svid Sveln á ládi Haldórs
nid, Prófasts gádi semja sid, Sá enn nádi hvíld í frid.

Tók burt kvada tíva mál Torfastada Síra Pál, Høgna glada sonar sál Sviptist skada, laus vid tál.

Øgmund Síra hlýra hans, Hjalid tér og ritarans, Leiddann hér frá lúa fans Loks í veru grafar-rans.

Blandin skada gømlud gjørd Gudmund hrada bókavørd Daudans krafa krafdi í jørd, Klerk á Stad vid Hrútafjørd.

Elfa hér frá ángri dró Ásgrím Síra Pálsson þó, Høklaberi hrepti ró, Hann í Þverá eystra dó.

Vestur — hólum — hóps í var Hefnir Olafs prestur þar Jóhann njóla bana bar Burt í skóla rotnunar.

Audnu búin æfi lén Endti nú vid daudans ben, Menja brúin mætust sén, Martha frúin Stephensen.

Heims frá snørum henni ró Harms og pørum daudinn bjó, Af barnsførum dygdug dó, Dýrdar kjørum fagnar þó.

Þorleif haldinn merkismann Meina baldinn daudinn fann, Lími faldinn lét svo þann Landþíngs aldinn skrifarann.

Þó byrgdu løkin blæu sén Bana tøkin vidur skén, Sælurøkin sér ókléu Sigrídur frøken Stephensen.

Ydkun bestu alstadar Ung vidfesti hugarfar, Dygda mesta mannord bar; Mentum flestu gáfud var.

Vídar neyddu meinin meir, Menn og leiddu djúpt í leir, Sig og deyddu sjálfir tveir, Svona eyddu fjøri þeir.

Sjálfs med høndu sig háls skar, Sinnar øndu gætti ei par, Og í brøndu-inni bar Einn á strøndu Hvalfjardar.

Hafnarfirdi annar á Andar kyrdi drátt í sjá, Sig í byrgdi lýsu lá Laufa hyrdir Danskur sá.

Illt er ad seljast efa og þrá, Illt er ad vélast leidum á, Illt er ad felast ýrs vid stjá, Illt er ad stelast merkjum frá.

Var hér fyld hvør vísdómsgrein, Var ei skylda ógjørd nein, Var ei vild Guds eptir ein, Engin snild ad læra hrein.

Heimskann því þann halda ber, Hús sitt frí sem rísa fer, Ovifs í ef hann er hér Hvørt það nýa betra er.

Øldur háar, íllt sem fár Unnu ráa tídum már, Nidur í bláar gímis gjár Gripu fáa þetta ár.

Samt ókyrdi kiljan sjá Kugg, svo byrgdi drøfnin þá, Það var firdi Eya á, Aldan virda gleipti þrjá.

Braut á vendur bodi trúr Brádum kéndur heljardúr, Hlaut ørendur hinstu skúr Halur sendur Dølum úr.

Faraldrid, sem fákum á Fór án bidar til og frá, Kunnugt midur mønnum hjá, Marga nidurlagdi þá.

Skólinn það nú birta ber A Bessastadi settur er, Firdar ad til frædi sér Fletti mørgu bladi hér.

Hér sidlátir herrar þrír Hafa gát og søldin skír, Kvera dátum kosta dýr, Kénnslumáti sá er nýr.

Nafnid Rector aflagt er, Adur þeckt sem mundum vér, Kallast Lector hann sem hér Hærstu spekt nú kénna fer.

Kémur endir kvædi skjótt, Kremur hendi mædi ljótt, Nemur lendíng frædi fljótt, Fremur sendist gædi drótt.

## 28da Tídavísa

### yfir árid 1806.

Ferskeitt.

Listaskáldin lærd um heim Lidug kvædin bjóda, Þó aldrei teljist eg med þeim, Enn þá skal eg ljóda.

Rímna bragur hér þó hátt Høldum gjori sýna, Metur lítils þenna þátt Pessi øldin fína.

Erlendínga eptir sid, A sem stundar þjódin, Klæda bædi og klædasnid Komid er í módinn.

Agæt skáldin Islands, Eptir dønskum løgum, Seggjum brag og selju bands Semja nú á døgum.

Peirra ódur þar um bý Pykir snjall og nettur, Sem málverki er minn í Adgreiníngar blettur.

Eins um verk og ordin tøld Opt er meiníng tvinnud, Komid gétur enn þó øld Ødruvísi finnud.

Hvad sem dæmist, hvad sem skér Hér á þessum døgum, Læt eg pennann leka úr sér Litlum tída-bøgum.

Nýársdagur ørfar øld, Er nú datum setur Atján hundrud ádur tøld, Arin sjø þó betur.

Lidinn hardur vetur var, Varla sízt hún Góa, Nordan bardi blíduspar Bylur þrátt um móa.

Vincentíus dagur dró Drjúgann byl ad skordum, Hrakti féd en húna sló Hross úr sínum skordum.

Einmánudur yfir jørd Arsæl leiddi vedur, Bylja-køstin bætti hørd Blídu sinni medur.

Sorg og mæda sín fær laun, Svo er lífsins hagur, Optast kémur eptir raun Einhvør gledidagur.

Vorid gaf opt vedur gód, Vindur hvass þó stundum Vannadi rás um báru slód Vikudum sigluhundum.

Ardarlítill vída var Vertídanna ródur, Vard mjøg fáum vídasthvar Veittur afli gódur.

Jørd velgróin gaf oss hér Gódann heya fordann, Lakari nýtíng innt þó er Austanlands og nordan.

Hlýtt var sumar, haustid æst Hreifdi bylja-rokum, Fold var vída fønnum læst Fram ad ársins lokum.

Allt er manna hold sem hey, Hnígur dupt ad jørdu, Nú því árid neitar ei, Nockrir deya gjørdu.

Kristján Jóhanssonur sá, Sem prófastur þénti Staf-holtsþíngum dauds vid dá, Dygdugt lífid endti.

Høgnason á Hólmum Jón Hafdi prófasts kjørin, Hédan deydi herrans þjón, Holl var sigur-førin.

Hvøreinn fara hlýtur mann, Heims þá dvølin brestur, Jónas gisti grafar rann, Grímseyínga prestur.

Á Vatneyri Assistent Uti brádum deydi, Jóns Thorbergi heiti hent Hafdi medan þreidi.

Stúlka donsk í dúkaslík, Djarfri gripin helju, Rænd fanst ønd hjá Reikjavík, Rindar køld á elju.

Vigfús Student endti ár, Erlendssonur frjálsi, Í grimdar byl, þá gætti fjár, Gufudals á hálsi.

Kynnt er einn úr Kéblavík, Kaldur þrims á búki, Hafi kjørin kannad slík, Kafnad út í fjúki.

Mann og einn úr Mosfellssveit Myrdti hret óvørum, Fjóra nyrdra fjúk og sleit Frá veraldar kjørum.

Niptin hríngs í Nordrárdal, Nýt er reid til tídar, Datt af baki og dó í sal Døgum tveimur sídar.

Halur nesi Alptar á, Ægirs vanur gráti, Nidur í fjøru látinn lá, Lendtur einn af báti.

Efnid kémur meira máls, Margt er vid ad sídra, Vard brádkvaddur vidur stáls Í Vídirnesi sydra.

Annar Fúlu — vestur í — vík, Vottar frétta klidur, Dauda reyndi dæmin slík, Datt ørendur nidur.

Einninn réd um upsaskeid Ána daudinn brádur, Margbreitt hédan liggur leid, Lífs nær slitnar þrádur.

Vaskur madur vard í ár, Veidar sels í førum, Frá Kolvidarnesi nár Nú á Laungufjørum.

Lidnu sumri líka á Lard drekti halnum, Svarfhóli var seggur frá Svína — hér í — dalnum.

Slá í Rifi vestra vann Vindur siglu fílinn, Fim í sila sucku rann Sálna eydi býlin.

Adrir steita øldu-mar Uppá skéri nádu, Formadurinn fórst af þar, Fjørid hinir þádu.

Báta tvo, er brims á dal Bruslu ráð til varnar, Aldan dró í sila sal, Sels — af — nesi — tjarnar.
Stickishólms nær híngad flaut Hladid skip á drøfnum, Þetta bylgjan þrútin braut Þorláks — fyrir — høfnum.
Holter kaupmann þoldi þar Þá í sjónum dauda, Ødrum bjargad ítum var Ur því bøli nauda.
Umbreitíng hjá ockur sér Einatt trú eg hreisi, Stiptamtmadur Íslands er Orðinn Fridrik greifi.
Lausn í náð af þengil þá Þádi háaldradur, Embættis þeim ønnum frá, Olafur stiptamtmadur.
Aldin þádi eyan vor Yfirmanninn bestann, Adur Stephán Assessor Amtmann nú fyrir vestan.
Einn fékk sydra útlendann, Ør er løgum beitir, Sýslan Kjósar sýslumann, Sem Kúfótur heitir.
Gángi allt sem gégnir best, Gyrdi landid fridur! Gott í hønd, er gledur mest, Gángi jafnan ydur!
Nú er mærdar numin klíð, Nú má slíku fagna, Nú er værdar nærri tíð, Nú skal líka þagna.

## 29da Tídavísa
### yfir árid 1807.
Stikluvik.

Skilníngs hagur skoda þú, Skati mundar ljóma! Hvørsu dagur nýárs nú Nikars fagur gyllir frú.
Atján hundrud átta veit Øldin datum skrifa, Amastund þó Íslands sveit Yfdi lund í morgum reit.
Vetrartídin kulda kénd Kastadi snjó á jørdu, Mørg var hrídin sveitum send, Svana hlídin ísum rend.
Vorid nærdi vedur slór, Varnadi hafís gróda, Lid þó hrærdi lagar jór, Lítinn færdi afla sjór.

Tødubrestur vídast vard, Vallar sínu blandad Reisi mest med ríranu ard Rubbadist flest í soltinn gard.

Frera brautum fønn úr bar, Fjúk á slætti nyrdra, Féd í lautum fenti þar, Fódur nautum gésid var.

Haustvedráttan hefur gód, Hord þó nordan kilja Hrini þrátt um haf og slód, Heita mátt á Ísalód.

Ecki hallar øldnum þeim Adams barna kjørum, Ofjúgt um vallar deildann geym Daudinn kallar menn úr heim.

Eptir stríd, sem stundligt var, Stiptamtmannsins kvinna, Frú Sigrídur féll og þar, Fegurst prýdi kvennþjódar.

Hennar sóma, hennar dygd, Hennar lítilæti, Hennar fróma hjarta-trygd, Hátt má róma Íslands bygd.

Sorgir tepti, sótt er fann Síra Gísla í Odda, Sóknin slepti merkismann, Mjúkar hrepti nádir hann.

Prófasts kjørin hafdi hýr Hann í Rángárþíngi, Høkla børinn heim þá snýr, Himna førin gledur dýr.

Látid bjó og línum eins Lærir Vatnsfirdínga Gømlum ró frá grandi meins, Gunnlaug prófast arfa Sveins.

Sveitin þylur sanna má Síra Erlend nyrdra, Hédan skilinn heimi frá, Hrafnagili prófast á.

Síra Audun baninn bar Bløndudals — frá — hólum, Svo í haudur settur var Sálar audur bærinn þar.

Daudans kvødum margur má Mæta, prestinn líka, Krapti hrødum hreif og sá, Hjaltastødum Snorra frá.

Tjørn á þreidi trúr med von, Talinn gáfu prestur, Géfinn leidi Gauts á kvon, Gísli deydi Magnússon.

Bana rauninn reisdi prest Rafn á Hjaltabacka, Grædir kaunin farsæld fest, Fær hann launin dygda best.

Saurbæ líka sagdur á Síra Magnús deydi, Eptir slíka útfør sá Yndis ríká hvíld mun fá.

Dauds ei fundinn fordast mann, Fyrir bana-skeiti vøtn Og sundin hefur hann, Hels nær stundin yfirrann.

Hlaut í Skagafirdi fá Finnur sýslumadur Annann hag, því endti sá Æsidag í Grafará.

Rík af straum, sem feiga fal, Fedga tveggja í Dølum Ára nauma endti tal Ain Skrauma í Hørdudal.

Ungur mann og einninn frá Esjubergi sydra Hvíldir fann vid dauda dá, Deydi hann í Leirvogsá.

Einn í kéldu andlát fann, Austur í Holtum madur, Elli feldu fjøtur hann, Fúa seldu jardadann.

Ala þakid einn sem géck Undan Vídirnesi, Søck í rakann síla beck, Svo þar takid bana féck.

Einn réd sækja feigd og fá Flókadals í ánni Vidur mækja værdir þá, Varmalæk var þessi frá.

Stúlka sendt frá Stíblisdal, Stúfum eptir reidar, Vard ørend í silúngssal, Sem í grend þar vera skal.

Tjørgu meidum tjón ad bar Tveim med børnum þremur, Sem á skeid um saltann mar, Suckú á leid til Papeyar.

Skafla hristu skridin ør Skip á Dýrafirdi, Atta mistu firdar fjør, Følir gistu djúpt í vør.

Síldarheimur bøl ad bar Bát á Sudurnesjum, Einn féck beimur andlát þar, Ødrum tveimur bjargad var.

Einn daud-kaldur kéndi fár Kópavogs á hálsi, Virda baldur vard þar nár, Vorpinn aldur hæru grár.

Einn úr gildi almennt skeid, Alptar — sudur á — nesi, Halda vildi heim og reid, Hann vidskildi á þeirri leid.

Fridar-galla um sem ód Ysir Danaríki, Kann eg varla ad þylja þjód, Þar um snjalla ønnur ljód.

Birtir tíd med sínum síd Seinna hvørnig gengur Orra hrída ímuklid Englands lýda Dani vid.

Angurs veila að oss snýst, Ýmisligt því skédur, Heims ádeila hjálpar sízt, Hvøreinn feilar, það er víst.
Frid ef náttar, fridarbrest Fridar Herrann bæti! Guds almáttar gæzkan mest Gjøri sáttar þjódir best!
Preytist bragsins hlýda hátt Hølda øld, en Jóni Veitist hagsins blída brátt, Breitist dagsins tíd í nátt.

# 30ta Tídavísa
## yfir árid 1808.
### Valhendíng.

Gardarshólma heilsar nýárs hlýrnir nýtur, Ártal fundid øldin setur Átján hundrud níu betur.
Tregt þó hlær mót Tíla búum tídin nýa, Mædu ský, sem bølid búa, Bøkum svørtum að oss snúa.
Árid lidna ørdugt var í ýmsum søkum, Frost og stormar fanna-rokum Feiktu nær að Porralokum.
Hér næst vatna hríd um grundir hvatti ferdir, Skridu hrundu skaflar hardir, Skémdust vída þar af jardir.
Hér alþektar þrjár eg nefni þeirra á milli, Þá er fengu þýngstu skélli, Piril, Háls og Reinivelli.
Víst má kalla vordagarnir væru gódir, Leitad gátu firdir frídir Fram um bláar géddu hlídir.
Fengu lítinn flestir hlut úr Faxa trega, Vestfirdíngum vorid þæga Veitti sjáfar aflann næga.
Gras var lágt, en gód þó nýtíng gafst á tødum, Sídan dundi drjúg að slódum Døgg og snjór med vindum ódum.
Hey var krabbad heim í garda hrakid, frosid, Líka enn um ládid gisid Liggur það í hrúgum visid.
Lúta máttu lágt í dauda lømb og kýrnar, Ýsludu dreira ítar tjarnir, Allt var fullt med blód og garnir.

Hrakviðra og hryðjusamt má haustið kalla, Gripum jafnan gafst þó fylli, Gott hefur verið þess á milli.

Sumarið veitti suðurlandsins siglu-básum, Góðann feng úr lýsu lessum, Líka hval á Suðurnessum.

Að þeim sannleik árin þau, sem á burt flýa, Vora hugsun vissast hnegja, Vér erum fæddir til að deya.

Dvínar ei né dofnar gamli dauða vaninn, Eins hann læðist uppá tróninn, Og í kríngum betli-þjóninn.

Kristján, Íslands kærann fóður, kvíða virkur Þann sjöunda þrauta sterkur Preis af tróni Danamerkur.

Mildann föður má því landsins mengi syrgja, Aldarheill er efldi marga, Aumum gjörði vel að bjarga.

Jacobs sonur Jón, er þáði jafnan hróður, Er í dauða alsofnaður, Eysirðínga sýslumaður.

Eiriks prófasts í Stafholti æskiligur Vigfússonar vær og þægur Varð burtferðar dúrinn hægur.

Hannessonur Síra Jón, er sóminn studdi, Mörg og þecking mannholl fræddi, Myrkva gøtu dauðans þræddi.

Síra Björn í Hreppahólum hneig að láði, Aldraður með glöðu géði Góðar nætur veröld tédi.

Síra Thómas, sem Grenjaðar — sat á — staðnum, Skúlason í fullum friðnum Finnur hvíld með öðrum liðnum.

Vigfús prestinn, veit eg ei hvörs var hann arfi, Dróttin eptir døpur erfi Drack á Garði í Kelduhverfi.

Þorleifur, sem þókti prestur þocka fróður, Stiltur, gætinn, stygda traudur, Á Stað í Kinn er líka dauður.

Jónathan nam klerkur kveðja kíf á jörðu, Djúpt í jörð hann dáinn byrgði Drótt á Stað í Hrútafirði.

Að vér líðum lífi frá, nær líf er þrotið, Uppá það vér gétum gétið, En Guð einn þeckir banafletið.

Er sú sængin einatt reidd í ýmsum stöðum, Út í vötnum, uppá heiðum, Einninn fram á karfaleiðum.

Það hefur sannast þettað árið þá að nýu, Knör úr Höfnum kaf í flóu Kiljur, átta menn þar dóu.

Eitt fórst skip á Eyrarbacka, ítár greina, Fjórir menn þar fengu bana, Fölir djúpt í landi svana.

Úr Bolúngarvíkur vestra veiðistöðu Áskar fjórir áfall þáðu, Undan landi hrekjast náðu.

Loks þó skipin lamin þrjú að landi þæfðu, Eitt af þeim, sem ægir krafði, Einum hal þá tapað hafði.

En það fjórða ecki náði upp að grundu, Sök það djúpt í sílaströndu, Sex þar bragnar mistu öndu.

Kallar sjö og kvennmenn fim í kuli stirðu, Sem að plægðu síldar jörðu, Sveit — úr — Eyrar drukna gjörðu.

Meður tveimur firðum fram á slíðruhúsi Einn hlaut drukna ára-blesi, Af Seltjarnar — var hann — nesi.

Sorg er mér að þylja það, um þorska grundu Firðar létu fölir öndu Fim af skipi nálægt ströndu.

Bræður tveir frá Brautarholti burt þá leystust, Þorvarður minn þocka bestur, Þar með Hálfdán fyrrum prestur.

Eg hins fyrra sakna sárt, því sá minn skaði Mun ei bætast mér á láði, Mannvalið fyrst deya náði.

Fyrir framan Seltjörn syðra seggja liði Í bláleitu öldu beði Einn af báti druckna réði.

Einatt kémur óvart mönnum yndis galli, Brann til ösku vænn á velli Vestra bær á Staðarfelli.

Hvamm í Norðrárdal áðundi djarfur skaði, Snjóflóð bæinn braut að láði, Barn eitt prestins dauða þáði.

Stúlku eina strauma hørd og straung á ládi Gjøll burttók í gili stríðu, Er géck til kyrkju í Hvítársídu.

Grímsá vildu vandra tveir á vatna þaki, Ísinn brast í søgdu siki, Sál vid skildir urdu ad líki.

Ísabacka bóndinn eystra bægdur æsi, Ásamt sínu vinnu vísi, Vard í Laxá sviptur lísi.

Jokuls-áin á Sólheima — austur — sandi Einum dreki laufa lundi, Líkid stirdnad rak af sundi.

Ur Hrapseyu einn sóck madur áls í dýkid, Hvør ís-jaka hált um rekid Hugdi ad ná í skip úttekid.

Mann og konu krafdi í dauða kuldinn hardi, Á Tjørnnesi Ulfs — á — firdi, Af þeim létti rauna byrdi.

Ádra tvo til ørkumla kól út á ládi, Nyrdra hrakta hels um skeidi, Hvar af annar sídar deydi.

Sudur á nesi send var stúlka ad sækja vøggu, Viltist, fannst ei, virdar hyggja, Vísid muni dáid liggja.

Skólapiltur einn vard úti úlfs á flaustri, Sem ad lærdi sídu bestra, Sonur prests frá Garpsdal vestra.

Sudur í Mosfells-sveit úr barna samfélagi Piltur hvarf af heim í veigi, Hans var leitad, fannst þó eigi.

Sagt er Eskholts bóndi brádann bana findi, Víf og eitt í vinnu standi Vestan Jokuls út á Sandi.

Þessrar tídar sýnist svipur svadaligur, Íslands stand og hølda hagur Heldur enn ecki virdist bagur.

Undarliga árid bjó um ýmsa huúta, Allar hafnir eckjur heita, Engin kaupfør hingad leita.

Enskir nær vid allar þjódir orløg þreita, Øllum kosti illa setja, Allt hertaka sem þeir géta.

Híngad eitt frá Hettlandi þeir herskip sendu, Þessir kóngsins kassa rændu, Knúdir hinir eptir mændu.

Skip frá Þrándheim skaust híngad med skérf af vøru, Hjálp er skyldi haudri færa, Og høfdíngjarnir sundur tæra.

Hvørt þess koma hefur landsins høfgad bata, Eg kann sjálfur ei ad meta, Adrir þar til svarad géta.

Sínum augum seggja hvør á silfrid lítur, Einn hvad gædi eflaust metur, Annar skada haldid gétur.

Mál er þessi rauna rella rakin þagni, Allar heillir eptir megni Ydur þéni, best svo vegni!

Bresta ljódin, leggjast hljód í leg nú gjørdi, Vesta þjódin veg á virdi Vestu Odins tregu byrdi.

## 31ta Tídavísa
### yfir árid 1809.

Prístikla.

Rødull fagur hressi hag, Heilla slagur grædist, Nýárs dagur lífgar lag, Lítill bragur fædist.

Atján hundrud útum grund, Árs med stundu nýu, Skrifar undir leyypturs lund Lýda mund og tíu.

Vetrartídin færdi fríd Farsæld vída jørdum, Logn og þýdan bætti blíd Baga lýda hjørdum.

Fram á Góu blídan bjó Brøgnum rósemd staka, Aldrei sló á merskis mó Miklum snjó né klaka.

Vetrar feng á veidi streng Vognhvals engi spardi, Lypti mengi lands á þveng Léttur vengis bardi.

Vorid bjó ei virdum ró, Vindar flóa hrjádu, Fengu þó úr flidru-mó Fisk þeir róa nádu.

Sumars-tíd ei sára blíd Sýndi strída kafla, Sydra vid þó svana hlíd Sendi lýdum afla.

Hvals vid blakid þoldi þjak Póttu vakur blesi, Þjód þá rak á fjøru flak Fjøld á Akranesi.

Yfir þúsund óma frú Er mín trú ad fengi, Margra nú því bætti bú Blessun sú hjá mengi.

Sumt út flaut um slidrulaut, Fjara naut þess hinna, Skortur þraut, því happ ad hraut Hlinum brautar linna.

Minstann gródur gýnar fljód. Gaf nú þjódum skatna, Haustid óda hratt á slód Hríd og flódum vatna.

Sídan tídin straung og stríd Stúrad lýdi hefur, Fanna hríd med frost óþýd Farsæld vída kéfur.

Nockra ýfir sorg ósvíf Sótt er stífa mædir, Daudinn lífid, kæti, kíf, Kjalars víf um þrædir.

Gudmund Kétilsson eg set Sveitin grét andvana, Sýslu metinn losdi lét Líf í sleti bana.

Gudmunds fróma glansa tóm, Gétur óma veidi, Efldur sóma orda róm, Oekonómus deydi.

Jón prest nidinn Gríms med grid Gledur bidin nauda, Húsa — frid á — felli vid Féck hann hvidu dauda.

Þorsteins handa þreytu grand Protid andar kyrdi, Er prests vanda æfdi stand J Súgandafirdi.

Ari prestur einnig lézt, Æsi brest féck kanna, Pénti hrestur hann í best Hýsíng Vesturmanna.

Hel ólúna hørd á brún Hjørinn búna spenti, Síra Runólfs harma hún A Hvoli núna endti.

Arni sidum mælti mid, Messu smidur frjálsi, Skapta nidur skjótt í frid Skildi vid á Hálsi.

Var þá hrella kunni kvell Klerkur elli-farni, Meid-ur pella mold ad féll A Mælifelli Bjarni.

Lista breytinn hélt sín heit, Hygginn sveitir gladdi, Sveinsson Teitur rauna-reit Ráda neytur kvaddi.

Dal um ædir hel og hæd, Hrød til mædi starfa, Allt eins þrædir ítum skjæd Utum svædi karfa.

Elrisgrey um ægirs mey Ecki geyja spordu, Eitt fórst fley úr Fagurey, Fjórir deya gjørdu.

Kópavíkur voga brík Vindar slíkir hrjádu, Fjóra dýkid lagdi lík, Lífs erríkid þádu.

Skip úr Grindavík í vind Velkti strindin svana, Tvær mannkindur hafs af hind Hreptu skyndi-bana.

Bát, úr Reikjavík er veik, Voda leikur meiddi, Tvo menn bleika bardsz af eyk Blær ósmeikur deyddi.

Skjóma njørd, er skjótt af svørd Skerjafjørd nam flana, Ala jørdin ísum vørd Opnud gjørdi bana.

Vestra snjábrú yfir á Jtar fáir gengu, Brast hún þá, en børn tvø smá Bana dáid fengu.

Einn brád-deydi drógst frá neyd J Dýra — breidum — firdi, Sérhvør greidur sett vid skeid Sina leid um hirdi.

J Mýrdalnum einn sér stal Ut úr tali vera, Héck svo kvalinn hann í sal Hnígínn alibera (reidhesta húsi).

Høndlun þjóda hér vid lód Hvørsu gódu spái, Eg ei hnjóda hér í ód, Hinna ljód þad tjái.

Enskir vanir ýrs vid stjan, Amerikanar víka, Híngad flana hart á svan, Høndla Danir líka.

Stjórn Jørundar grams á grund, Gæfu mund er byrgdi, Helzt má undra hal og sprund, Hún þó stundlig yrdi.

Næsta kvikur Breidablik Byggja hiklaust vildi, Sex í vikur stjórnar strik Stála nikur fyldi.

Vígra grér, af vørnum ber, Vøldum hér nam tapa, Lucifer, sem letur tér, Líka þver fécк hrapa.

Því ad von ei þrjózkur son Þá allskonar nádir, Fyrr Dagon og Phaeton Féllu svona bádir.

Jcarus fló sér ófall bjó, Upp sig dró frá leiri, Féll hann þó og dapur dó, Drambid sló svo fleiri.

Vant er ad sjá hvørs vænta má, Vángs um sláa kéndann, Eda tjá þar fremur frá, Fyrr enn sjáum endann.

Breta knør í burtu-før Brann á dørhvals ládi, Lausn og fjør úr feigdar kør Fólk þó gjørvalt þádi.

Krýni fridur lønd og lid, Leggist nídur hrygdir, Krýni ýdur sældar síd, Sóminn, grid og dygdir!

Hljóda ýdjur hjala vid Hrellir fidinn korda, Ljóda gýdjur fala frid, Felli eg klidinn orda.

## 32ur Tídavísa

### yfir árid 1810.

Stafhenda.

Flytur vinda fram um hjól Fagra geisla nýárs sól, Rindar laugast elju øll J þeim mørkin, grund og fjøll.

Alda hjólid ávalt snýst, Atján hundrud talin víst, Ellefu líka ár þar hjá, Eru Kristí burdi frá.

Præda bistar fíls um far Forlaganna gýdjurnar, Teini snúa títt óspart, Tvinna saman hvítt og svart.

Heyskap litlum helzt órór Hardur vetur eptir fór, Sem med byljum blídu-spar Blakadi kinnur fjørgínar.

Misti hross og saudfé sveit, Sudur og austur-lands um reit, Helzt í Rángárþingi þó Peirra mestur fjøldi dó.

Sældar skortinn fólkid fann, Féd, sem eptir slóra vann, Magurt, lamb-laust margt hvad vard, Mjólkur lítinn gaf því ard.

Vídast gódur veittist þó Vetrar aflinn upp úr sjó Ullum stjørnu eyabands, Einkanliga sunnanlands.

Lopt þó færdi vedur vott, Vorid mátti heita gott, Pjódin róa fékk í frid, Fiskur nógur gékk á mid.

Blómgun þádi Baleigs rún, Í betra lagi spruttu tún, Engid midur varid var, Vallar gisid farid bar.

Tødur nýttust vída vel, Varma sendi fagra hvel, En úthey af hrídar gust Hroktust, skémdust, ónýttust.

Gaf þó yfir grundu hér Gæda vedur Octóber, Færdi sydra firdum lid Fiski-mokid sjóinn vid.

Líknar vedur loptid gaf Lidinn kafla vetri af, Gott er á medan gódu nær, Góds því vænta skulum vær.

Nordan stormur næmur þó Nóvember hinn 6ta bjó Vestra baga lands um laut, Laugarbrecku kyrkju braut.

Hirdslur skémdi hrídin stór, Húsid allt í loptid fór, Skada vedrid skélfdi þjód, Skrúda kistill eptir stód.

Lýdir sakna lands um krár, Lítil sigling var í ár, Hagnad bagar enn um of Annra þjóda fridar rof.

Allra tída ár í heim Alltaf fylgja vana þeim, Ad láta nockra lífi ná, Leida adra kífi frá.

Jøfur sólar játti von, Jón prófastur Ásgeirsson, Vid hér skilinn voda fár, Vard í Holti lagdur nár.

Merkis var hann madur einn, Mentum prýddur lyndis-hreinn, Vinafastur, vandadur, Vakti søknud andadur.

Jón prófastur Sveinsson sá, Sem ad Stad var fyrrum á, Vestra Steingríms — vidur — fjord Var og lagdur djúpt í jord.

Síra Jón og Finnsson fann Frid í Hruna, því ad hann Lík til moldar lagdur var, Lifir ordstýr manndygdar.

Árasonur Síra Jón Sagt er fengi æfitjón, Í Vest-mannaeyum þó Ondu hníginn þádi ró.

Geymir dáinn gýnars kvon Gudmund prestinn Þor-valdsson, Capellan sem vestra var, Vík — í kjørinn — Bolúngar.

Eystra líka orpinn ró Í Píngmúla prestur dó, Síra Jón, sem þénti þar, Pádi kjørin rósemdar.

Haldór saddur sælu von Sýslumadur Jacobsson Orósamligt æfiskeid Endti, þegar hédan leid.

Sótt burtkalla sælann vann Sigurd klaustur-hald-arann, Olafs nid, hann sefur sætt, Svo er strídid gjør-valt bætt.

Følann geymir fornud jørd Factor Búsch vid Skutuls-fjørd, Hastarliga hédan sá Heim og fjøri leiddist frá.

Sóttin deyddi svidagjørn Síra Gísla prest á Tjørn, Orpinn geymir krúngs kvon Á Vatnsnesi Magnússon.

Sigfús prestur Asi á Austur í Múlasýslu fá Nádi hvíld, nær hédan fór, Hann í jørdu blundar rór.

Uti viltur fjørtjón fann, Fram af bjørgum hrapa vann, Isaak um aldinn svørd, Assistent vid Siglufjørd.

Nockrum hefur saltur sjór Søkt í reidar djúpann kór, Því med mønnum sex í svip Søck á Eyrarbacka skip.

Eyafjøllum undir med Annad skipid druckna réd, Ægirs drøfnin orku-rík Atta menn þar gjørdi lík.

Ymisligt til ama ber, Akranesi í vogum hér Drógu bát á djúpann sjó Drengir tveir med leyndum þó.

Løgdu sídan landi frá, Landsínníngur hvesti þá, Kæn-an ónýt fylltist skjótt, Féll á báda daudans nótt.

Vestra datt og dó í mar Darra bør, sem vildi þar, Olafsvíkur inn á høfn, Engelsk leida skip um drøfn.

Viltust fjúks um vedra sal Vermenn þrír í Nordrár-dal, Einn þar deydi, annar kól Enn þá valla fær vid ról.

Asi dvølin er af-slepp, Uti vard í Miklholtshrepp Madur einn, og annar þá Undir jøkli daudur lá.

Piltur, sem ad hirdti hjørd Hér á Brecku vid Hvalfjørd, Lær-brotnadi lands um beck, Lagdist vasinn rauna hleck.

Yfir kominn Ísafrón Enskur barón, vis um lón Náttúrunnar fór ad fá Furdu verkin stór ad sjá.

Aldna prýdir Ísafjörn Endurnýud hreppastjórn, Ellibelg hún af sér veik, Eins og Phoenix reis á kreik.

Sérhvør þeirri svarinn stétt, Sextíu bodord haldi rétt, Af þeim sést, ef ad er gád, Annra fyrri stjórnar dád.

Lofdum géd er ólíkt í, Einn kýs stjórnun Rómuli, Annar Nummæ eptir sid Elskar mildi spekt og frid.

Líkligt er ad lesum vér, Ljóss í daga birtu hér, Upp sem lýsa ætti mann, Eckért nema sannleikann.

Aristagóras ádur þó Uppá sig þann spenti skó, Sem Hýsteus sauma vann, Samlíkt dæmi finnast kann.

Mér er best ad þagna um þad, Pánkinn hvíldar fagnar stad, Linni þáttur ljóda hér, Ljósid dagsins góda þver.

Réna þanninn þáttur má, Pénar manni háttur sá, Þegar ljómi ljósa þver, Leg í tómi kjósa sér.

## 33ja Tídavísa

### yfir árid 1811.

Sléttubanda gagraljód.

Rennur vaka í bygdir blunds, Birtan fer um haf og lønd,
Enn nú kvakar orri þunds Einninn hér á Skógarstrønd.

Nýárs-sólin fegrar fjøll, Foldu laugar geislum í,
Hlýast bólinn úlfa øll, Epli draugar fæda því.

Atján hundrud einninn tólf, Afram bifast tídin sú,
Láta fundid geyms um gólf Garpar, skrifast ártal nú.

Vetur hardur foldu fann, Fé sem baka horinn réd,
Setur vardi héra hann Hørdum klaka lengi med.

Kalt var vorid krapareist, Kári nordann belgdi róm,
Allt smá borid einninn dreift Af því stordar fæddist blóm.

Heyskap lítinn þádi þjód, Pylur fregn um landid vídt,
Ei var nýting íta gód, Offa regn því gengu tídt.
Treginn unnum ýmis flaut Utum dýra vídann sjá,
Heyin brunnin, hrakin, blaut Harla ríru gagni spá.
Nilar løgur vaxinn voll Vida byrgdi djúpur því,
Býli fjøgur af tók øll Eyafirdi vatnsflód í.
Kafid hróda kæfa vann Kýr og hjardir túnum á, Af
þeim voda enginn mann Æfi skard þó gjørdi fá.
Tídast þjádi sveit frá svørd Sels um inni árákló,
Vídast þádi holda hjørd Hlut í minna lagi þó.
Fárid þétta kóps um kór Kveikti trega sumum af,
Arid þetta af því sjór Ørlátligar tók enn gaf.
Far úr Gardi fiskur sló, Fárid stóra nærri géck,
Marinn hardi djúpur dró Drengi fjóra hels á beck.
Yfir Hvalfjord ærumann Einn á báti lúdi mund,
Drifid svalid hrakti hann Hels og látinn uppá grund.
Hvítársídu sjo menn frá, Sælu-býla kjørnir til,
Nýtir skídi øldu á Aldurtýla fundu bil.
Kébla — vestur — vík hér frá Voda dynur hreldi
mar, Tresla hestur holda þrjá Hels í ginid misti þar.
Araheft úr Eyrarsveit Ægirs stóra megnid fann,
Bára hvest í rostúngs reit Recka fjóra deyda vann.
Lifri frekur blossa bjó Bagaríkur hrygd um sinn,
Yfir tekur annad þó Adalvíkur mannskadinn.
Því ad renna þadan fór Póttu-hundur, bar þá hann
Níu menn um kémbings kór, Klerk Gudmund og einn kvenn-
mann.
Løg uppbelgdi svo í svip Sonur þegar Fornjótar, Øg-
ur svelgdi sveit og skip, Sárann trega margur bar.
Sína kallar Kristur frá Kífi stunda heims um bý,
Pína valla þrautir þá, Þægt er blunda grøfum í.

Síra Gísli sómamann, Sem á Breidabólstad var,
Er frá sýsli heimsins, hann Hulinn leidi blundar þar.
Lesa dýra mengid má Munar brest er vídt um fló,
Dessjarmýri austur á Einar prestur Jónsson dó.
Hallgríms Backmanns leirhús léd Lista þecka kvaddi
sál, Allfús drack med gudhrædt géd Géfna reckur banaskál.
Mindar kostinn feigdar fár, Færir grønnum nauda stand,
Vindar, frostin, vøtn og ár Vinna mønnum æsi grand.
Beinn til skada daudinn dró Dug frá øldum hels vid
sal, Einn vermadur úti dó Upp í køldum Nordrárdal.
Nyrdra úti urdu tveir, Einn í Dølum, vestra þrír,
Firdir sút, því lágt i leir Linar kvolum værdin dýr.
Vendir hrada heims um bý Heljar ørin flugi med,
Sendimadur Ellids í Ánum fjorid missa réd.
J Saurbænum blackur sló Barn svo deydi eptir þad,
Fríun rænu besta bjó Børnum leida gætur ad.
Firdar skrafa talid teigt, Tídin stránga mædir þel,
Nyrdra hafi naut manneygt Nipti stángad baugs í hel.
Olafsvíkur kaupmanns knør Kári baga til óspar Sjóar-
ríkur svadilfør Sendi um haga geir-reidar.
Hafnar vørum hann úr sleit, Hristi rengur báran þá,
Drafnar ør svo brædin beit Burtu stengur, segl og rá.
Hreld í kisi búsban bjó Brøgnum stinna mædu gjørd,
Héldu lisi høldar þó, Hroktust inn á Grundarfjord.
Bláfinn vestra blær í dró Bana hylinn sigludýr, As-
geir prestur afkomst þó, Annar til, en dóu þrír.
Fleiri nauda teiknin tøld Teljast enn þá mædu rík,
Tveir bråd-daudir, innir øld, Urdu menn í Reikjavík.
Engelsk sunda svo réd hind Sydra stranda Midnes vid,
Fengu þundar þorns á strind Þó med anda lífsins grid.

Kaupmanns líti kœrn vid sátt Klementssonur, firtur vorn, Kraup ad midi bana brádt, Blinds hjá koon í Víkurtjørn.

Ein í Rángá ytri dó Audar jørdin hreld um stund, Meinid stránga þeirrar þó Þverra gjørdi hels vid blund.

Nauda setur Ísland er, Audnu nátta kjørin trú, Daudans vetur hefur hér Heita mátt þad af er nú.

Undra fárid sjúks um reit Firdum bjó nú skadá keim, Hundrad fjár svo hér í sveit Hrakti í sjó á bæjum tveim.

Gud útskamtar lán um ládi, Léntist gladur, sannar øld, Sudur-amti nú af nád Nýr amtmadur Kastenskjold.

Pagna ljódin, lædist nótt Leypturs út um bláa hvel, Bragna þjódin gæda gnótt Greipt án súta fái vel!

Stagad lagad stef eg hef Storda forda finni menn, Bagad sagad bréf eg géf Borda skordu minni enn.

## 34da Tídavísa

### yfir árid 1812.

Aldýr stima.

Nýráds bý eg far í før Fljótur útaf svara vør, Nýárs því ad sunna senn Svædis prýdir runna enn.

Atján látum hundrud hér Heita datum fundid vér, Sett og þrettán sídan hjá Svølu hjóli tídar á.

Ysinn snýsin orma sótt Undra sendi storma drótt, Neyddu meiddu naudir féd, Nockud hrøck á dauda bed.

Vorid horsins kveikti kíf, Kosid grasa veikti líf, Hafis gaf oss kulda køst, Knúdur vída huldi røst.

Heyskap eigi gódann gaf Gledi nadurs lódum af, Lítid nýting laga vann Lidinn þjódar baga þann.

Haust gaf traustum Hindólfsbúk Himinstrauma vind og fjúk, Hægd, sem vægdar hylli bjó, Hér og var á milli þó.
Ský óhlý og héla grá Huldi foldar mel og strá, Lá þeir á, sem lédu skut, Lakann tóku medal-hlut.
Síla býlid séda vort Sveita bæta rédi skort, Hníd-íngs grídar hlaup á slód Høldum seldu kaupin gód.
Hér á Berserkseyri enn Og Hraunvogum heyra menn Fleina reinar fundu víst, Fjórtan skorti hundrud sízt.
Naud og daudi veit eg var Viss um þessar sveitirnar, Hnikars vikid hæf ad frú Hefdi ei leifda gæfan sú.
Lífi hlífir Herrans hrein Hønd, svo vanda þverra mein, Líf nær drífur limum frá, Líf hann géfur himnum á.
Giptu stiptamtmann nú má Mæla Olaf þanninn frá, Besti og mesti hari hér Í himin-ljóma farinn er.
Sídan fridur framadur Fyrst vard traustur amtmadur, Árinn klár nú eru hér Átta rétt og fertíger.
Ljós og hrós hann landsíns var, Lagnad tignarstandsíns bar, Hæfa gæfan haudur blíd, Hjálparstólpi snaudum lýd.
Saddann gladdann sælu von, Síra Erlend Vigfússon Helid vel, svo hann féck grid, Hédan leida vann í frid.
Magnús hagna mundi hel Miklholts hokla þundi vel, Því ad frí vid þrauta kíf Preidu gæda hlaut hann líf.
Margir fargast menn um bý, Margir syrgja enn af því, Holda fjølda karsa kór Krafda svæfdi þarfa stór.
Stjóra jór vid Rif óró Rán ad vana drifin sló, Átta brádt þar endtu kíf, Einn af knørnum hendti líf.
Klóta njót úr Kéblavík Kólgan svelgja eflisrík Rádi brád, en hinir hér Hjørdu korda vinirner.
Annann mann af ára jór, Od sem þjádi báran stór, Svalid Kjalarnesi nær Rádi deyda, lesum vær.

Vindur Grindavíkur ør Veidar — hrjádi líka — før Tvø, menn sjø og talda þrjá Tapta gleypti aldan blá.

Fárid ára fracka kló Fyrir Eyrarbacka sló, Aldan kalda greida grim Gjørdi firda deyda fim.

Báru-mar í Beruvík Bylgjan ólgu-þver og rík Dró í sjó, en þegna þrá Padan dauda fregna má.

Ordug fjørd um Onundar Udur ródra trønurnar Tamdar lamdi tvær og fim, Tídin þjádi ærid dym.

Fleina reina fimtíger Fola helid grimma hér Tók, og jók svo hrygdar hag Hratt um þetta bygdarlag.

Bát frá Látrum bára stór Braut, af votum ára jór Deydu meidar þorna þar Prír og tveir í forna mar.

Heljar eljan undir tveir, A Málmeyar sundi þeir, Lidu nidur lakad þar, Lamad strauma þakid var.

Deydu heidi Ørna á, Odu í flódi vørnu þá, Nista ristir taldar tvær, Túnid svana faldi þær.

Beimar, heim er hendtu leid, Hæfa lifsins endtu skeid Fram á Hvamsins firdi þeir, Fjúka rokum byrgdir tveir.

Peckur Brecku Føgru frá Frosinn ísa drøgum á Piltur viltur lét sitt líf, Leiddur kvaddi hret og kíf.

Reid um heidi Vatna var, Vídar slódir gatna þar, Skjalda baldur beindur þrótt Brádann daudann reyndi skjótt.

Skards — á hardri — heidi sveinn Hradast sydra deydi einn, Svæfdi æfda sorgin hørd Sú og þrjá um Borgarfjørd.

Jafnframt Hafnarfirdi frá Flensborg dønsku, virdar tjá, Heitur neitir hafi brendt, Hnoss og góz í kafi lendt.

Fríum nýum fógéta Fagna þegnar snjófleta, Vandur landi vor med lén Vill sig kalla Thorgrímsen.

Hæda gæda hylli og náð Honum léni snilli dáð, Hæda og svæða hari klár Hæfið géfi farsælt ár!
Bragnar fagna þáttur hver, Pagnar sagna máttur hér, Násin kvásirs ædar óð Ásum krás ei blædir góð.

## 35ta Tídavísa
### yfir árið 1813.

Stuðlafall.

Ár fjórtánda aldar Krists nitjándú, Utum heiminn allt um kríng, Ýdar fram á tída hríng.

Rauna árið reifði ýmsa trega, Snýfinn vetur haga hjørð Hýsíng baud, því læst var jørð.

Vorið þurt, en var þó gott að kalla, Glóðin þýddi geymsins mold, Grænum skrúða klæddist fold.

Heyskap góðann høldum sumar veitti, Tøðum nýtíng einninn á, Engja meira hroktust strá.

Haust var gott, en hagar optast nógjir, Allt fram undir ára mót Ól því hjardir Grana snót.

Fiskiafla flestir lítinn hreptu, Fáeinir um marhnúts mó Medal-hluti tóku þó.

En í sumar allt í kríngum Jøkul Ofurlítill abli var, Að eg meina, vídast hvar.

Megnum skorti margra hagur spádi, Hefði ecki gæfan góð Géfið adra bjørg á lóð.

Hníðíngs fjøldi hljóp úr ránar maga, Olafsvíkur uppá grund, Allt framundir tvø þúsund.

Mikla blessan margir héraf fengu, Bædi hlunns og beizla ljón Báru hval um løg og frón.

Svadilfarir sum þó skipin reyndu, Kaf þá sló um keipa hrút Kasta urdu nockrir út.

Ymisliga ýmsum líka í stødum Létu þegnar þrótt og ønd Þetta ár, sem leid úr hønd.

Arid fyrra undan þessu nærsta Þrír mér gleymdust merkismenn, Meiga þessir nefnast enn.

Leid frá æfi Lýdur sýslumadur, Fridrik einnig firtur sorg, Fyrr er prestur var á Borg.

Arfi Gudmunds Utskálanna prestur Eiríkur og bana beid, Blundar hann nú frí af neyd.

Sveinn og kona Seltjarnar — á — nesi Eids á granda urdu þá Uti bædi daud ad ná.

Hrapadi þá og Hvams í Kjós fjársmali Ur fjall-høgum, úngur þó, Ofan á jørdu, svo hann dó.

Nockrir deydu nú í ár, því heyri Pulin nøfnin þjódin kát Þeirra, sem eg frétti lát.

Austur í Holti Eyafjøllin vidur Jón prófastur Jónsson dó, Jordu í nú hefir ró.

Benedict prestur bygdi Pálsson lengi Stad á Reykjanesi, nár Nú hann lagdist aldurshár.

Síra Bergur, sem Einholti þénti, Gáfu-prestur gæddur seim, Gjørdi kvedja þenna heim.

Gætinn þann, er Gufudalnum þénti, Hylur látinn kjalars kvon Klerkinn Erlend Hannesson.

Gísli prestur Gunnlaugssonur vestra, Kyrkjubóli einninn á, Auds er safni hníginn frá.

Húnvetnínga hné úr dóma sæti Sýslumadur Sigurdur, Sagdur dáinn Snorra bur.

Er handlæknir Olafur Brynjúlfssonur Líka skilinn lífi frá, Leg í jørdu þádi sá.

Eins kaupmadur Eyrarbacka danskur Pétursson í fridi fór, Falinn leidi blundar rór.

Margur hefir madur árid lidna Sjó og vøtnum andast í, Ædir hel um løg og bý.

Vestur í Keblavík hér drukna rédi Trana hlés, en tíu þar Tøpudu drætti lífsandar.

Skip af Sandi skeljúngs-feldur hrjádi, Atta menn þar urdu nár, Ymsum svídur skadinn sár.

Er og sagt úr Ísafjardar sýslu, Hafi skip med høld-um fim Hrifid ægirs maktinn grim.

Valir trés á Vatnsleysunnur strøndu Suchu þrír í saltann mar, Sjø menn lík svo urdu þar.

Varst á einum bát á Akranesi Einn svo madur útaf dó, Annar nádist lífs úr sjó.

Hvalur skip frá Hellnum sló til skada, Dauda hlutu þegnar þar Prír, en tveimur bjargad var.

Skip úr Dritvík skjálfa-vatnid hrjádi, Einn svo madur af því dó, Adrir héldu lífi þó.

Bát úr Flatey fyrir Nordurlandi Pánghólms gjørdi þrútid hret Priggja manna banaslet.

Annann lands og eyar þar á milli Soltin fylti síldarleid, Segg og konu bjó þad deyd.

Madur einn af mastrafíli sydra Ur Njardvíkum feig-ur fann Fjørsins tjón á karfa rann.

Ingisstúlka ein frá Klúngurbrecku Sáladist í Set-bergsá, Sínu frelsi gjørdi ná.

Knapi einn frá Kvikstødum á Mýrum Faun í Grímsá feigur deyd, Fríadur af sorg og neyd.

Fyrir sunnan Fáskrúdar — á — backa Piltur hrepti dauda bá, Druknadur í nærstu á.

Hér um Dali Haukadals — í — ánni Kona ein á kyrkjuleid Kalda þoldi daudans neyd.

Halur dó í Hrútafjardar elfu, Einnig hafa útum frón Æsi nockrir lidid tjón.

Af illvidri útá beru svædi Víf eitt misti varma og önd Frá Vördufelli á Skógarströnd.

Garpur úngur Galtardals — frá — túngu Hrapadi, svo helju fann, Hylur jördin örendann.

Bóndinn sjálfur Blöndudal frá nyrdra Hrapadi á fjalars brú, Flýtti dauda biltan sú.

Líka bóndinn Lángavatns — í — dalnum Lífid úti lét um reit, Líkt og tveir í Bæarsveit.

Baugalín frá Búströdum þar sydra, Er til kyrkju arka vann, Uti kalin dauda fann.

Sídan einn á Sudurnesjum madur Uti misti áratal, Annar svo í Reykholtsdal.

Í Píngeyar — einnig — sýslu nyrdra Bidu tveir á besta mar Bráda tjónid æfinnar.

Hrínganipt í Nordurárdalnum kalda Daudans útigötu géck, Grafin hvíld í jördu féck.

Reckur hér frá Raudamel þeim sydra Hvarf og fundist hefur sízt, Hann ógrafinn blundar víst.

Piltur var frá Vísilsdalnum sendur, Hrepti byl og er enn ei Aptur fundinn gauts á mey.

Á Ingvörum í Svarfadardalnum Allur bær til ösku brann, Enginn samt þar deydi mann.

Annann bæ í Eyafjardarsýslu, Hvamkot nefndann, brendi bál, Börn tvö supu daudans skál.

Ossa vedur eitt í fyrra vetur, Sem ad hristi sjó og frón, Setbergs kyrkju braut í spón.

Nýtt er bygt af nýtum vidum aptur Húsid, tídum helgad nú; Haldist þad sem steina brú!

Sollin skrida Svarfhól á í Dølum Ball, og deyddi bólgin þá Belju, kálf og hesta þrjá.

Commissiónin komin er á enda, Stillir gaf nú skordar old Stiptamtmann hann Kastenskjold.

Allir þeir, sem uppí voldin klifra, Minnist þess, ad hefd og hrós Hverfult er sem nordurljós.

Nidurfellur flest ágæti jardar Ofurrírt á efstu stund, Einsog følnad lauf á grund.

Nú er bágur bjargrædanna vegur, Høndlun lands er léttir púng Lika þykir sumum þúng.

En ef kæmu engin skip né vara Til vor hér á mastra má, Mundi betur fara þá?

Látum ockur lída, bidja og strída, Gjørum þad sem gjøra ber, Gudi annad felum vér.

Prýtur slagur þó ófagur magur, Lítur hagur hending frá, Hlýtur bragur endíng fá.

## 36ta Tídavísa
### yfir árid 1814.

Frumhenda.

Kvæda vani kjørin falar Kætilags um hyggju-tún, Njótar hani núna galar Nýársdags vid skæra brún.

Atján hundrud ártal segist, Eykur skrafid fimtán par, Tíd ósundrud fljót svo flegist Fram í hafid eylífdar.

Vetur gódur gjørdi ala Gripi best um landid vídt, Þó var fódur fram til Dala Fé og hestum géfid tídt.

Frostin svædi fengu spenna, Frónid hála vard sem gler, Mátti bædi rída og renna Rjáfur ála vída hér.

Vorid strídu varna nádi, Vóx innlenda jardarfar, Sumarblídu þjódin þádi Því til enda hundadags.

Nyting gód á tødum tærdist, Tún þó vída hétu snøgg, Engja slóda fódur færdist Firdum hrída rakt af døgg.
Gott var haust, en frónid fæddi Fénad þann er úti géck, Kára raustin næm þó næddi Nordan rann um skýa beck.
Vidum spánga vør sem rímdu Veitti ríra hluti mar, Flóda svángir filar hímdu Fram á mýri geirreidar.
Gæfan frek þó kappa kætti Kraptarík um ísubólm, Hvalarek þá bagann bætti Í Breiduvík og Stickishólm.
Neyddir mædast, nockrir græda Notin gæda sér í vil, Ýmsir fædast, adrir þræda Ofan næda grafar til.
Mannafoldar mæri prýddi, Merkis kynsins ærubur, Hné til moldar hærum skrýddi Haldór Finnsson prófastur.
Ordahradur lýdum lénti Lífs um stígin mælskutón, Mjøg aldradur Melstad þénti Mold ad hníginn Síra Jón.
Kom til skada hempu halnum Hel um sinn því dauda vørn, Pá Svarfadar — þraut í — dalnum Pórarinn, sem var á Tjørn.
Fregnin slík á øldum øllum Ecki brestur heims um bygd, Pádi líka þar á Vøllum Pórdur prestur lausn af hrygd.
Hrygdaróps á skøptu skeidi Skjaldan þrýtur fréttatón, Vesturhóps — í — hólum deydi Heilla nýtur Síra Jón.
Merkis halsins minníng vakir, Mjøg efnadur fyrri þó, Hnappadals er samdi sakir, Sýslumadur Pétur dó.
Nauda røkin feigdir frama, Fornar leidir gánga þó, Dauda tøkin ítum ama Eins um heidar, vøtn og sjó.
Neglu-jór á nesi Akra Neyddi sjóar-ís órír, Pegnum sjórum vatnid vakra Veitti ró, en lifdu þrír.
Eitt og skip af Alptarnesi Ægis hristi grimdarfar, Feigdum gripinn borda blesi Bragna misti sex í mar.

Bát úr Gardi kaf í keirdi Kólgan blá um ísuleir, Ógur hardi helju reirdi Hølda þrjá, en lifdu tveir.

Skip úr Stadarsveit 'nam søckva, Seggi látta huldi mar, Bana hrada drifid døckva Drengi átta myrdti þar.

Grædisjór á Gufuskálum Geysivindur sló í kaf, Deyddi sjór í søltum álum Sjø mannkindur, einn komst af.

Ódru skipi einnig sídar Isuheimur drekti þar, Fjortjónsgripid fengu lída Fim, en tveimur bjargad var.

Skip forgéck af Skagaströndu, Skóku oldur sigludýr, Lunds um beck þar lís og øndu Létu høldar tvennir þrír.

Hroktust fleyin hér af Sandi, Hrønn óstadur vindur sló, Einu dreginn á nær landi Einn formadur helzti dó.

Lífs ótregur hjólvagn hleypur, Holdid stirdnar ofurbrátt, Heims er vegur slódar fleipur, Slisfarirnar heyrast þrátt.

Beruvíkur bjarg í síginn Baugaþundur einnig dó, Burt frá sliku hengi hníginn Hefur fundid grøf í sjó.

Skati veik frá Skatastødum, Skagafjardar dølum í, Isinn sveik á árhyls vødum, Ønd hann vard ad missa því.

Falda-heidi hér úr Dølum Harkan ein til dauda vanst, Ut frá leid á ísabølum Undir steini dáin fanst.

Margt er kaunid mædusára, Mørgum svíður vinalát, Mørg er raunin mannsins ára, Margfaldt stríd, er tekur grát.

Bodi trega Bessastødum Bøli fylltur ad sér sló, Skyndiliga skaps af bødum Skólapiltur einn þar dó.

Dýrt er lífid, drótt þess gæti, Dýrgrip geymi þann sem ber, Stutt er kíf, þó menn því mæti, Mein í heimi skamvint er.

Hrygd má meta sorgarsetra, Svo sem vetra lítid jel, Finst sú géta, fródir letra, Fátt er betra enn deya vel.

Herrann bæti hrygdir nauða, Harms ef bylur dynur á,
Uns að sæti dúrinn dauða Dupti skilur øndu frá.
Allra hressi Herrann lundu, Hug þá kremur naudastríd,
Allra blessi andlátsstundu, Að þá kémur daudatíd.
Rénar dugur, dagur þrýtur, Drengur þeigir, kvæði þver,
Lénar hugur lag ónýtur Lengur ei að ræða mér.

## 37da Tídavísa
### yfir árið 1815.

Flettubønd.

Veltast hjólin, tæmist tíð, Tímar breyta standi, Nýárs-sólin sína blíð Sælu veitir landi.

Atján hundrud sextán senn Sjást á hjóli tíða, Kjørin undrud merkja menn Mørg á bóli lýða.

Vetur stirdur víða hvar Vardi hulda engið, Fønnum byrgdur vángur var, Vorið kulda fengið.

Himnar þræda lands um laut, Lucku budu standi, Øld því gæða heyskap hlaut, Helzt á sudurlandi.

Haustíd rosum hladið tídt Hreisdi lúru grundum, Vallar losað farið fridt Féck því skúr ástundum.

Mána þó að grundin góð Grímdum hér ei beitti, Nægann snjó á náttar jód Nóvember þó veitti.

Hæga fengu hluti menn Hérna svals á dýrum, Léttir gengu ára enn Ulfar hvals af mýrum.

Mædu leigdir hér við haf Høldar kénna nauða, Løgum feigdar leiddir af Leggjast menn í dauða.

Lista bestur lífs með von Lédur kvidi grundar, Þorsteinn prestur Sveinbjørnsson Sæll í fridi blundar.

Skáldið merka dádadýr Dýrdar gædi þreidi, Prýdi klerka hugarhýr Hálf-nírædur deydi.

Vafdann fróns í vodum best Væra helid spenti Arn-grím Jónsson aldinn prest, Er á Melum þénti.

Grandi ríka Garpsdal á Gnúdi vana skúrin, Síra líka Sæmund þá Svæfdi bana dúrinn.

Klerkur Teitur kvedja vann Kvennabrecku, og eni Værdar reit á Helga — hann Hefur þecku — felli.

Skuldar krefur helid hætt, Hrepti gladur fridinn Davíd Scheving, sefur sætt Sýslumadur lidinn.

Bíldudalur mæta má Meinum hørdu bana, Merkis-halur hønum frá Hnég ad jørdu Dana.

Olafs því féck øndin lausn Upp frá stordar leidi, Thorlacius reifdur rausn Riddari ordinn deydi.

Brár mér rakna, rignir kinn, Rænu bygdin stynur, Hans eg sakna, hann var minn Helzti trygda vinur.

Ad því hyggja madur má, Merkja sama gjørum, Ymsir liggja leidir frá Líssins ama kjørum.

Gufuskálum skip eitt frá Skadann í réd flana, Hafs í álum høldar þá Hlutu níu bana.

Menn fram undan Eyrarsveit Adrir grandid þádu, Sjø þar fundu feigdar reit, Fjórir landi nádu.

Ur Vestmannaeyum sló Aldan barda fílinn, Tólf þar granna sókt í sjó Segjast anda býlin.

Eyrarbacka einnig frá Ægirs vísin hristu Ara-racka, átta þá Itar lísid mistu.

Deyddi ennþá saltur sjór Svoldarbands med snótum Níu menn af neglujór Nordanlands í Fljótum.

Frá Sugandafirdi twø Førin bodar slóu, Pollar branda þrír og sjø Þeim í voda dóu.

Nidur um ís í Alptafjørd, Angur verda þanninn, Banadísin hertók hørd Hér einn ferdamanninn.

Prautir hardar þrátt um bý Þora old ad begja,
Hrútafjardar-ánni í Einn réd holdur deya.
Austur í Mýrdal dyggur dó Drengur einn í pitti,
Af því hýra yndis ró Ungur sveinninn hitti.
Prófast þarfa Þórd nam hratt Þvínga sút á Felli,
Hans því arfi dauds til datt Dapur útá svelli.
Eymd hér skjaldan einstøk var Utá kvinnu þýdar,
Messu-baldur misti þar Manninn vinnu sídar.
Garpur Sydri-Gørdum frá Gjørdi før um haudur,
Fanst vid svidid sílablá Sá í fjøru daudur.
Mørg kann sútin menn ad slá Myrkt í jardarleidi,
Tveir menn úti urdu á Arnarfjardar heidi.
Holtavørdu heidin svo Hefir líst ad granda, Fjúk
þar børdu bragna tvo, Bádir mistu anda.
Kafalds neydin kulda blá Klakann harda bardi, Sú
nam deyda seggi þrjá Á Siglufjardar-skardi.
Ad Skildínganesi nú Náda-rof var bugad, Fagnad
þvíngar fregnin sú, Fátt er ofvel hugad.
Barn nam rjála bissu vid, Baugsól géck fyrir hana,
Skot réd brjála skenktum frid, Skjótann féck hún bana.
Gætni valda verøld í Verdt er læri þjódir, Víti
skjaldan vørum því Verda, kæri bródir!
Hal á Lundi hugar þraut Hardra dró til nauda, Af
sjálfs mund hann aumur hlaut Achitóphels dauda.
Pad er kvøl, nær kross ad ber, Kristí stjórn ad hata,
Pad er bøl ad sálga sér Sigurs fórn og glata.
Luckan svipul hýr um braut, Bólar enn á kísi, Stranda
skipid Hofsóss hlaut, Héldu menn þó lísi.
Onnur rugga sjáfar séd Samastands ókjørum Holl-
endsk dugga mætti med Medallands á fjørum.

Máls af grøndum þýdt med þel Packar kresdi svarid,
Ef ad löndum vorum vel Bid þá hefdi farid.

Bid því ránkar virda, er Veldur þurftar standi, Fyrri bánkar fordæmder Fara burt af landi.

Standid lista tæmir trú, Tregann stundir ala, Landid misti med því nu Mørg þúsundir dala.

Af því manna adslód gód Opt kann linna hljóta;
Gud himnanna géfi þjód Gædsku sinnar njóta!

Bragur fluttur þvínæst þver, Próttur nidurlædist,
Dagur fluttur dvínar hér, Dróttar fridur grædist!

## 38da Tídavísa
### yfir árid 1816.
#### Tásteitt Sagraljód.

Lidid kvaddi ár enn ár, Yndi nýtt nú veitir sveit,
Hlýrnis geislinn hár og klár Hjarda gyllir beita reit.

A burt rennur tída tíd, Tregar hverfa skédir med,
Framhjá einnig lída lýd Lán og mæda téd og séd.

Atján hundrud sevtján sveit Segir datum þjóda fród,
Hørku tídin hneit á reit, Heptir lán um flód og slód.

Hardaun vetur þádi þjód, Pjódin nú og kostin hoft,
Isaløgin ládi hád Lengi voru føst á rost.

Allt frá jólum ørdug gjørd, Og ad sumri vída strid,
Haikan vardi hjørdum svørd, Heyum eyddi tíd óblíd.

Purt var vor, svo þádi fjád Paraf lítinn gróda slód,
Tada smá var tjád um lád, Telst þó nýting gód hjá þjód.

Margir herma vída víd Væri engi þæg óslæg, Sinuhey því sídan tíd Sveitin nýtti fræga næg.

Haustid sendi hørd á jørd Hret og líka fjøllum mjøll,
Fannir huldu hjørdum svørd, Hrímdu frostin gjøll og vøll.

Aflafeng um flidrunid Fleſtir gjørdu ſmáum ná, Vánginn gánga vid á ſnid Vødin fiſka lá ſem á.

Þó er ſagt ad hrauſt í hauſt Hafi ſydra lýda þýd Fiſkad þjód, nær ſlauſtur trauſt Fóru ſels um vída hlíd.

Arin ſýna øll þau ſpjøll, Adfer dauda nóttin ſkjótt, Hníſu því um høll og vøll Hríſur bana þróttur drótt.

Síra Helga Einars ein Arfa helſótt fann og vann, Skutulsfjardar greinir grein, Geymir Eyri manninn þann.

Benedict nú Síra ſér Sálarføgnud værann ſær Hannesſon, því hér frá er Hamraendum ærukær.

Bjarni preſtur beid og deyd, Burinn Péturs hýr og ſkír, A Olafsvøllum eydiſt neyd, Oſa hvílir hýra týr.

Síra Helgi Bjarna barn Bar á vøllum — Reini mein, Þó til hvíldar þarna gjarn Protid endti krein og vein.

Gudmund Magnúſs grida nid Greip og daudinn herkinn klerk, Í Hreppholum idinn vid Adur dygda verkin merk.

Sigurd Magnúsſon ad von, Sviptann preſtinn jardar ard, Sigtírs hylja ſvona kvon Setbergs kyrkjugardar vard.

Síra Olafur ſanna fann Sonur Gísla nád um lád, Hér þá ſkilja hann vid vann Heimſins kjørin ádur þád.

Backa kjørnum beſta preſt Barſt ad Hallgrím vándaſtand, Hann af ára heſti meſt Hlaut í vatni andargrand.

Þórarinn preſtur þádi nád, Því á Múla beid-hann deyd, Gædaſkáld med góda dád Guds í fridi leid frá neyd.

Lærdóms fyrr ſá lénta ment Lýdum kéndi ótæpt þó, Og piltum ſkóla prentin hent, Páll Jacobsſon dó med ró.

Jón Einarsſon endti hent Æfiſkeid, því veſtra lézt, Læknir þeim var lént og ſendt Lærdómsvit í fleſtu beſt.

Gudrún Skúladóttir drótt Dygg, er ſyrgja má og á, Sæl baud góda ſorgum nótt, Sorg og elli dáin frá.

Ærugreid á Ósi drótt, Annra sprunda prýdi blíd, Hildur leid med hrós í ljós, Hvar samfunda bídur fríd.

Húsa tjón um hvala sal, Hér sem skédu vída tíd, Svidris telja svalan skal, Sveit ef gjørir hlýda þýd.

Ákranesi frá eg frá Fórst á skéri ára-már, Bragnar sjø í blá-hyl þá Bidu daudans sára fár.

Hølbar sex í hrannar rann, Hallbjarnar — frá — eyri þeir, Poldu andar þannig bann, Þegna fjørid deyr ei meir.

Bát frá Svidnum blá réd slá Bára ód um slidrumid, Fjórir holdar þágu þá, Þar sem burtu lidu, frid.

Feigann smala fjár í ár Flód á skéri sló í sjó, Frá hann Jorva fár vard nár Fundinn, blundar þó med ró.

Á Vatnsheidi hjørva bør Heljar rédi dá ad fá, Ødrum baninn ør var gjør, Árnabotni sá géck frá.

Frá saudhúsum firdur kyrd Fram í Laxár — halur — dal Úti vard, en virda hird Værd í jørdu kalinn fal.

Frá Glerárskógum geira freir Géck um Svína — valinn — dal, Dáinn þessi deyr ei meir, Driftin hylur kalinn hal.

Út á Sandi ótt um nótt Einn hrapadi, hann þá fann Þjádur bana þróttinn skjótt, Þvíad daudann kanna vann.

Drengur leid og daudans naud, Dym því gjørdist leid ógreid, Andar geymdi audann snaud Ofeigsfjardarheidi breid.

Sindri og um sveita reit Sást ad fædu var ei spar, Nú því eldhús neitir heit Nockur brendi hvar og þar.

Lundum á med agalag Ætíd húsa trøll um voll, Bjó gullsmidnum banahag, Brendi heyin gøllud øll.

Eyrarsveitar ær gat mær Í sér kastad bláann sjá, Verdlaun sigurs vær sá fær, Vel sem strídid náir há.

Frá Stockseyrar — frólaus þó Farin — hverfi nista
rist Bana sér og bjó í sjó, Bol er ad missa vist hjá Krist.
Preyum mædu tæpa tíd, Tíd þó rauna hossi kross,
Heyum, brædur! strída stríd, Strídid launar hnossid oss.
Odar fjølda ala skal Eigi nægra væru kær, Fróda
holda valid val Vegi hægra færi nær.

## 39da Tídavísa
### yfir árid 1817.
#### Stikluþáttur nýi.

Nótt frá draga nýársdag Nýtann líka fáum, Efli fagur
fridarlag, Fargi baga þjód í hag.

Atján hundrud ár um grund, Enn sem kénna lýdir,
Atján fundin og um stund Alma þunda ritar mund.

Vetur hardur hjá oss vard, Hrønnum fønnin djúpa
Gripum spardi grundarard, Gaf í hjardir líka skard.

Hafis grár um hvala-krár Haudrid snaudur girdti,
Vard því mara básinn blár Bjargarsmár þad hálfa ár.

Vindur ódur virda þjód Vann ad banna líka Einatt
ródur áls um slód, Ara stódu hross á lód.

Sumir fundu sels úr lund Sédann medalafla Um
Snæfells grund og sydra sund, Seims er þundum gaf í mund.

A Vestfjørdum aflagjørd Itar nýta þádu, Nyrdra
hjørdin hafs var spørd Hrínga njørdum lands um svørd.

Vorsins tíd var þurr óþýd, Prádi ládid raka, Grasid
frída fróns um hlíd Fanst því vída smátt hjá lýd.

Tødubrest á túnum mest Tídann lýdir segja, Engi
flest, sem ordad sést, Ardarhrest þó grèru best.

Nýtíng þæga þjódin fræg Pádi sjád á tødum, Hríd
óvæg þó heya sæg Haustis um dægur vætti næg.

Haustvedráttan hefur mátt Heita neyt ad gædum, Kári þrátt þó góma gátt Glenti hátt med afl ósmátt.

Þétt vid drøfn í Þorláksbøfn Þánga lúnga fjóra Brutu jøfnud bylja søfn, Báru-hrøfnum þrutu nøfn.

Misti vídar þjódin þýd Pilju fylin sydra, Olduskíd um ála hlíd Ei svo skrída kunna frid.

Margt vid ber hjá mengi hér, Má þad sjá og heyra, Margt því skér, sem midur fer, Margur verr því hagar sér.

Audnu blídan ár og síd Er og fer á hjóli, Dags því vída dymmir tíd, Dauda snídur eggin lýd.

Fridrik prófast baninn bjó Braut frá þraut, nær þessi, Breida — þó á — bólstad bjó, Beid þar ró í grafar mó.

Prófast vestra Hákon hvest Hlídar stríd snjó-skrída Þreif af hest, en þjódin flest Þreidi bestann Eyrar prest.

Síra Þórhall sjúkann sjór Sóttar þróttur deydi, Breida — fór á — bólstad rór Baugaþór í grafarkór.

Rángá hann er reid med sann, Rór frá Stóruvøllum, Audun kanna klerkur vann Kaf, og fann þar æfibann.

Þorleifs nid med sóma síd Sigurd vigur dauda Høkla síd bjó heljar mid, Hvam í frid svo skildi vid.

Þorleif presti burda brest Bjó á Snjóafollum Sóttar hvesta megnid mest, Mælskur best þar Jónsson lézt.

Þegar reid um þela skeid Þjón Guds Jón á Kúlu, Svaragreidur svo burtleid, Svína — beid í — vatni deyd.

Jón med sídugt svara snid Sæmda ræmdur prestur, Búinn frid um bana mid, Brynjúlfs nidur skildi vid.

Brynjúlf herkinn hel sló klerk Hrød í Stød til bana, Olafs merkum arfa sterk Adams verk fá moldarserk.

Prest Gudmundi banablund Baud og daudinn þiggja, Bergs því kund í Kálfholtsgrund Késju þunda byrgdi mund.

Scheving Vigfús skipti slig, Skírslu sýslumaður, Merkiligur hels við hnig Hrepti sigur, grunar mig.

Endt var hlaupið, høfði draup Á hæfann svæsil dauða Hemmert kaupmann, hrumur kraup Hels þá staup að lokum saup.

Helja skundar grim um grund Græðir, hæð og dali, Margir fundu bana blund Baugaþundar sels í lund.

Póstsdreif jakt með stríðið stakt Strax að Saxhólsbjargi, Skipið, frakt og fólkið spakt Fast var lagt í dauðans makt.

Bjørgin hruudu stór um stund Stýrisðýrið yfir, Mørðust sundur fárs við fund Fleina þundar barðs með hund.

Jón lærari þoldi þar Pjáður bráðann dauða, Eins harðfara ógn við mar Ei tilbar hér neinstaðar.

Í Njarðvíkum vogabrík Valt í salt, svo urðu Sels í dýki sjø menn lík Sorgarrík við kjørin slík.

Sveit í Staðar neglu nað Náði gráð að drekkja, Sex ógladir sels í vað Sukku það við raunabað.

Eitt úr Eyafirði fley Flanið bana reyndi, Ellefu segir þrims af þey Pundar meyu náðu ei.

Dritvík í nøm drøfn á ný Draga bagað rakka, Tvo menn frí með flasi því Feigð réð knýa hels að bý.

Bolúngar — í — vík og var Voði gnoð ofnærri, Einn dó þar af mastramar Meiður skara Valgautar.

Nesi Akra af fékk blak Ara marinn kólgu, Einn língbaka þar um þak Páði rakur dauða tak.

Steingríms — fann í — firði mann Fljótur skjótann dauða, Andar-bannið á féll þann, Ísinn hann þá ríða vann.

Einn með greiða lagði leið Lund að Grundarfirði, Tjørgumeiður téð um skeið Túngu — beið í — ósnum deyð.

Baugarós í Búda-ós Brádann þádi dauda, Slökti glósad líf sem ljós Lögur sjós hjá þeirri drós.

Hyls ábreidu helja greid Hrest fékk vestra brotid, Af því deyd um ísuleid Einn í Seidisfirdi beid.

Hárs á vísi létu líf Lýdir vída kaldir, Grimd ósvísin gaf ei hlíf, Geysa drífan nádi stíf.

Sýslu Dala sjúkid fal Fjóra þora skjalda, Pessir halir, hermir tal, Hreptu valinn grafarsal.

Kona dó á köldum þó Klaka á Akranesi, Helid bjó, er hradt ad fló, Henni ró í grafar þró.

Fljód og pilt, er stefndu stilt Strángann gáng fra Hellnum, Kafalds vilt gat megu ómildt Meini fyllt og lísi spillt.

Fjórir bardar fjúks af gard Firdar nyrdra dóu, Petta ardlaust skatna skard Í Skagafjardar sýslu vard.

Danskur haudur hríngs med aud Hólm í Olafsvíku Vard bráddaudur vafinn naud, Veröld snaudur kvedju baud.

Fleiri máské foldu á Fundu stundu bana Utum bláa úlfa lá, Alla þá eg man ei tjá.

Nú hógláta horfin grát Hélt samfeldt þrjá daga Jafnt í máta, já med gát, Júbílhátíd þjódin kát.

Ljóda skrá ei módur má Mengi lengur bjóda, Hnjódi fáir hljódin þá Hródrarskrá nær þjódir sjá.

## 40ta Tídavísa
### yfir árid 1818.
#### Skothendt Gagraljód.

Enn skal tída annáll minn Auka hérum lítid stef, Vilji hlýda sveitin svinn, Setja vil eg penna á bréf.

Fjörutíu árum á Eg hefi baglad vísur hér, Pegar nýu þessar fá Preida lendíng handa sér.

Nockrum sinnum bernskan bráð Bragi dýra valdi til,
En eg finn, ef að er gáð, Er það mikið dára-spil.
Breytt og støgud bragarskrá, Borin útum sveitirnar,
Er afløgud ýmsum hjá, Efnið svo ei merkist þar.
Ef að þyl eg optar þjóð Ársins tíða vísnalag,
Avalt vil eg einfold ljóð Eptir þenna brúka dag.
Tíðin skundar fengs um frú, Fyrr sem henni var tilsett,
Atján hundruð nítján nú Nefna lýðir datum rétt.
Flestum sveitum Íslands í Orma bana liðin stund
Mátti heita hørð, af því Hún gaf djúpa fønn á grund.
Frosta-hægur hér um svørð Horfinn vetur opt var samt,
Snjór harddrægur huldi jørð, Hjørðum veitti rírann skamt.
Vorsins gróður varð og smár, Vatn þó drypi skýum
af, Primshold fóður þetta ár Pó í medallagi gaf.
Nýting vesta vídt um bý Var í sumar lýðum send,
Hey hjá flestum heita því Hrakin, miglud eda brend.
Sumarstíða hretin hér, Hvør ed baga fengu -léð,
Endti síðast September Svellu snjóa kasti med.
Hér á svædi held eg enn Heiti nýar fréttirnar, Fennti
bædi fé og menn Fjúk í haust um réttirnar.
Pað sem vetri af nú er Ecki gétur kallast stríðt,
Fáein hret þó findum vér, Frosthæg vedur gengu tídt.
Hluti góða sydra sveit Sínum dró med veidistreng,
Vestra þjóð úr þoskareit Pádi minni afla-feng.
Ský-a-falla skúra-vad Skémdir slíkar hlutum bjó,
Manna valla matur ad Mátti heita fiskur þó.
Hér þó skutar hlypi mar Hausti á um sela-reit, Ei
nam hluta øldin þar Utan vel med Stadarsveit.
Tíðin grædir trega mód, Tíðin eydir raunum enn,
Tíðin fædir tídum þjóð, Tíðin deydir líka menn.

Markús prestur Sigurdsson, Sem Mosfelli þénti hér,
Heilsu lestur hárs á kvon Hédan dáinn grafinn er.
Sigurd klerki þýdum þó Þorbjörns nid á Raudamel
Sótta-verkur bana bjó, Blundar hann í fridi vel.
Sigurd vøllum Olafs á, Alinn prestinn Hallgríms nid,
Meina gøllum fríann frá Firdar grófu skilinn vid.
Leid og bana Arnór ør Arnasonur dygda-snjall, Kapellán var bókabe: Bergstadar vid. prestakall.
Sýslumadur Otti ei Effersøe frá Snæfellssveit Burtsofnadur, bøl ei sér, Blundar hann í vígdum reit.
Adur Búda assistent Einninn Jón frá Bjarnarhøfn
Sóttar lúdur líf fékk endt, Leystur kvaddi mædusøfn.
Líka metinn lífs um mid, Laus vid elli, fár og grønd,
Jón son Kétils fór í frid, Forpagtari á Skógarstrønd.
Eitthvad veldur, opt er stór Æfidaga raunin manns,
Vindur, eldur, vøtn og sjór Vilja granda lífi hans.
Utá Sandi árajór Ægirs lambdi grimdin rík, Búinn grandi saltur sjór Svelgdi níu manna lík.
Innt var hér ad annad far, Akranesi sem var frá,
Hafi verid hrakt af mar, Høldar sím svo deydu þar.
Frá Hofsósi nyrdra nett Neglu-hindin þádi tjón,
Ægirs drósin illskupétt Itum fleigdi sex í sjó.
Nærri skipi grandid gékk, Gufuskálum þad var frá,
Þrjá menn gripid feigdin fékk, Fengu hinir lífi ná.
Sagt var batar suckn tveir Selatjarnarnesi af, Hvala látur þaut, svo þeir Þegna sjóra mistu í kaf.
Fer um geym sú fregnin téd, Fyrst af Akranesi þó
Daudum tveimur mønnum med Menn ad findu bát á sjó.
Hætt vid føllum heita má Hér um manna æfiskeid,
Piltur Vøllum farinn frá Fann í Bugsós vestra deyd.

Þegn í Svína — þeckum — dal, Þórirstødum á sem bjó, Hratt nam dvína harma tal, Hann í Draghálsvatni dó.

Ýmsum vara mædan má, Mýrasýslu týndist úr Smalinn Laxárfossi frá, Fann í straumi bana-dúr.

Annar sømu sýslu úr Sólheima — frá — túngu fanst Hladinn grømum hrygdum, því Hønum fall í dauda vanst.

Drengur líka Dølum úr, Dýra sendur yfir sjó, Fann í dýki feigdardúr Ferjukoti nærri þó.

Kona úti í Ásum dó Olétt nyrdra hárs á kvon, Megna sút sú mæda bjó Manni hennar eptir von.

Af Vatnsnesi fregn sú fer Fjallreidar í ønnunum, Ullur fés ad einn dó hér Af fjárleitar mønnunum.

Urdu tveir menn úti hér Efst á Fródárheidi þó, Kessu freir, sem kunnugt er, Kambs á skardi þridji dó.

Raudamels — á — heidi hal, Heimamann úr Olafsvík, Gríma hels í sjúki fal, Følur vard á jørdu lík.

Fagranesi nyrdra frá Nádu hrapa bragnar tveir, Loga hlés svo lundar þá Lidu dauda bádir þeir.

Hljóp fjallskrida einn bæ á Austanverdt vid Skutulsfjørd, Fjórir lidu fjortjón þá, Fjórir adrir meidsli hørd.

Eyafjardar kaupmanns knør, Kúvíkum er lagdi frá, Stranda vard úr feigdarfør, Fólk þó gjørdi lífi ná.

Svo ad þrengdi sár og stór Sorg og kvídi hjarta-reit, Sig ad hengdi sverda þór, Sem ad var úr Stadarsveit.

Illt er flan á ólgusjó, Ur þess hønd er stýrir best Stjórntaumanna ad þrífa þó, Þegar liggur á sem mest.

Huggi ríka gædskan gód Gédid vort nær amar neyd, Annist líka Íslands þjód Ástin hans í lífi og deyd!

Næmist hás en mædist mund, Muni lýist, þagna hljód, Tæmist kvásirs ædarund, Unun drýgist bragna þjód.

## 41ta Tídavísa
### yfir árid 1819.

Stiklnvik.

Árabrigdum alda-hjól Enn þá gjörir lýsa, Fargi hrygdum hugarból, Heilsar bygdum nýárs sól.

Átján hundrud tírœd tals, Tuttugu þó betur, Ártal fundu ullar fals Utum grundu vedra fals.

Vetúr gódur var í ár Vídast hér á landi, Hjalls um rjódur hópur fjár Hlaut því fódur stór og smár.

Vorid svalt, en vedur hreint, Vøkvann jørdu spardi, Lagdi kaldt um loptid beint, Ládid allt því gréri seint.

Spruttu túnin þegna þæg Þó í betra lagi, Mørk tilbúna mild og væg Mána rúna vermdi næg.

Stormi blandid hret og hríd Hædst ofs sumar færdi, Baga vanda veitti lýd Voru landi óþørf tíd.

Svall um haga hlýrnis súi, Heya nýting gjørdi Hundadaga alla út Ymis baga hvarma lút.

Vedrid harda vídt um bý Vinnu ardi spillti, Haddur jardar hrakinn því Haugadist garda fólksins í.

Mjøg óblíd var tídin téd, Tvo menn hér frá Vøllum Illsku stríd og ákøf med Uti hrídin deyda réd.

Tíd á hausti valla vær Var, en hørkulítil, Tregdulaust því fódur fær Fíls um naustid jór og ær.

Opt þó drýgi ønn vid mar Old um vertídina, Fram um dýid flidrunnar Fiskiríid lítid var.

Afla gengi þjódin þeck Þádi skást vid Hellna, Hvar og mengi hvals af beck Hákalls fenginn gódann féck.

Vinníng géfur vinnan traust Vídast kríngum Jøkul, Fýsn sem krefur firda hraust, Fiskast hefur þetta haust.

Yfirlædast lund og núp Løgmáls fornu bodin, Ymsir fædast úlfs um djúp, Adrir klædast moldar-hjúp.

Æfileidar endti lén Amtmanns sonur besta, Hætti neyd vid heljarben, Hans þá deydi Stephensen.

Foreldranna ástin ør, Æ á ment og sóma, Hrepti sanna fridar før, Frelstu manna sælu-kjør.

Prófast Jónas daudinn dró Djarft frá Høskuldsstødum, Herrans þjóninn hægt med ró Hér í fróni blundar þó.

Trølla — þénti — túngu fær Talinn Hjálmar prestur, Lífid endti ítum kær Øldnum hendti hvíldin vær.

Ljóda tóni fór og frá Frægstu Skálda spillir, Helicónis svanur sá, Síra Jón á Bægisá.

Opt med snilli ádur þønd Orpheusar harpa Nádi dilla hans í hønd, Hljódin fylla Jakastrønd.

Pánkar, andi og ordafar, Í hans snildar-ljódum, Skrá sem vandi skíra þar, Skáld í landi mest hann var.

Síra Eggert einninn dó, Er í Glaumbæ þénti, Gáfu segginn geymir ró Grafar veggja innann þó.

Pórdur nidur Porsteins var, Pó í Hvammi prestur, Pann ófridur banans bar Beint í ydur fjørgínar.

Síra Páll og sjúkur dó, Saurbæínga prestur, Vel forsjáll med værd og ró Var sem Njáll í sumu þó.

Berst um frón sú fregnin téd, Følur þolad hafi Síra Jón á Myrká med Megnis tjón á daudans bed.

Blunda reckur mesøu má, Magnús Einarssonur, Kjørum ecka kominn frá Kvennabrecku hvílir á.

Bana stínginn stiltur fann Steindór sýslumadur, Audnu kríngaun yfirmann Arness-þíngid missa vann.

Pyckvabæar klaustur klár Kvaddi Páll á Vatni, Bættist hagi hans í ár, Hér þó dæi silfur-grár.

Þórarins nid frá voldum vann Vigfús daudinu taka, Rángár vidur þíngid þann Þá med fridi skildi hann.

Lucku gladur blóma bar Benedikt á Felli, Hofdíngsmadur hygginn var, Háaldradur deydi þar.

Helgi leid til fridar fann, Fyrrum Rector skóla, Á Móeydarhvoli hann Hærdur deydi æiumann.

Løgmanns eckja þeckt af þjód Þorbjørg Bjarnadóttir Burtfør fék í gédi gód, Grafar reckja hylur fljód.

Svona tínast sveitir frá Sældum, aud og voldum, Líka dýnum unnar á Ymsir sínum dauda ná.

Aféll hrannar ólgan far Olafsvíkur, deydu Sjø í ranni þoska þar, Þó formanni bjargad var.

Humlúng ýfin hadda þønd Helgafells úr þíngi Þjádi stíf um þara-lønd, Þrír og víf þar mistu ønd.

Bát úr Leyrár — líka — sveit Lamdi sjór, en daudi Laufa freira lífid sleit, Létust tveir í þoska-reit.

Skérjastrandar skúm féll á Skip af Ingjaldssandi, Tveir menn anda tíndu þá, Tveir og landi fengu ná.

Svelnirs anda svell var før September hinn fimta, Hlaut med vanda hættu-kjør Høfdastranda voru-knør.

Ein var bót sú, enginn þar Ita lífid misti, Hlés því snótin hrakti far Hárs ad rótum fjørgínar.

Á Kúvíkur einninn hofn Ita tvo á slúffu Fann óríka feigdin jøfn, Féllu lík í salta drøfn.

Skagastrandar fari frá Fell í sjóinn madur, Misti anda seggur sá Svoldar banda jødrum á.

Ef tildróst, þad inna ber, Enn þá markverdt fleira, Klausturpóstur hermir hér Hitt sem ljóst er ecki mér.

Máls um látur lædist ný Letin mér hinn kæra, Minn skal bátur þulins því Þagnar sátur leidast í.

Hlýda ód mér leidist líst Lýda fróda mengi, Bida ljódin beidast víst, Blída þjódin sneidist sízt.

## 42ur Tídavísa

### yfir árid. 1820.

Tvískothenda.

Glæstum fjødrum glens á ný Gyllir mødru-palla, Lands á jødrum lifna því Lundar nødru-valla.

Þeirri øld, sem yfirstár, Allmargføldu Letur Nítján tøldu tilsett ár, Tvø þó vøldu betur.

Gódur møgur vindsvals var, Vardist løgur frera, Hjørd því fogur fylli bar Feit um øgur héra.

Seinstu daga Porra þó Primur aga beitti, Djúp á haga fønnin fló, Fé sem baga veitti.

Vorid strída stormum ad Stefndi hlída rjódri, Hérna vída hnekti þad Haudurs frída gródri.

Sumars vætan sveitum í Samt þad bæta nádi, Gras vel æta gripum því Grundin mæta þádi.

Aflann góda af tødum túns Tóku rjódar barda, Fengur gróda foldar-dúns Fyllir þjóda garda.

Hirdtu flestir foldarló Ferska best af løndum, Dþurk mesta þylur þó Þjód af Vesturstrøndum.

Haust-vedráttan gædsku-gód Grenna mátti trega, Kári þrátt þó kulda ljód Kvædi náttúrliga.

Afla-fenginn hafs úr hyl Hollann mengid þádi, Vads er strengi veidi til Væta lengi nádi.

Mæling setta láns er lin, Lítt vidrétta snaudir, Eins um þettad ár sem hin Ymsir fréttast daudir.

Olafs gipta arfþege, Einna skriftlærdastur, Porkéll sviptur hédan hné, Hóla stiptprófastur.

Jónas hlýtur gledi gjarn Grid frá lýtum øllum, Amtmanns nýta ørendt barn A vard Hvítárvøllum.

Ordspénari Engilbert Utaf bara daudur, Saurbæar med sorgar snert Settur var í haudur.

Mælskurika meſsu-þór Moldar slík ei breſtur, Helgi líka hédan fór, Húſavíkur preſtur.

Gríms — í þarfur — túngu trúr, Tals í starfi merkur, Snæbjørn hvarf úr harmaskúr Haldórs arfi klerkur.

Ingimundar sonur sá Sigurdur fundinn preſtur Arnar — blundar — bæli á, Bedju þundar feſtur.

Síra Einar Bjørnsins bur Banadi meina kúla, Pénti fleina þuradur Píngi seinaſt Múla.

Jón frá glíngri Gudmunds nid Gømul þvíngun krafdi, Skaptfellínga vel er vid Vøldin pínga tafdi.

Herra Kranſi hugraun bjó, Heljarſtandſins nadur, Valda glanſa vafinn dó Veſturlands amtmadur.

Stephán frídi Stephenſen, Stod og prýdi lódar, Endti ſtríd, en blódug ben Brjóſti ſvídur þjódar.

Medan bif ad blindar drós Báru drifar ſkeidi, Skyldt er lifi hæfid hrós Herrans yfir leidi.

Biſkups eckja greida gód Gudrídur þeck á foldu, Haldórs flecklauſt haldid jód, Hvílu féck í moldu.

Pórarni gétin resla-rein Rækti metinn heidur, Landfógéta eckja ein Ondu lét Ragnheidur.

Stúdent lami ýttiſt á Olaf frama kénda, Benedikts ſami bur tók frá Búſkap Hamraenda.

Daudinn ædir orkuſtór, Angurs fædir kvídann, Eins hann þrædir ecki rór Utum grædir vídann.

Í Dritvík því øldur nær Aſk brimríkar ſlóu, Prír menn lík og þarmed tvær Práda-bríkur dóu.

Báru-jór frá Beruvík Bláfinn sjórinn meiddi, Fleina þóra sim þá lík Feigdin stóra deyddi.

Géddu-heimur Gilsfjørd á Greip frá seimi kjørnum Tvø sprund, beima þar til þrjá, Þó med tveimur børnum.

Kaupavera kuggur sá, Kominn hér af Sandi, Hermt er skér eitt hlaupid á Hafi sér ad grandi.

Dýrafirdi eitt skip á Aføll stird hlaut þola, Sim svo virda feiga þá Foldin byrgdi kola.

Þverár grøndin gripu stíf Gullhlads strønd óríka, Misti øndu, megn og líf Madur í Bløndu líka.

Midhrauns jardar mørku frá Meidir barda reistur, J Straumfjardar — stirdur — á Strídi vard af leystur.

Faldadýs, er fólki hjá Faladi hýsíng vana, Nidrum ís í Ølvesá Ein fékk vísann bana.

Brunnastadar bónda son, Bundinn vadi nauda, Ør-þjakadur óms á kvon J féll hradann dauda.

Stúlkur tvær í Stadarsveit, Strángt med færi nauda, Kæfdi snær á klaka reit, Kólu þær til dauda.

Þrumgøll messu þúng ádatt Þegn á Bessastødum, Dó af þessum þjádur hratt Þýngsla pressu skødum.

Lengur enn ad letra brag Lítt eg nenni fremur, Dymman grennir gódann dag, Gríma senn adkémur.

Bragur skrídur endir á, Efnis bidum núna, Dagur lídur, sendir sá Svefninn hlídum brúna.

## 43ja Tídavísa
### yfir árid 1821.

Valhendíng.

Veltist tídin vísid mána víst án bidar, Njótar kvinnu núna rodar, Nýárs tíma komna bodar.

Atján hundrud árin Kristí øldin vitur, Tuttugu og tvø þó betur, Telur eflaust þennann vetur.

Vetrar=tídin var ei hørd á voru landi, Jardþaks fønn um jólners kvendi Janúaríus oss þó sendi.

Rosafamur þókti Porri þjód á ládi, Mein ei Góa mønnum tédi, Martíus var hýr í gédi.

Grænlands ísnum grædir híngad gjørdi aka, Vorkuldann þad vildi auka, Vøxtinn rírdi grass og lauka.

En þó skjaldan ofanfélli Ymis tregi Greiddi sólin gæfu hagi, Grasár vard í betra lagi.

Hér og sydra hirdíng slýtti heys eyglóa, En ad nordan ítar segja Allra verstu nýtíng heya.

Urdu vída útheyin þar undir fønnum, Fremur enn í manna minnum, Mørg þess dæmi ønnur finnum.

Haustid sendi feikna faunir frost og vinda, Sem ad enn vid Eydursanda Ofan þylja belti landa.

Fjølda vída fennti og hrakti fjár afvega, Svoddan harka hausts um daga Hefur mørgum ollad baga.

Sydra gáfu seggjum aflann síldar=brautir, Vestanlands, þó vættust skutir, Voru nockud minni hlutir.

Arid þettad yfrid vída ýmsir láu, Marga sóttir megnar slóu, Margir kvøddu heim og dóu.

Prestinn Sæmund heitinn Hólm á Helgafelli Burtu leiddi lúakvilli, Listamann med hugvits snilli.

Merkis=prestur Mela, gæddur menta kérfi, Síra Bjarni Arngríms arfi Asamt kvinnu dó hinn þarfi.

Síra Vigfús Eyólfs arfi, eymdur kvillum, Reyndur dó á Reinivøllum, Raunum burt frá leystur øllum.

Hét Illugi Hannessonur høkla=vidur, A Villíngaholti hradur, Hann er líka burtsofnadur.

Hálfdáns sonur Sæmundur með sønnum gridum Bana leid á Barkarstødum, Blundar prestur frí af skødum.

Þorláks sonur Síra Páll hinn sóma-frídi Á Þíngvøllum einninn deydi, Allvært sefur hulinn leidi.

Stephans sonur virdtur vel í Vallanesi, Síra Jón med sóma fasi Sínu lauk nú æfiglasi.

Hafdi bú í Hítárnesi hugarprúdur Bjørn Sigurdarson ótraudur, Sá er prestur líka daudur.

Síra Jón, er Sigurdar var sonur gildur, Afli daudans af vard kaldur Á Rafnseyri mjøg vid aldur.

Baldur høkla Bjarnhédinn med blídu gédi Í Vestmannaeyum deydi, Ársi Gudmunds hulinn leidi.

Vídalín á Vídimýri vid er skilinn, Benedikt til værdar valinn Var stúdent í jørdu falinn.

Húsfrú góð á Stadastad med storri prýdi, Mæt hér haldin medan þreidi, Margrét Páli borin deydi.

Þremur vikum þorngrund ádur þjáníng neyddi, Meyborn þrjú þá føgur fæddi, Fyrr enn gøtu daudans þræddi.

Í Steinnesi nordanlands hjá nýtum presti Síra Magnús sorgin gisti, Sín því bornin þrjú hann misti.

Ein var Steinunn ágæt jómfrú audgud heillum, Kunnum mønnum ástsæl øllum Andadist á Hvítárvøllum.

Sú er huggun, saknadar ef særir bagi, Finnast menn á fegins degi, Fund þann daudinn slítur eigi.

Eins Haldóra Eiríksdóttir er ad blunda, Húsfrú góð med heidurs vanda Hreppstjórans á gili Branda.

Kvaddi mæt á Mælifelli meins vid léttir Húsfrú prófasts hel og sóttir, Hún Cecilja Stephánsdóttir.

Tveimur árum ádur misti elldann dádum Bródur sinn med sóma hródum Síra Jón á Helgastødum.

Dóu systkin dávæn tvø af daudans fundi, Signud børnin samblundandi, Síra Páls á Brúarlandi.

Dýralækair líka Skapti, lagdur prýdi, J. Reikjavík aldinn deydi, Endti ferd á líffins skeidi.

Saltúr gjørdi sjórinn líka sumum granda, Sem um rákir ligru linda Leiddu skip med afli vinda.

Skip frá Gufuskálum søck í skædu kasi, Fim í tédu tíndust kífi, Tveimur bjargad vard med lífi.

Líka fyrir Látrabjargi lúngi sunda Báran gjørdi bólgin granda, Bragnar átta mistu anda.

Eitt fórst skip úr Øgursveit á ísabreidu, Atta menn þar andlát þádu, Adrir fjórir landi nádu.

Húna-jór í hákallsfari hvals á grundu Breki sló frá Bardaströndu, Bragnar átta sviptust øndu.

Á Hvamsfjardar ýrsku leid, þad ítar sáu, Straumar knør í kafid dróu, Konur tvær og piltur dóu.

Ad heyskap í eyu næstu ullur skída, Mætur þegn med mund ótrauda, Mønnum nádi ser úr dauda.

Kugg úr Lángey kólgu afl af kjølnum snéri, Aldan fjórum andrán kjøri, Einn til lands þó komst med fjøri.

Skip úr Rifi ránar dætur reidar fylldu, Sjø í flódi fjørid seldu, Firdar tveir þó lífi héldu.

Bát af Mýrum Borgarfjardar bárur lustu, Og med grimdar afli hristu, Itar tveir svo lífid mistu.

Hafskip stórt úr Holstein komst í hafís-breidu, Firdar þó frá bøli brádu Bátum á til landsins nádu.

Utlendsk dugga ein vard, hrøkt af afli vinda, Eyafjøllum undir stranda, Ønnur rak vid Mýrdals-sanda.

Frá Hallsstødum hér á Fellsstrønd húsrádandinn Fannst í á, þar' bana-blundinn Búid hafdi daudastundin.

Birnistødum bóndi frá, ér búi stýrdi, Snjós í skridu, innt er, yrdi Þrendur í Dýrafirdi.

Brecku frá í Sanda-sókn einn sauda hirdir Hátt úr fjalli hrapa gjørdi, Hel þad olli bauga-njørdi.

Á Audkúlu Arnarfjardar innst vid kéldu Seidir sjósid svalg á foldu, Sex þar kýrnar dauda þoldu.

Hvarliga enginn fàri eldinn medur, Einatt vard sá of-sjálfrádur, Af því hann er matar brádur.

Vænn amtmadur veittist oss um vestur brautir, Stjórnar løgum best er beitir, Bjarni Þorsteins sonur heitir.

Høfdíngjanum háleit fylgi heill og gæfa, Svo hann megi lengi lifa, Landinu til bestu þrifa.

Fréttir ecki fleiri man eg firdum greina, Vidir gulls med vizku fína Vorkénni því leti mína.

Ása-flædi minst svo mædi meira fíngur, Hás frá kvædi keirir drengur, Kvásirs æd ei dreyrir lengur.

## 44da Tídavísa
### yfir árid 1822.

Lýdhenda.

Hrista fjadrir hanar Ragna, Hefja morgun gal, Eg sem adrir af því fagna Ári nýu skal.

Atján hundrud tíd má télja, Tuttugu og þrjú, Efi stundin ei kann dvelja, Áfram hleypur sú.

Lént í heimi luckan føgur Leikur hjólum á, Rétt sem streymi ægur øgur Ymist til og frá.

Undra vetur øldin þádi Eystra og nordanlands, Dundu hret, svo hross á ládi Heljar stigu dans.

Bæir fenntu, fénad deyddi Fønnin vída hørd, Hagir grentust, yndi eyddi Offa-tíd um jørd.

Góa snjóa vøllum veitti, Vedrid skapti pín, Oláns tóa øllum beitti Illsku krapti sín.

Yfirhøfud hardur vetur Hét um landid vídt, Frost áköf og fanna tetur Fylgdu blotar tídt.

Vors med døgum vænsta bata Veitti himin jørd, Féd ad høgum fór ad rota, Fljótt uppleysti svørd.

Undra þokur opt þó gengu, Ásamt kalsa vind, Stundum rokur firdar fengu Fram um karfa-strind.

Spruttu tún í lakra lagi, Lítil tadan vard, Þó komst hún, svo þryti bagi, Þurr í heyagard.

Øllu betur engin spruttu, Er svo vída spurt, Æddu hret því ítar sluttu Uthey midur þurt.

Haustid sendi hríd med stormum, Hrøktust kindur því, Siglu kéndi kiljan ormum Kúra naustum í.

Blódid hafla géfur gródann Gautum orma sands, Fiskiafla fengu gódann Flestir sunnanlands.

Aungla strengur opt þó rynni Utí djúpann sjó, Veidi fengur vard hér minni Vestra nockud þó.

Mørg vill ama manna lífi Mædan hér á jørd, Vondskan rama veldur kífi, Villugjørn er hjørd.

Rángárvalla-þíngsins þegnum Þrautin mædu bjó, Eyafjalla — eldi megnum Ur sér — jøkull spjó.

Sandur dreifdist svids um brúdi, Svælan dymmu jók, Grandid hreifdist, fólkid flúdi, Fénad daudinn tók.

Þarum innir ecki fremur Odar þetta vess, Arid kynnir oss er kémur Afleidíngar þess.

Lífid manns á hæpu hjóli Hleypur sína leid, Kífid hans og kénslu-skóli Kortast loks med deyd.

Daudinn kallar ráda-ríkur, Refsíng krefur synd, Blómid vallar følnad fýkur Fyrir Herrans vind.

Síra Géstur kránkur kvaddi Kjalness-píngin veitt, Sigur bestur sálu gladdi, Sefur holdid þreytt.

Vigfúss endti baninn bródur Benediktssonar fjør, Einholts þénti píngum ádur Þegn med prestakjør.

Einar Síra á Saudanesi, Sæll í trú og von, Einninn er, þad lýdir lesi, Látinn Arnason.

Þorlák prestinn Magnúss møgur, Med í Vídidal, Hvildin besta fridar føgur, Falinn grafar-sal.

Ar þrjátíu blindur bardist, Blída þrádi ró, Utan fríu øtull vardist Orvæntíngu þó.

Torgrímsen hann Torfi deydi, Tíndi fjøri lík, Jardar men á látins leidi Lédi Reikjavík.

Er Gudbrandur øndu firrtur, Apótekarinn, Listum vandur, líka virdtur, Leid til hvíldar inn.

Valgautshani hljódi tapa Hygst því gledin dvín, Kaldur bani kneif af Stapa Kaupmann Hjaltalín.

Fagurt ljós þar leid úr heimi, Lands er prýdi var, Dygda hrós því hans umsveimi Hvílu legstadar.

Ingibjørg á Asi deydi, Agætt kvenna blóm, O! ad mørg á æfiskeidi Ætti hennar róm.

Leidast menn frá lédu midi, Lífs er háskinn stór, Þetta kénna lýda lidi Løndin, vøtn og sjór.

Skip í Njardvík skaflar slóu, Skértist ferdin meir, Fim þar barda freirar dóu, Fjørs þó nádust tveir.

Skip úr Rifi sock á sundi, Sjáfar undan gard, Sjømenn yfir daudinn dundi, Døpur tídin vard.

Ara-jór á Eyafirdi Afell sjór órír, Tvo og fjóra farsi byrgdi, Fjori héldu þrír.

Þorlákshafnar þóttu-hundinn Þordi ægir slá, Olgan drafnar fárlig fundin Fjóra deyddi þá.

Hvalur sló og fékk svo fargad Fleyi' úr Reikjavík,
Tveimur þó vard þegnum bjargad, Þrír menn urdu lík.

Af Seltjarnarnesi neita Radur seglráar Sökk án
varnar sels í reita, Sjø menn dóu þar.

Hérads — laut í — vøtn ad vana Vopna-týr og
dó, Annar hlaut í Bløndu bana, Bádir fengu ró.

Einn í Fljóta ánni lendti, Er hann dáinn fal, Líkid
ljóta æsi endti Eins í Lángadal.

Ungur madur øndu slepti Einn Stafholti frá, Ifinn
hradur hljóp, en hrepti Hel í Nordurá.

Átta menn í ýmsum stødum Uti mistu líf, Feigdin
enn á fæti hrødum Fer um óma víf.

Skadi vard, því skaut sig madur Skipi dønsku frá,
Skutulsfjardar — hugar hradur — Hafnar midum á.

Kúlu-trøll hann hlód úr hófi, Hleypti sídan af,
Svardarhøll í svælu kófi Sundrud daudann gaf.

Jøtuns andi, já med ædi, Jóladaginn þaut, Hr á
grandid sá um svædi Setbergs kyrkju braut.

Líka klauf hann hnísu hlída Húna sumstadar, Húsin
rauf og heyin vída, Hardur kári var.

Í Kolvidarnesi nædi Reitir veittist ei, Utan bid hann
át med brædi Øll í fyrra hey.

Margir giptast menn í landi, Margir drecka þá,
Margir sviptast mædu standi, Margir leysast frá.

Margir skarta, margir kaupa, Margir græda hér,
Margir kvarta, margir raupa, Margir berja sér.

Margir vinna, margir þjóna, Margir stunda sjó,
Margir spinna, margir prjóna, Margir snikja þó.

Leidist mér nú lengur þylja Landsins raunum frá,
Eg mun hérvid skriftir skilja, Skal ad fleiru gá.

Mundin þreytist, minnid dofnar, Mædi hrekur þrótt,
Stundin breytist, sinnid sofnar, Svædi þekur nótt.

## 45ta Tídavísa
### yfir árid 1823.
Skjálfhenda.

Geislar frídir gylla hlídir gulli fremur, Bylja hrídir burt þad nemur, Breytast tídir, nýár kémur.

Fridar-mundinn færi stundin, fold og øgur, Ártal fundu ordtar bøgur Átján hundrud, tuttugu og fjøgur.

Gódum vetur lýsir letur lands um haga, Kvikfé lét þó kanna baga Kulda-hret um vorsins daga.

Misti engi lífgun lengi, lauka-rætur Því ei fengu þroska-bætur, Þurkar gengu dag og nætur.

Køtlugjá úr gini háu gaus upp eldi, Sem med gráum sandi feldi Svardar strá þrótt á veldi.

Margur valinn vøllur falinn vard sem gréri, Í Mýrdal og Álptaveri Er því talad mest á beri.

Sig nær ýfir sorgin stíf og sæld upprætir, Drottins hlífir hønd og bætir, Hann ad lífi manna gætir.

Hér vard vestra heya-brestur helzt á tødum, Nærdi frest á neyd og skødum Nýting best í flestum stødum.

Nyrdra mengi mætti lengi meiri regnum, Sem um engin svo hjá þegnum Sumars fenginn vætti gégnum.

Rosum hreifdi haust og reifdi hrími moldu, Líka dreifdi fønn um foldu, Firdar leifdir hretin þoldu.

Byljir mestu fold um festu fanna køstu, Þjódin lest af þreki høstu Þádi vestu jólaføstu.

Seggir frægir, sem á ægir súdum skutu, Bards um hagi bjargar nutu, Í betra lagi afla hlutu.

Hnídíngs líka hlaup frá slíkum hvalaþíngum Hjálp gaf ríka reckum slíngum, Í Reikjavík og Stadsveitíngum.

Daga og nætur bresta bætur brúdi grana, Gud menn lætur lída bana, Landid grætur høfdíngjana.

Sorgir reira mørgu meira menn um haudur, Biskup Geir er gódi daudur, Grát má heyra, stóll er audur.

Þad má glósa gauts um drós, þó grátur streymi, Fagurt ljós þar leid úr heimi, Lofda hrósi þjód ei gleymi.

Virdtur framt med vitid tamt og voldum saddur, Ęfiskamtar stig vid staddur, Stephán amtmann vard brádkvaddur.

Sigfús annann Arna þanninn arfann skjóti Daudinn fann med dirfsku hóti, Druknadi hann í Lagarfljóti.

Páll og ái Olafs sá med ærustandi, Holtum frá, í humru blandi Helju þá á Mýrdalssandi.

Boda-ríku vatns í síki víst harmadur Eins hlaut slíka útfør hradur Øfjørd líka sýslumadur.

Þridji beimur þessum tveimur þegnum medur Leid frá heim, svo løgur tédur Lédist þeim sem dauda-bedur.

Síra Jóhann Bergsveins bjó nú baninn kundi Garpsdals þó í grafarlundi Góda ró ad effta fundi.

Síra Jón, er sálmatóninn sýngja gádi, Borgar þjóna braudi nádi, Blund í fróni látinn þádi.

Ingimundur messu-þundur mætti føllum, Gunnars kundur klár af gøllum Kannar blund á Olafsvøllum.

Oddsson Sæmund særdi slæmur sóttar verkur, Trygda næmur talinn klerkur Tjørn á ræmist dáinn merkur.

Þorlák líka Síra sýki særa nenti, Harmarkka hérvist endti, Húsavík sá fyrrum þénti.

Alaheidinn einninn greidir ítum bana, Þá um breida þorpid svana Preyttir leida víshundana.

Flútníngs skúta úr firdi Hrúta féll í vanda, Fim þar útaf sirtir anda Fengu lúta hels á granda.

Neglu mana af nesi Svana neyd ad vendi, Fjórum bana breki kéndi, Byrdar grana runnum sendi.

Hellnum frá barst humlúng á í hákallsveidi, Einn í sjá þar drengur deydi, Dreginn þá ad elli-skeidi.

Vatns — af — nesi viggur trés fékk voda leidi, Ullur fés frá æfiskeidi Einn þar hlés í maga deydi.

Hafnarfjardar hindin barda hlés um granda, Flód er spardi fridar anda, Fyrir Gardi hlaut ad stranda.

Skipid gallad skéljúngs vallar skéllir hrjádu, Flidruhallir farminn þádu, Firdar allir landi nádu.

Funi ljós, sem hæpid hrós hjá höldum kéndi, Alptárósar bæinn brendi, Bana drós og einni sendi.

Stack sig sendur stálabendir stafs med falnum, Flasíd kénda feigd gaf halnum Frá Vatnsenda í Skoradalnum.

Almatýr, sá ord Guds skíru ofmjög rengdi, Sig í Mýrasýslu hengdi, Sigri dýrum burtu slengdi.

Hæsir valla vel ad snjallur verka lýdur Burtu lalli, fyrr enn frídur Fólk heimkallar herrann blídur.

Bragur sneidist, lúnum leidist letra kvædi, Dagur eydist, nálgast nædi, Njóla breidist yfir svædi.

Fundur óma grund af góma gagn ei vekur, Blundur ljóma lagnad hrekur, Lundur skjóma þagna tekur.

## 46ta Tídavísa

### yfir árid 1824.

Skáhendt úrk.: st.

Fæst enn dagur, framast hagur, fegrast hlídin, Lof sé Gudi! útendud er ársins tídin.

Um hans mestu umsjón bestu allt ber vottinn, Gott ár bædi sveit og svædi sendi Drottinn.

Artal fundid átján hundrud ítar meina, Tólf og þrettán þjódir nettar þar til greina.

Vetur lidinn vallá fridinn veitti ládi, Mørg var hríd-in, hørku-tídin hølda þjádi.

Hardir snjóar huldu móa, hagar brustu, Blotar tídir, bygd og hlídir byljir lustu.

Nordurlandid nauda standid næmast hitti, Æfi manna illvidranna aflid stytti.

Menn þar úti urdu líta, eyddust bjargir, Veit eg eigi vel ad segja víst hvad margir.

Hross um landid hreptu grandid hors og nauda, Sumir skáru fjølda fjár med fljótum dauda.

Vors med døgum vedra drøgum vard ad linna, Lopt-sins ædi svo um svædi sýndist minna.

Aprílis fór meins á mis, en Majus stundum Ros-um hreifdi, hjørd þó leifdi haga á grundum.

Gréri jørdin, grænann svørdinn grøsin klæddu, Geisl-ar frídir fróns um hlídir fannir bræddu.

Spruttu tún, svo røgners rúna rífann ardinn Gaf oss besta, fengu fléstir fullann gardinn.

Nýting góda nyrdra þjódar notin bætti, Hérna vestra heyskap flestra haustid vætti.

Féllu snjóar, frusu móar fyrir vetur, Nordann andi þrek umþandi þoska-setur.

Frostin hørdu festu jørd í fjøtrum kulda, Sund og firdi samføst byrgdi svella hulda.

Fjúkin sídan faunløg vída fróni sendu, Med óróa, mokstur snjóa mønnum kéndu.

Aflann góda, opt er þjóda efldi hagi, Mørgum hafid mønnum gaf í medallagi.

Hníðínganna hlaup frá ranna hvala bríngum Snøgg gaf bædi og snotur gædi Snæfellíngum.

Yfir þúsund þeirra ní med þrifa standi A kambinn harda kvistir barda keirdu ad landi.

Seggir skáru seldu og báru sjód í vøsum, Adrir stálu feng og fálu frekt úr køsum.

Grædgin bølvud, ær og ølvud, aldrei fyllist, Ofdýrt selur, sýgur, stelur, sífeldt villist.

Heimska er mesta hug ad festa heims vid gædi, Vort er fjørid, vøld og kjør á veikum þrædi.

Lífid eydist, lánid sneidist, listin þrotnar, Heilsan-kvedur, hel advedur, holdid rotnar.

Benedikt prestur mælsku mestur mætur deydi, A Stad blundar Ingimundar arfinn þreidi.

Gudmund Bjarnason hin svarna sótt ad vana Arness prestinn sølann festi freyu grana.

Sumar fella sótt og elli sveitir landa, Adra hrífur haf og drífur hels á granda.

Skip úr Fljótum fórst af skjótum flædar-órum, Tjónid stífa tók þar líf af tvennum fjórum.

Einn úr Hrísey hrakti vísund hrikinn alda, Sjø menn létu líf í hreti lúdu tjalda.

Bardastrandar byrdíng granda báran kunni, Níu menn þar ýttust enn ad ægirs grunni.

Ur Bjarneyum eitt og fleyid áfall þádi, Þegn og víf þar létu líf í lagar grádi.

Bát úr Reikjavík óveikur vindur hreldi, Tvo menn nauda djørf í dauda drøfnin feldi.

Nefs Dagverdar far í ferd um flidru-stigu Poldi tjónid, þrír í lónid þegnar hnigu.

Hákall fley úr Höskuldsey í háska feldi, Drengir tveir þar dóu þeir, sem dröfnin hreldi.

Fljót Skjálfanda fann til handa feigdir einum, Drengur sá þar daudann þá í dýnu-leynum.

Reykjadalsíns humra halsíns-hræríng tepti, Einn þar reckur ítum þeckur öndu slepti.

Daginn jóla bör ormsbóla brots um svördínn, Frá Múlakoti, þá lífs þrot vid Poskafjördinn.

Madur á sig meiddi ljá á Melstad þægur, Afgáng þreidi, eitt hann deydi eptir dægur.

Nordurlandi audnu andi amtmann sendi, Grímur heitir hjörva beitir hér innlendi.

Sudur-amtid ærutamt fær ödrum fagna, Hoppe tjádur freir er fjádur fjardar vagna.

Gæda standid grær um làndid, görpum fénast, Fridar töldu fjárins höld, ef fólki lénast.

Sumir spilla sidum illa, sig ei vara, Vor Gud greidi veg og leid þeim villir fara!

Drottinn hæda gèfi gæda gnóttir landi, Audgi dygdum, eydi hrygdum, aptri grandi!

Verid þér í veröld hér á vegum dádar Guds útvalin fridum falin fadmi nádar.

Odda sveigir ódar flegir önnum nidur, Pagnar módur, magnist gódur mönnum fridur!

# 47da Tídavísa

## yfir árid 1825.

Trískéhendt.

Hani Fjalars fer ad gala vakinn, Lucku hagur lífgar menn, Ljómar dagur nýárs enn.

Lof sé hara himnaskara mildum, Sem í skordum læt- ur lýd Lofada fordum haldast tíd.

Atján hundrud ártal fundu lýdir, Tímaríka talid vex, Tuttugu líka ár og sex.

Ar í fyrra, fjærri kyrru lagi, Kvaddi mó og karfabed Kulda, snjó og frosti med.

Knúts med degi kynja tregi skýa Féll hér nidur foldu á, Frekar skridur runnu þá.

Margar jardir mistu svardargædi, Leir og sandur rann um reit, Nirdi landa hagabeit.

Seiglu veitur segja letur væri, Bygdir hreptu bísna snjó, Batnadi eptir páska þó.

Vorsins tídin valla blíd ad kalla, Pægd med dulda þjórs um haf, Purk og kulda nógann gaf.

Grasíd leynt því gréri seint á jordu, Sótt um landid sídan gékk, Sældar-standid rírt hún fékk.

Heys um tíma hún med líma nógum Rak hér marga rúmid í, Nirdi bjarga gagnid því.

Nýting heya hér má segja slæma, En í medalmáta framt Munu téd ad verti samt.

Haustid sendi hretin kénd, er nádu Jeljum kasta á jardarlód, Jólafastan vard þó gód.

Hluti ríra hvala-myri veitti Flestum þeim, er sorum á Flidru-heiminn plægdu blá.

En í vetur øllu betur hefur Fiskad, hvar sem frétt-ist til, Fólk úr þara djúpum hyl.

Sóttin megna marga þegna víða Reyddi hruma húmbed á, Heimi suma leiddi frá.

Stiptprófastur stjórn vanastur bestu, Magnúss fridi møgur þó, Markús prýdi landsins dó.

Hann var madur háttaktadur vída, Lærdur, merkur, mælsku-hreinn, Mesti klerkur haldinn einn.

Hjardar — rédi — holti tédur dáinn Arna alinn besti bur, Benedikt Dala prófastur.

Einninn deydi ordagreidur sydra, Sóttarlíma seldur þá, Síra Hallgrímur Gørdum á.

Høgnason med helga von í fridi Vard ad deya vígslu þjón, Vestmanneya prestur Jón.

Síra Bjørn og sælu kjørna hrepti, Bólstadar — sem bygdi — hlíd, Baga spar um sína tíd.

Stephán Scheving gæfu géfinn prestur, Undir sólu ærumann, Í Presthólum deydi hann.

Sótt ódfluga son Illuga deyddi, Mátti sárna sveit-um þá, Síra Arna Hofi á.

Lista fjádur lengi þjádur deydi, Blinds er svønum bjó til þor, Benedikt Grøndal assessor.

Ymsa vega æfi-trega styttir Daudans vodi, sem mann sér, Sendibodi Guds hann er.

Á Sveinstødum ein í hrødum kulda Marar ljóss-ins menja dó, Milli sjóss og bæjar þó.

Einninn deydu útá breidu snjáa, Nístir grandi nóg um bý, Nordurlandi sex menn í.

Vøtn og sjórinn valda stórum skada, Hrotta teinn sem hel burt dró, Halur einn í Bløndu dó.

Einn í Hvítá ullur ríta feigur Datt um ís og druckna vann, Dáinn hýsir vatnid þann.

Ofan úr reida áls ad heidar grunni Datt hér nockur dauds á mid Danskur kockur Búdir vid.

Ur Hrafnseyu útá vegi síla, Tjón sem bidu tídum á, Tveir menn lidu heimi frá.

Patriksfjardar hretid harda lamdi Þjórinn banda, því í svip Þar nam stranda kaupmanns skip.

Hollendsk dugga, hladin ugga dýrum, Brotna vard med tjón ad tjá Tálknafjardar skérjum á.

Aungvum manni, eg sem kann ad greina, Báran hress-þó bana gaf Bádum þessum skipum af.

Meiri fréttir man eg rétt ei þylja, Því ad hreifa þeigi vil, Þeim er deysa grídar byl.

Biskup nýann frónid fría þádi, Lærdóms hreina haukinn þann, Herra Steingrím besta mann.

Øll hans spor um eyu vora greidi Gud alvaldur lífs á leid, Lángann aldur fram ad deyd.

Laugarnesíd nærri hlés ad falli Biskups sæti ordid er, Audnan gæti starfa hér.

Hér var ádur húsa fjádur stadur, Hér er leidi Hallgérdar Hreckja-greidu lángbrókar.

Það til æru þeirri kæru verdur, Ad um hennar høfudból Hófu menn nú biskupsstól.

Guds vors høndin geymi lønd og þjódir, Hans ástkærá annist hlíf Ydar kæru børn og líf!

Þýtur magur mærdar slagur burtu, Prítur dagur nú á ný, Nýtur bragur hvíldar því.

# 48da Tídavísa

## yfir árid 1826.

Skothendíng.

Enn sá gódur lands um leir Lángur vani slædist, Peg-
ar módurinn døpur deyr Dótturinn únga fædist.

Uti hafid eylífdar Ar nam lidid slýa, En þó gaf,
sem ásett var, Aptur þettad nýa.

Atján hundrud ártal sezt, Ellefu tólf og fjøgur, Ís
um grund þó forløg fest Finnist heilla møgur.

Vetur lidinn lands um bý Lédi sumum kvída, Fanna
idinn fellir í Foldu byrgdi vída.

Jólatída føstu frá Fønn med svellum hálum Dundi
vída ekru á Allt ad sumarmálum.

Pordi kalla þjódin holl Petta furdu staka, Lagdi
valla læk né poll, Læst var jørd þó klaka.

Vedur hørd á vorum reit Vída þádu lastid, Mest
um gjørdi samt hjá sveit Sumarmála kastid.

Hrepti bana fjøldi fjár, Frek því meiddi saudi Oár-
an og annad fár, Einninn lamba daudi.

Regnin duttu ríflig á Rindarelju nidur, Engin
spruttu tæd ad tjá, Túnin nockud midur.

Heys um tíma margir menn, Meintir helzt til þarfa,
Sóttar líma lidu enn, Lítt því þoldu starfa.

Púnga regnid þaut á lód, Þarmed vinda blakid, Heya
megnid þar af þjód Pádi vída hrakid.

Haustid þrátt þó hér um reit Hreifdi vinda drøgum,
Gott þad mátti segja sveit Samt ad jørd og høgum.

Blódsins hafla bláleitt haf, Blídt þá gjørdi vidra,
Fiskiafla gódann gaf Gorpum hér og sydra.

Margir lidu lands um bý Lama sóttar tédann, Nockrir fridi fengu í Fararléysi hédan.

Adur géfinn Grenjadar — Gódum — stad full mætur, Hannes Scheving hníginn þar, Haudrid prófast grætur.

Síra Þorsteinn Einars á Arfi Stadarhrauni Ut var borinn, heillin há Hans þó mædu launi.

Líka annar Einars bur, Utskálanna prestur, Sels í ranni Sæmundur Sáladist trúar-hrestur.

Leyrá deydi leifdur frá Ljóminn kvenna fridi, Frú Ragnheidur, frón vort þá Fagra misti prýdi.

Ísfirdínga einninn Jón, Adur sýslumadur, Laus vid þínga laga tón, Ljódast burtsofnadur.

En sáladur segist fjær Sá í fréttum nýum, Þóroddsstada klerkur kær, Kapellán Gísli Wíum.

Háska kénda heyrist fregn, Heims er bir ótraustur, Eldur brendi mest allt megn Mødruvalla-klaustur.

Amtmanns stofan øll þar brann, Onnur tvø hús medur, Ei má sofa adgæzlan, Elds nær brúkun skédur.

Jardarveldis vodarnir Valda meinum strídum, Bródir elds og bodarnir Bana mønnum tídum.

Hvalfángara hraktist skip Hafís í til meina, Dauds adfara svartann svip Sýndist runnum fleina.

Bátum flýdu ítar á Upp ad fasta ládi, Englands lýdum þessum þá Þjódin bjarga nádi.

Fáir dóu frosti af, Fleiri kalnir vóru, Loks þeir dróu hér á haf, Heim med Dønum fóru.

Barst á skipi einu úr Eyrarsveit mannríku, Heljar gripnir drengir dúr Dóu tveir af slíku.

Eyafjardar ára-jór, A med fjórum høldum, Drukna vard í kópa kór, Kaf-færdur af øldum.

Skip úr Fljótum fylti mar, Fram á nesi svana, Atta brjótum odda þar Ægir gjørdi bana.

Bátum Strandar báran tveim Bilti nálægt skérjum, Pollar branda sviptir seim Sinn þar dó af hvørjum.

Af nesi Akra neglu-hró Nóg af byljum hrjádist, Prír í rakann seggir sjó Sucku, einn þó nádist.

Gufuskálum skip eitt frá Skædar øldur slóu, Sjø í álum þoska þá Þegnar útaf dóu.

Nordur í Fljótum níu menn, Nú í hákalls veidum, Hafs af rótum urdu enn Andast hvals á leidum.

Dýrafirdi aldan á Ylgi hlunns nam granda, Sjø menn byrgdi sjórinn þá, Sem ad mistu anda.

Búsur tvær, frá Bolúngar — Breidri — vík er dróu, Lamdi sær, svo þjádir þar Prettán reckar dóu.

Bát á firdi Arnar enn Illa slisid hrjádi Prjá svo firda mæla menn Marinn deyda nádi.

Fórst úr Vigur eitt skip á Ísafjardar djúpi, Daudir hnigu þegnar þá Prír í reidar hjúpi.

Skip úr Gardi søck í sjá, Sem ad ægir lesti, Bana vard þad bedur þá Brøgnum sjø og presti.

Virda þrjá af voga brík, Vørum frá í Gardi, Aldan bláa lagdi lík, Líf þó tveggja spardi.

Megnann skada mørgum bjó Mikill auds ákafi, Ad ofhlada sig í sjó, Svoddan skéd þó hafi.

Ur Gardahverfi brims á beck Bátum hvolfdi tveimur, Bana skérf svo fjórum féck Firdum reidar-heimur.

Einn í Leyrvogs ánni dó Ullur byrdar grana, Hafa fleiri høldar þó Hrept í vøtnum bana.

Madur hel í Bløndu beid, Barn í Svartá líka, Firdar vel á ferda leid Fordist hrakfor slíka.

Skálholts halur húsbóndinn, Hans á besta skeidi, Fór ad smala fé um sinn, Féll í tjørn og deydi.

Margir biltum meiddust af, Menn sér taki vara, Best er stillt um heim og haf Hvørjum jafnann fara.

Hestur sá, sem reckur reid, Rasa vard á hjalli, Mógilsáar bóndinn beid Banann af því falli.

Seggja raddir segja frá, Sælu vølt er skordan, Prír brádkvaddir urdu á Einum bæ fyrir nordan.

Eyrarbacka kaupmanns knør Knúdist enn ad stranda, Vidum stacka aldan ør Ei þó nádi granda.

Burt sú rápa fregn skal sá, Fjarlæg mínu gédi, Sauda drápi segja frá, Sem ad nyrdra skédi.

Ljót óhæfa líst þad enn Ljóss á tímum bestu, Skuli æfa skírdir menn Skálka-þørin verstu.

Sorgin sprengdi sumra géd, Sár er hrygdar nadur, Einn sig hengdi ángri med Eyrarsveitar madur.

Illt fæst tap, nær øllu er svipt Yndi géds úr salnum, Einn því drap sig nálar-nipt Nordur í Fnjóskadalnum.

Lífsins velur lengíng frí, Líf sá skapti fordum, Illt er ad stela þessu því Pá úr settum skordum.

Líf vort geymi gløtun frá Gud, hvørs ástar njótum, Líf, nær henni lídum frá, Lífs í borg svo hljótum.

Ydar líf og andi sé Audgad bestu gædum, Falid hlíf og fulltínge Frelsarans á hædum!

Prjóti ódur, þagni vør Pessa kífs um aldur, Hljóti gódur bóka bør Blessan lífs og kaldur.

## 49da Tídavísa
### yfir árid 1827.
Aldýr Stafhenda.

Dellíngs nidur dregst um slód, Daginn vidur fagnar þjód, Helzt af því ad ýmshold á Arid nýa færir sá.
Hjóli stunda øldnu á Atján hundrud megum sjá, Atta seytján ár og þrjú, Er það sveita datum nú.
Tídin kémur, tídin fer, Tídin nemur burt med sér Hvad sem gétur hvata gjørn, Hún sín jetur eigin børn.
Sveita vorra vetrar tíd Var ad Porra lokum blíd, Góa og vor med gæda hlé Gáfu hor og dauda fé.
Hjørd af sveltu helju fann, Hafís belta landid vann, Gródann freri svæfdi um svørd, Seint því gréri kalin jørd.
Tødu brestur túnum á Trú eg flestum yrdi l,,á, Nýttust þær, en huldi hríd Hnikars mær um engja tíd.
Haustid veitti vind og skúr, Vætu hreitti lopti úr, Hrinu ýglud himna ský, Heyin miglud urdu því.
Vetrar kaflinn veifdi snjó, Veittist afli nockur þó Snæfells-sveit um síldar vad Sydra heitir minna um það.
Margir løgdust menn í sótt, Margir søgdu góda nótt, Margur dygda madur deyr, Margur hrygdur eptir þreir.
Sára kaldt vid sorgar vad Síra Hjalti dó á Stad, Sæmdur anda sídprúdur, Sýslu Strandar prófastur.
Deyddi kvíslud drøfn ad von Doctor Gísla Brynjólfsson, Hans því náinn hylur jord Hólmum á vid Reidarfjørd.
Veisir linda víst med gát Vildi synda eptir bát, Sinar dráttur sæmdar mann Svipti mátt, svo deydi hann.
Próttar lestur þó med ró Porsteinn prestur líka dó, Eptir kvødum Alyerrans, A Klifstødum nordanlands.

Geymir merkann gínars kvon Gudmund klerkinn Skaptason, Berufjardar braudi frá Borinn vard til hvíldar sá.

Svo réd lægja sóttar far Síra Snæbjørns Bjørnssonar, Ad Gud hann med andláts frid Ey Vestmanna skildi vid.

Sídsta reyna svefn med von Síra Einar Hjaltason Pánka glødum þádi sinn, Póroddstødum á í Kinn.

Síra Fridrik gott med géd, Gudmunds nidur, deya réd, Allra nauda endíng fann, Asa braudi þénti hann.

Hvíldu hér og gésinn grid Gudmund Síra Porsteins nid, Hafinn stødum heimsins frá Helgastødum dó hann á.

Síra Oddi Sverrirs nid Særdum broddi daudans frid Grafar djúpid veita vann, Var á Núpi Stóra hann.

Sviptist meini, sæll í von, Síra Einar Pórdarson, Pénti frí um tíma tal Thorlacíus Otrardal.

Sigurd Pétursson med ró, Sýslu metinn mann, sem dó, Helgud gjørd ad hirda lík Hylur jørd í Reikjavík.

Skilinn vard frá skatna sjón Skutulsfjardar factor Jón, Æsdi trygda ætíd sid Edla dygda valmennid.

Mædu tjónsins þrotinn þó Porsteinn Jónsson stúdent dó, Ætíd fagrann ordstýr bar, J Gilhaga nyrdra var.

Sæmdarneitur sálast réd Sveinn á Sleitustødum med, Gáfum fjádur merkismann, Mjúkar nádir látinn fann.

Eptir lifir mannord mætt, Moldum yfir lengi rædt, Gott sem letra gamlir hér, Gulli betra riktid er.

Margt kann baka manni neyd, Margt ordsaka honum deyd, Hold manns ædi hørd og stór Heimtar bædi jørd og sjór.

Fjórir deydu firdar því Fornum reidar sólum í, Ara racki þeirra þá Paunglabacka-sókn var frá.

Bát frá Vogum sydra sjór Sagt er og ad drekti stór, Tveir þar bidu bragnar deyd, Burt svo lidu heims frá neyd.

Hvams—á—firdi aldan ør Einninn byrgdi ferda knør, Fjórir dauda fundu mein, Flóds í naud og slúlka ein.

Vatns—af—nesi í vidar ferd Viggur trés af bylgna merd Pángs á heimi þoldi neyd, Þegnum tveim svo vard ad deyd.

Ægirs mey sló ára=hund Um Grímseyar breida sund, Preidir enn þar endtu líf Atta menn og þar med víf.

Nesi Svana einninn af Ara=trana sóck í kaf, Tveir svo deydu þegnar þar Pá um reidar=slódirnar.

Ferdaskipi einu af Øldur gripu tvo í kaf, Ødrum hjálpad ítum var Uppúr gjálpi hefríngar.

Bát af nesi Akra ør Olga hlés í veidiför Hrakti meir enn hagfeldt var, Høldar tveir svo dóu þar.

Ullur fés af ára mar, Alptarnesi frá sem var, Nauda endíng nýtur fann, Nærri lendíng deydi hann.

Frá Stackhamri fjársmalinn, Feigd af rammri til=knúinn, Lífsins kjørum leiddur frá Laungufjøru deydi á.

Ur Hvanneyrar hverfi ør Hrínga eyri ein í før Andakíls í anni dó, Utan víls svo hreppti ró.

Konur þær, sem hjørts um hyl Hrøktust tvær í fjúka byl, Mistu úti megnid frí, Mid= og Hrútafirdi í.

Tídum sleininn bana beit, Bóndi einn í Stadarsveit Hrapa nádi hardt á grund, Hann svo þádi sízta blund.

Holtavørduheidi á Hrakníng gjørdu vermenn fá, Sem í njólu svartri þó, Sumir kólu, einn þar dó.

Hefríngs svipad hættu stand, Høfdaskipid braut vid land, Glyggir feldu góts í sjó, Garpar héldu lífi þó.

Byrgir naudin blídu-stand, Barna-daudinn fer um land, Fylla dóminn áleg ørg, Ungu blómin følna mørg.

Sviptur øndu úngur þó, Einn í Bløndu piltur dó, lífid þver, nær lédir hér Lidnir eru dagarner.

Vifid eitt í Vídidal, Væld og þreytt um hugar sal, Angrud deyddi sjálfa sig, Sæld frá-sneidd á mædu-stig.

Sízt má hlýda seggja øld Sér ad smída æfi kvøld, Best er ad þreja, hár uns hér Herrann segir: komid þér!

Dygda fríd med fremdar lén Frú Sigrídur Stephensen Hlaut í fridi hvíld af sótt, Hún í Videy blundar rótt.

Elín Kristín ágætt víf Einninn misti stundligt líf, Gudlaugssonar sýslumanns Sóma-kona og yndi hans.

Anna búin blídu góð, Bjarna stúdents ekta-fljód, Dygdug æ á Drottins jørd, Dó í Bæ vid Hrútafjørd.

Fréttir taka ad fækka hér, Fáordt staka líka þver, Ydur virda bid eg best Bragar stirda letrid klest.

Yndi, fridur, farsæld blíd Fadmi ydur alla tíd, Lifid taldur lífs med dád Lángann aldur Guds í nád.

Dagur þrýtur hýri hér, Hagur nýtur snýr ad mér; Værd ad taka hagnar hal, Hrærd því staka þagna skal.

## 50ta Tídavísa
### yfir árid 1828.
Stikluvik.

Elivaga andarnir Ota breytíng tída, Grána haga grand-arnir, Glitra lagar sandarnir.

Atján hundrud talin trú Tuttugu rétt og níu, Artal fundid yggs um frú, Er á stunda hjóli nú.

Gyllini ár med gædunum Gledi þjódum færdi, Hlýrnir klár af hædunum Hýrgadi brár á svædunum.

Vetur besta þádi þjód, Par med vor og sumar, Hey-skap mesta lands um lód, Lýdi hresti nýting gód.

Haustid góda vedrid víst Veitti drótt á ládi, Heilla gródur høldum lízt, Hjardir fódur vantar sízt.

Gódann afla gamreidar Greidugt vída sendi Blódid hafla brims á mar Bjódum skafla dalneydar.

Ecki sefur ádur gjørd Adams nidja fylgja, Dóms ei tefur duna hørd, Daudinn krefur menn í jørd.

A sem bjó med æru-tón Adur Saudlauksdalnum, Ellin dró í opnad frón Ormsson prófast Síra Jón.

Eins gat skírann Einars nid Olaf prófast helja Audg-ad dýrum andláts frid, Alptamýri skilinn vid.

Jón prófastur Jónsson á Jádur Audarkúlu Bana kastid blídur þá, Blundar fast í jørdu sá.

Hel ágjørn nær fjørid fal, Frídar nádir látinn Féck í kjørnum svefna-sal Síra Bjørn í Hítárdal.

Heilsu-lestann helzt ad von Hæfann Laufás braudi, Geymir festann gínars kvon Gunnar prestinn Hallgrímsson.

Magnúss glada megn og sjón Myrdti Svartá nyrdra, Rétt þá skada reid um frón Reinistada mессu-þjón.

Frú velkénda firdum hjá Forna Bjarnadóttir Hlaut ad venda heimi frá Hlídarenda Steinun á.

Utlegd þessa endti vel Olof Gudlaugsdóttir, Trúar hress vid andláts el, Eckja prests á Raudamel.

Sveltur drafnar svelgurinn, Sí og æ því margur Ara kafnar elgurinn, Ei þó dafnat belgurinn.

Bísna stífin bára sló Bát úr Flatey vestra, Fim þar ýfin andlát bjó, Einn med lífi nádist þó.

Skutar-vargi skada bar Skúm frá Brimilsvøllum, Premur fargad þá gat mar, Premur bjargad ødrum var.

Sels um becki sveimar fár, Sock frá Stickishólmi Item þeckur siglu-sár, Sex þar reckar urdu nár.

Flidru granda fyl í sjó Fauk á Akranesi, Ullur branda einn þar dó, Annar landi nádi þó.

Annar jórinn ára leid Werna þar af nesi Hættu sióra hafs-í neyd, Hølda fjóra myrdti deyd.

Sjø med høldum siglu-brik, Søgnin bragna þylur, Dyns á tjøldum drøfnin rík Deyddi køld í Grindavík.

Eyrarbacka ára-kló, Atta skreytta reckum, Ægis fracka aflid sló, Uns af racka líkin dró.

Laust í spjøllum líka tjá Lundar handar jaka, Færi þøllum ísu á Eyafjøllum skip eitt frá.

Neitt um manna missir þar Meira hér ad sinni, Og hvad sannast um þad var Ecki kann eg greina par.

Sparast nærri spjøllunnm Spunnin sannleiks ræda, Geip med stærri gøllunum Gengur hærra fjøllunum.

Feigdar dís um frón og sjá Fer, sem heyrist vída, Myrdti vís og máttug þá Mann um ís í Vatnsdalsá.

Prátt ad høndum hrygdin megn Hér óvørum kémur, Missti øndu orda-gégn Einn í Bløndu ferda-þegn.

Skordalsáin af tók líf Unglíng, dreng og stúlku, Hyldjúp þá og hørku stíf Hirdti náin óma víf.

Skoradals — um — vatnid var Veratýr á kænu, Daudi hals þá hradt ad bar Hrignu sals á gólfi þar.

Hrigg í Skørdum skéldist á Skridu ódur straumur, Vatns med gørdum veltist sá Voda hordum yfir brá.

Barn og kérlíng þoldi þar Prauta fljótann bana, Sárri hrellíng bót þad bar, Bjartur dellíngs arfinn var.

Blossi hradur brauzt um sal, Brendi undra frekur Hard-kviknadur húsa val; Høskuldsstadi í Laxárdal.

Allann gróda innbæjar, Æti, føt og hirdslur Brendi óda bálid þar, Búa þjód á engjum var.

Ad sér svipar einatt grá Oláns talin gydja, Ægirs gripin ecki smá Utlendsk skipin líka sá.

Hollendsk trana hlés um rann Hlaut vid Dritvík stranda, Eldti hana ógæfan, Einn þar bana madur fann.

Patriks; :di annar á Ara=jórlun lendti, Atti stirda endíng sá, Enginn virda deydi þá.

Vid Hornbjargid vesturfrá, Valinn hvala drápi, Húna=vargur lestur lá, Lødur kargur hvesti brá.

Enskir því af ára=kló Atta þreyttir dóu, Urdu fr vid feigd og sjó Fjørutíu adrir þó.

Als um sitja hédan hyl Herra Thorlacíus, Lífs ad nytja lengra bil, Lét þá flytja Hettlands til.

Engelskt skip í hafís hlaut Hroda svadil=reisu, Hann í svip þad sundurbraut, Sorgargrip ad mønnum hraut.

Flýdu báti ítar á Atta rétt ad tølu, Mjøg ókátir svo um sjá Sveimad gátu til og frá.

Peir svo slaga hlutu hér Hafs í offa bylgjum Als um haga, innt var mér, Yfir daga fimtíger.

Endtu meina undur slík Ærid stór um sídir, Njóta fleina neglu=tík Nádi seinast Grindavík.

Hafdi vélud hraknings gaud Hast þó tæpt med sídsta, Sultar hels ad hamla naud, Hráann sel og miglad braud.

Finnum hér hvad fríd og sterk Forsjón ber sér vitni, Herrans þver ei mildin merk, Mikil eru Drottins verk!

Landfógéti nú er nýr Rettur veittur ládi, Ulstrúp metinn álmatýr Jtum setur reglur skír.

Sýslumann og settann vér Sjáum Snæfellíngum, Kristján þann, sem løg oss lér, Lesti bannar sveitum hér.

Mord um nyrdra vil eg vart Vísu glósan þessi
Ordid hirdi mæla margt, Minst ábirgd þarf talid spart.
Hvorn, sem sneidir manndygd mjøg Makleg sakargipta,
Drottinn leidi lífs á veg, Líknar greidi ráð ótreg.
Nú er þrotid efnid allt, Endist ljóda kraptur, Nú er
brotid sóns vid salt Sudra rotid far og valt.
Allar stundir, ydar líf, Æra, kjør og standid, Veri
fundid frí vid kíf, Falid undir Drottins hlíf!
Engi gýmis gáir ad Glódin roda skýa, Flengir
gríma grá í hlad, Gengur skíma þá af stad.

## 51ta Tídavísa
### yfir árid 1829.
Frumhenda.

Oríons bøndin enn þá rodar Upprennandi morgunsól,
Sú um løndin sælu bodar, Sefar brand, er ìvídann ól.
Atján hundrud og þrjátíu Artal skrifast hjá oss nú,
Hvatar stund med hlaupi fríu, Hvørgi bifast reglan sú.
Vetur gódann þjódin þádi Pann til hlýtar veitti ard,
Haudurs gróda hjørdin nádi, Haga lítid skjaldan vard.
Lifdu jórar lands á reitum, Lída rédu hors ei blak, Þó
kom snjór í sumum sveitum, Sem þar féd ad húsum rak.
Vorid spardi varmann jørdu, Veiktist ilur gróandans,
Hafís vardi vog og fjørdu Vestan til og nordanlands.
Kast óhendt um krossmessuna Kunni hlada nidur snjá,
Hrakti og fennti fé til muna, Fengu skada margir þá.
Gott var sumar, garpar fengu Góda nýting heyum á,
Prir gumar oft því gengu Utí slýtir til ad slá.
Heyfaung þjóda heita máttu Hér þau bestu forn og ný,
Firníng góda af því áttu Itar flestu gørdum í.

Haust med órum vedur vakti, Vindameguid hardt um fló, Fønnum stórum frónid þakti, Feikna regn var stundum þó.

Afla brøgdin virda vóru Vída gód en sydra best, Klifin løgdu lýdir stóru Lúinn flóda uppá hest.

Allra tída ár um grundu Ofs þau kénna forløg gjørd, Ad menn lída lífs frá stundu, Líkt sem renna vøtn í jørd.

Þórkell fær hiá þegnum tédur Puldi hradur mesbugjørd, Sinni kæru kvinnu medur, Kvaddi Stad vid Hrútafjørd.

Nesi-Fagra fródur þénti Firda gagn um njótarkvon, Sína daga svo þar endti Síra Magnús Arnason.

Margur kraup til moldar flúda, Manns í bragdi følnar hold, Havsteinn kaupmann Hofsós búda Helid lagdi djúpt í fold.

Múla sendann sýslu lidi, Sótt ólin med glada von Lífid enda lét í fridi Læknir Brynjólf Pétursson.

Síra Asgrími, sem ad þénti Sókna braudi Hellna vid, Ledur tími lífsins endti, Laus frá naud hann dó í frid.

Síra Sveinn, er greindar gádi, Grímsey þjóna seinast trúr, Dáinn einninn er og þádi, Orpinn fróni, værdar dúr.

Slísa-fengid ár hjá øldum Ymsa meiddi leidum á, Líka drengi dyns á tjøldum Daudinn leiddi heimi frá.

Isafjardar inná djúpi Ara jóri sló í kaf, Tveir í barda hreptu hjúpi Hel, en fjórir komust af.

Skip frá Beruvíkur vørum Voda hreggsíns þoldi neyd, Mæddir hér af hafs ókjørum Høldar sex þá lidu deyd.

Skutar jór á Skutulsfirdi Skeida fór um ísuleid, Penna sjórinn þrútinn byrgdi, Þegnar fjórir hreptu deyd.

Voga-brík á Vesturstrøndum Vid ad sækja fór órír, Mætti líka gjálfurs grøndum, Gautar mækja dóu þrír.

Grundarfirdi á réd ana Ísu ranna knúinn mar, Tveir þar virdar bidu bana, Bjargad manni þridja var.

Þjórsá breida þorna hlinum Þremur bilti straums á beck, Svo einn deydi segg, en hinum Syndur piltur bjargad fékk.

Laxá ør, sem laungum átti Lánga rás ad vørum sjós, Unglíng fjøri farga knátti Frá Vindási sudur í Kjós.

Margir ýkja meidsli hlutu, Margir reyna nauda fár, Nockrir líka bein-sín brutu Brjótar sleina þettad ár.

Dreng úr Ædey hrapid hreldi, Hans því fyllt var daga tal, Samlík mæda sídar feldi Sendann pilt úr Hítárdal.

Í Vestmannaey af tveimur Einn var barinn dauda til, Dryckju glanna sorta sveimur Sízt má spara dáraspil.

Jardskjálftinn, er eystra æddi, Ita hagi rírdi sá, Manna sinni mjøg því hræddi, Margir bæir skémdust þá.

Í Fljótshlíd og um þær sveitir Allra mest á slíku bar, Deildin tída dróttum veitir Dæmin slest til vareygdar.

Á Hraunsási upp hér brunnu Øll hey gardi fengin í, Vindar blása brádir kunnu, Bjargad vard ei neinu því.

Itar bæinn urdu rífa, Ei svo brynnu vidir hans, Eins med lagi opt má hlífa Orku stinna forstand manns.

Heilt í vor þar hey uppbrendi Hýdi galinn svo af því, Aptur þorinn upp nú vendi Illa falinn moldum í.

Virdar eigi vita kunnu, Vodakvell nær fer um reit, Líka hey af loga brunnu Á Lágafelli í Stadarsveit.

Jøfur búna vørn oss veitir, Voru standi líknar hann, Kominn núna Krieger heitir Kjørinn landi stiptamtmann.

Forn ad landi forløg herda, Fár þó naudir lídum vér, Í því standi ecki verda Elli daudir margir hér.

Odar talid endad býdur, Aptur vendi mærdar stans,
Æ! sé falid land og lýdur Líknar-hendi skaparans!

## 52ur Tídavísa
### yfir árid 1830.
Skjálfhenda.

Tíminn, lífid, lestir, dygdir, lødur, fjara, Praut og heill hjá þjóda skara, Pad er allt ad koma og fara!

Árin, vikur, eiktir, stundir eins og vedur Ymist heilsar eda kvedur, Umbreytíngum sínum medur.

Atján hundrud og þrjátíu ullum fleina, Partil byrjad árid eina, Almanøkin datum greina.

Vídast lidinn vetur hálfur var hér gódur, Hross og hjardir fengu fódur, Fram um grøsug jardar-rjódur.

Vetrar partur var hinn seinni vída hardur, Hjørdum byrgdist hagans ardur, Heya svengdist margur gardur.

Eitt stórkast med Einmánadi ýmir sendi, Sem ad feikna søunum rendi Følnad yfir hnikars kvendi.

Purt kom vorid, þegar vetur þá var lidinn, Hafís nyrdra hafdi bidin, Høldum færdi sel og vidinn.

Júníus tólfti jel gaf nyrdra jardar-breidum, Grasa fólk svo heim af heidum Hrakid komst úr byljum leidum.

Eptir þetta illvidranna eyddist bagi, Jóllinn prýddi jódíss hagi, Jørdin spratt í medallagi.

Talinn var á túnum sumum tødu-brestur, Opt þó þerrir yrdi bestur, Engja skortur þókti mestur.

Hrydjusamt med hret og stormum haust var lidid, Gátu ormar skuta skridid Skjalþan fram á karfa midid.

Nóvember hinn níundi vard nærsta slæmur, Hørku bylur nordan uæmur Nockrum skjørdist óhagkvæmur.

Hrakti og fennti féð á köldum foldar rana, Fjórir menn og fengu bana, Fundnir síðan andarvana.

Afla-brögðin eflaust munu útvers sveita, Breiða fram um birtíngs reita, Í betra lagi mega heita.

Géfur og tekur Guðs forsjónin gædaríka, Höldar reyna hagi slíka, Hel og grösin veiða líka.

Leifðan Pálsson lagði dauðinn lágt að velli, Sótt burttók en ecki elli Einar prest á Medalfelli.

Rór frá Stað á Reykjanesi rædu-greiði, Hjálmarsson er sveitin þreiði, Síra Páll hinn lærði deyði.

Síra Markús Eyúlfs arfi öld frá hendi, Er á Söndum áður kéndi, Aldinn burt til hvíldar vendi.

Þórun Olafsdóttir dó úr dalnum tára, Nýt prests eckja næmis klára, Níutíu harðtnær ára.

Af handiðnum helzt var nafnkénd hrínga tróða, Einninn með sinn orðstýr góða, Erlendis á medal þjóða.

Með gullkrossi, mindudum í mörku Dana, Eittsinn sæmdi áður hana Eckja-drottníng Júlíana!

Hlaut nú hvíld á Hamraendum hoskur svanni, Síðan hún hjá sínum manni Sefur vært í grafar-ranni.

Siðugt kvennval, sómarík í sínum gjörðum, Veik í burt frá voda hörðum Vigdís kona prests í Skörðum.

Daníel prestur dapur syrgir dáið vísið, Hún viðskilin heimsins kísið Hefur fengið betra lísið.

Gott er ríkti gulli betra Guðsorð segir, Mannorð fagurt mold ei feigir, Manns þó þrjóti æfi vegir.

Ægir hefur enn þá sýnt sitt afl og máttinn, Og við jötuns andardráttinn Orfað margann bylgna sláttinn.

Af Seltjarnarnesi neydda nógum önnum, Áttà báta áls á rönnum Ógur tók með sextán mönnum.

Fjögra — manna — far þar líka fjördur meiddi, Fjóra uppæst drengi deyddi Drøfn, og lífsins krøptum eyddi.

Reikjavíkur vørum frá, sem vel má rata, Jlum tveim réd aldan glata Af hrognkelsa — veidi — kata.

Einn í Leiru sydra svalid sigluhundinn Sló í kaf vid feigdar fundinn, Fim menn hreptu dauda blundinn.

Hákalls-far úr firdi Jsa fórst í øldum, Brádur daudi brims á tjøldum Banadi þar átta høldum.

Einn og bát á Arnarfirdi øldur hristu, Þá í maga grædis gistu Garpar tveir, sem lífid mistu.

Frídt Vatnsleysu — fyrir — strøndu far eitt hrjádist, Lýda tveggja líf afmádist, Lands til einn med fjøri nádist.

Stúlka og piltur, strángri gripin strauma ydu, Fljótann deyd í Bløndu bidu, Bædi svo frá æsi lidu.

Einn, sem reyndi í árkvísl sund á æskuskeidi, Þíngeyrar í þíngi deydi, Þessi huldist jardar-leidi.

Høndla vildi hross vid elfu hirdir stacka, Féll í hyl af hestsins macka Húsbóndinn frá Ferjubacka.

Á Hofstødum hrygd á Mýrum heillir stytti, Féll á grund og fjørtjón hitti Fjøgra vetra barn í pitti.

Í Vatnsdalnum hirdir hjørs frá Hellulandi, Miklu þjádur mædustandi, Mætti úti daudans grandi.

Einn af Skógar — ádur — strønd vard úti madur, Ferda gjarn um foldu madur Fanst á grundu hel-stirnadur.

Frá Sveinstødum seggur firtur sinni hressu, Illvidranna undir pressu, Úti vard á Þorláksmessu.

Á Ráeyri sára svell í Siglufirdi Skrida land og bæinn byrgdi, Bús og fénad líka myrdi.

Fólkid allt gat fordad sér úr feigdar kísi, Utan kélling óms á vísi Ein þar sviptist gømlu lísi.

Fulla skémmu fjármuna, sem fréttin tédi, Strángur blossi steikja rédi, A stóru Siljá þetta skédi.

Sendt kaupfar til Siglufjardar svo hlaut stranda, Ægir nádi gótsi granda, Garpar héldu líffins anda.

Itar hafa ølvadir í ýmsum stødum Ordid fyrir skémd og skødum, Skrámadir af biltum hrødum.

Vond er þraut, hvad víndryckjan nú ver í landi, Hroka sladur hreifir grandi, Hér af kólnar fridar andi.

Vitid er sú vænsta gjøf um verøld alla, Ad drecka burt þann dýrgrip snjalla Dárafkap má Jærstann kalla.

Fordumst brædur fjanda þann, sem fædir grandid, Gud vort helgi géd og standid! Gud vardveiti føðurlandid!

Víst med kossi vel svo kved eg vin minn fróda, Esi døl og útfør góda Ydur gési stýrir þjóda!

Báleiks svølu mælgi mikill mædir lestur, Fjalars øl og frædi brestur, Falar døl á kvædi prestur.

## 53ja Tídavísa
### yfir árid 1831.

Hagkvedlínga háttur.

Hjólid stunda flýtir før Fram um grundar býlin gjør,
Tíminn skundar áfram ør, Oldum mundar luckn-kjør.

Oldin sú sem ysirstár, Edlis trú um vinda krár,
Telur nú þar tryggjast skrár Tuttugu þrjú og níu ár.

Má um svædi mønnum hjá Margt ángrædi tídum
sjá, Lán og gædi lúcku-há Leika þrædi veikum á.

Vetur gódur vidast hvar Var um rjódur Issfoldar,
Gripum fódur fjørgin bar, Fólst ei sjódur jardhaddar.

Vorid gott og var í ár, Veitti Drottinn gædin klár,
Ofan dottin ýmis-tár Yrfudu sprottin jardar-hár.

Sólin glansa sendi blíd Sátu bands med kjørin fríd, Njótum brands svo nota þýd Nordanlands var besta tíd.

Heyskap besta suma sátt Sagdi bresta fólk ókátt, Hér því vestra var um slátt Vætu-mesta sunnan-átt.

Haustid sídan hefir sendt Hørku tída merkid kénnt, Snjó um hlíd og flatir fennt, Fljót og vídir ísum rennt.

Undir sólar opt nam slód Elris góla tíkar jód, Fram sem hól og flatir ód, Fastan jóla var þó góð.

Leifdan veg um landa hieck Løgud þegar súdin géck, Sveit ótreg af sílabeck Sæmiligann afla féck.

Einatt mætir landa lýd Lán sem bætir eda stríd, Suma kætir sældin blíd, Suma grætir rauna tíd.

Daudans slókin adferd er, Oss þad bók og reynslan tér, Nockrum jók hann naudir hér, Nockra tók hann burt med sér.

Kyrkju — sá á — bænum bíd Blídur þá med prófasts síd, Innir frá þar øld í frid Arna dáinn Þorsteins nid.

Hermir lestur líka þad, Leidi fest um jardar vad Geymir best þann gagn var ad, Gunnlaug prest á Hallormsstad.

Þórdar glødum arfa á Ellin kvødum gegndi þá, Presti hrødum hún nær brá Haldór stødum Torfa frá.

Lyktad hefur líf med dád, Lofs er stefíd átti tjád, Jardar sefur játtur nád Jónas Scheving Kancellirád.

Æfi-setin endast skén, Audnu setin stund er klén, Kvaddi metinn líf og lén Landfógétinn Thorgrímsen.

Sann-vandadur sí og æ, Sem eg hradur vitnad fæ, Leid frá gladur sorgar sæ Sýslumadur Jón á Bæ.

Edla heidur ættar-kyns Eckjan þreidi løgmannsins, Fólst nú leidi framlidins Frú Ragnheidur dóttur Finns.

Himni í sá hædstur skín, Hrygdar-skýa burt frá pín, Gaf nú fríann gáng til sín Georgíu Hjaltalín.

Læknirs blída víf hún var, Vøn á frídar dygdirnar, Fagrann lýda lofstýr bar, Ljós og prýdi kvennþjódar.

Eckil hljódt fær ángur skéd, Einka dóttir syrgir med, Drottinn rótt þeim géfi géd, Gledi, þrótt og inndæled.

Grøfin festi gódann frid Gudmund presti Bødvars nid, Strandar hrestur hann um svid Helgi lestur undi vid.

Ein Cezelja Eggérts jód Ástir velja kunni þjód, Ristil helja rírdi mód, Rindar elja geymir sljód.

Eckja prestsins audgrund var, Ør og hress til manndygdar, Kvenna — þess á — brecku bar Búníng messu prýdinnar.

Lasin þreidi lista gód Lífs á skeidi þólinmód, Svo Ragnheidur húsfrú hljód J Hrappsey deydi Boga jód.

Margt þad vard á bessa bát, Brádt er skardar gledi mát, Bjó þó hardast bøl og grát Breidafjardar manna-lát.

Stafn fékk lagt á streymdann mar Steinback faktor høndlunar, Géd er spakt í brjósti bar, Braulir rakti manndygdar.

Níu ødrum med sá mann Masturs nødru pløgg til fann, Lands frá jødrum héldt svo hann, Hlés ei lødrum kvída vann.

Svo á skútu þegnar þar Pøndu klútinn seglráar, Firtir sút um saltann mar Sigldu útí Hákalls-far.

Hafa hlotid børfar brands Blak óhnotid karfa rans, Skeid var þrotid skildagans, Skipid brotid rak til lands.

Likin fundu leg í sjó, Lausnarans undir geymslu þó, Vakt af blundar verda ró Víst þá stund er Gud til bjó.

Hyggi þar ad þelid tvíst, Þá ad snarast mædan bist, Ecktaparid er ei mist, Þó annad fari í reckju fyrst.

Kémur stund, þess géfum gát, Gledst sú lund er var ókát, Sjó og grund býdst sitt útlát, Sælu-fundir borga grát.

Huggi Kristur hýr með náð Hjørtun tvist og géfi ráð, Fridar listin fró og dáð Fái lyst um þánka láð.

Af Fellstrøndu ára-kló Als á løndum báran sló, Numd frá grondum nádu ró Níu øndud lík í sjó.

Þar varð nægur skadi skén, Skapa dægur við ófén, Misti þægur lífsins lén Læknir frægur Thorbergsen.

Á Hvamsfirdi øldú kost Ara byrgdu hladinn prøst, Fim svo virda feigdin høst Føla kyrrdi djúpt í røst.

Skip úr Flatey fram á mar Farid get, en øldurnar Fylltu kata þýngdann þar, Þrem svo glatad ítum var.

Sudur í Gardi, sagt er frá, Sval nam fjardar trippin slá, Abúð jardar endtu í sjá Ellefu barda vidir þá.

Skip úr Fljótum fórst á sjó, Fleina brjótum vøskum þó Sjø þar skjótann bana bjó Bylgju rót er yfir sló.

Vindar magna meinin rík, Mastra vagn úr Kéblavík Tjón sel-lagna tóku slík, Tveir þar bragnar urdu lík.

Einn Svefneyu seggur frá Sund þar feginn reyndi hjá, Þessum vegi úngur á Andláts degi mætti þá.

Hvams — með — firdi halur reið, Hans svo yrdi ferd- in greið, Sjórinn byrgdi sendið skeið, Seggin myrdti á þeirri leið.

Einn í Búdaósnum dó, Ungur skrúda vidur þó, Þenn- ann údur djúp í dró, Dygda-prúdur fékk svo ró.

Sverda grér, er synda vann, Sudur í Þverá dauda fann, Hjardar — er í — holti hann Hugdist vera kaupamann.

Einn, sem reið um ísinn grá, Oddgeirs — greidur — hólum frá, Hann á leið er hrundi þá, Helju beið í Ølvesá.

Tveir menn Hellirsheidi á Hrídar skélli nádu fá, Lík að velli lidu þá, Líf og elli numdir frá.

Á Vatnsheidi úti hér Ungur deydi stála grér, Hulinn neydar hríd því ver Hann á leid ei fundinn er.

Líka í málum lýdir tjá, Lodurs álum nærri hjá Snúd á hálum gaddi lá Gufuskálum kona frá.

Hérvist manna er háska-rík, Höldar sanna dæmin slík, Skada vann sá skaut sig lík Skipherrann í Reikjavík.

Pann sem hvetur hugarþrá Helund setja fjørid á, Hvørninn gétur huxad sá Hníginn betra líf ad fá?

Gud oss veiti gódur lid, Gud umbreyti hryngd í frid, Gud oss heit sín haldi vid, Himna-sveita géfi sid!

Alls ótregann æfi þráð, Ydar veg og gjørvallt ráð, Bródurlega blídt med dád, Befel eg í Drottins nád.

Gródur spjalla þrýtur þver, Pjód er valla líta ber, Odur falla hlýtur hér, Hljódur kall ónýtur er.

## 54da Tídavísa
### yfir árid 1832.
Skothendt Sagraljód.

Nýársdag vid blída brún, Bragar rugli vanur minn, Freistar lags vid ljóda rún Lúinn gauta svanurinn.

Tíd er undrud síðum sú Sækir fram sem vatna foss, Atján hundrud þrjátíu þrjú, Pad er datum nú hjá oss.

Allmargt gengur á hjá lýd, Eptir fornu løgunum, Audnu fengur eda stríd Æfi fylgir døgunum.

Búskaps kvolid bilar trú, Blídau lops ef hverfur lýd, Fáir þóla þegnar nú Prettán vikna skorpu-tíd.

Bilar von þá nálgast neyd, Nærist víl og rauna skraf, Vindsvals sonur sem nú leid Sannfæríngu þar um gaf.

Byrjun Porra frá ófrí, Fram ad Apríl hørku stór, Haga vorra haddinn því Hvítur byrgdi ís og snjór.

Sumir mistu seggir fé, Søgdust heyin krapta rír, Vída gísti heilla hlé, Harkan svelti jardar dýr.

Vorid gæda-vedur gaf, Varmann hlýrnir ad oss bar, Sól nam bræda ísinn af Aldinn haddi fjørgínar.

Sumarid blída sendi lód Sælu-vedur holl og þæg, Hér því vída hreppti þjód Heyin bædi gód og næg.

Haustid nærdi hret óspørd, Helli-skúrum med í ár, Ofan færdi opt á jørd Ymis vaxin hvarma tár.

Hrída badid beljandi Vagasamt því mørgum var, Tóku skada teljandi Tún og engi vída hvar.

Margann má í heimi hér Hreppa madur rauna byl, Sæll er sá sem fre!stur fer Fødurlandsins góda til.

Fidrid vallar ferst um geym, Følnar blóm vid daudans skál, Sína kallar Herrann heim, Hønum nær ed þykir mál.

Gnáin mens í gédi blíd, Gudrún kvenna blóm og hrós, Konferentsráds frúin fríd Følnud kvaddi heimsins ljós.

Síra Eggért sáttur dó, Sem prófastur kosinn vard, Merkis-seggur rétta ró Reykholts fann í kyrkjugard.

Prest Audúklu þreidann þá Þorlák Bjørnsson daudinn fann, Líka Múla annann á, Ingjald Jónsson tírædann.

Høfdastranda bóka bør, Benjamín er Jónsson var, Hans vid andar hédan før Hætti sláttur lífsædar.

Lagdur best til lærdóms dó Laurus stúdent Sigurdsson, Leiddum festi retta ró Reikjavíkur yggjar kvon.

Wrumetinn aldinn þá, Eldur best í trú og von, Burt frá Setbergs braudi dó Bjørn prófastur Þorgrímsson.

Hugar-gladur hvíld svo fann, Hér vid værann bana dúr, Minn formadur mætur hann, Merkis þegn og klerkur trúr.

Vedrin reynast heldur hørd, Hnappast jelja sendíngar, Ecki leynast út um jørd Ymsar rauna bendíngar.

Gégnum listu hús og hey Hretvidrin, sem loptid gaf, Sex og mistu seggir fley Sjáfar offa-flædum af.

Afla-feng í ára val, Utum reida hlídarnak, Hrippti mengi fels úr sal Sæmiliga vída hvar.

Géfur og tekur gæda stór, Gridum opt þó breyta kann, Grimdar frekur géddu kór, Gustur þegar æsir hann.

Frá Bólúngar — vestra — vík Velti bylgjan siglu-ørn, Atta þúng þar urdu lík, Isafjardar-sýslu børn.

Steingrímsfirdi einninn á Oldur slóu bát í kaf, Tveir svo virdar þjádir þá Pefsum kata fórust af.

Eyafjøllum undan skip Ægir bistur gjørdi slá, Isú-vøllum á í svip Itar fjórtán deydu þá.

Af Vatnsleysu — einninn — strønd Yttust bátar tveir úr vør, Ad nam geysa údur þønd, Itar fjórir mistu fjør.

Inn-nesjanna bátur bar Bragna tvo á heljar fund, Isu-ranna ædi þar Ad þeim færdi sídsta blund.

Ut af bát í údur datt Einn af nesi Seltjarnar, Andar-lát svo hreppti hratt Hann í vodum geirreidar.

I Straumfjardar vadli vann Báskur druckna orfa-bør; Leidi jardar hylur hann, Hlutu beinin værdar kjør.

Alptarnefs — í — ófnum dó Einn á Mýrum bauga-þór, Minnumst þess, ad marga dró Menn í háska dirfskan stór.

Stickishólmi halur frá Hrapadi á sjáfar klett, Hann svo bólmi ísa á Endti skeidid fyrirsett.

Branda-þór frá Ballará, Báts ad ná í flædda taug, Vada fór, en feigur þá Fjørid lét í þaralaug.

Holts í ánni hér vard nár Halur einn, sem burtu leid, Pad í spánni stødugt stár, Stutt er mannsins æfiskeid.

Líka féll í saltann sjó Seggur einn hjá Ólafsvík, Dauða hrelling honum bjó Hvíld í jørðu orðnum lík.
Skagafjarðar bóndi beið Bana Héraðs-vøtnum í, Margur varð um lagða leið Liðinn nár í djúpi því.
Eystra riðu ítar tveir Uti Þverá færa sízt, Báðir liðu bana þeir, Blind ofdirskan skaðar víst.
Líka tveir í øðrum ám, Árness-sýslu riðnir frá, Biðu þeir og bana-nám, Beðjan óma hylur þá.
Drengur fór að sækja sjó, Sendur Stickishólmi frá, Hvals í kórinn datt og dó, Dæmdur helju knapi sá.
Ymsa vega veðra-megn Virða hjó í flockinn skarð, Olli trega ekta þegn Uti í Dølum kona varð.
Margt er oss til ama þrátt, Á vegferðar brautunum, Líka blossi lagður hátt Lýða veldur þrautunum.
Sýslu — fjarðar — Eya í Eldur brendi skémmur þrjár, Skaði varð að þessu því, Þar fortærdust munir fjár.
Svo í Norðursýslu ein Sagt er brynni skémma fjáð, Old svo forðist eldsins mein, Aðgætnin er besta ráð.
Múlasýslu einninn í Eisan svelgdi skémmur tvær, Glóð útkvíslud bygð um bý Bráðann stundum skaða fær.
Reynslan færir sveit þann sann, Sindri er til skaða fús, Einn þar bær til ösku bramm, Alls að tølu fjórtán hús.
Yr í Múla eystra þar, Engilbert hjá klerk um sinn, Offinn túla át upp snar Eldhúsið og frambæinn.
Dauðinn strángi tók þá trúr Tvær manneskjur þar í bráð, Þó samt fángi annrar úr Einu barni lífs varð náð.
Þannig leggur lið í þraut Líknar-høndin Drottins best, Margur seggur hjálp því hlaut, Hrygðin að nær þrengdi mest.

Margann grípu mastra-orm Marar vøldin næsta hørd,
Hofda skip í strídum storm Strandadi vid Bjarnarfjørd.
Gózid mest allt gleipti sjór, Gérsem, skipid, vørurnar,
Af þeim lesta øldu-jór Einn skipverjinn deydi þar.
Nú er farid fyrir mér Frétta efnid allt í bráð,
Þetta barid bláfaldt er, Bugar ellin hugar-dád.
Kvæda gýur flýa frá Flestum, þegar kólnar blód,
Munu níræds aldri á Yrkja fáir snotur ljód.
Skjól og vørnin Skaparons Sképnum sínum veiti lid, Svo ad børn og bygdir lands Bevarist med ró og frid!
Mælsku stadur mærdar þráð Minn eg slít vid þagnar lund, Sannbleksadur lífs um láð Lifid þér á hvørri stund!
Yndid, fridur, audnan blíd, Um sem kallinn sárbidur,
Fadmi ydur fyrr og síd, Fræníng vallar lárvidur.
Ljóda skrádur þáttur þver, Þjódum sendist gæda skil,
Hljóda þjádur máttur mér Módum bendir nædis til.

## 55ta Tídavísa
### yfir árid 1833.

Sléttubønd.

Glettu anda notin ný Nýársljómi bakar, Sléttubanda þáttinn því Próstur óma kvakar.
Atján hundrud gæda gód Greinir hára løgur, Játar sundrud þar til þjód Þrjátíu ár og fjøgur.
Góda tíd, er fór nú frá, Féck oss vetur bestann,
Slódar lýdi søknud sá Sendt því gétur mestann.
Eins var vorsins tíd ad tjá Tøm á heppnum sporum,
Meins og horsins fárid frá Flúdi sképnum vorum.
Svelti fár um vagna ver, Vægdin lýdi gladdi,
Velti-ár má heita hér Horfin tíd er kvaddi.

Svoldar drómi frost ei fann, Flúdi vetrar bagi, Foldar-blóm því vaxa vann Víst í betra lagi.

Blídt var sumar, en gat ei Yrju vidur spornad, Tídt því gumar hlutu hey Hirda midur þornad.

Haustdaganna gnýr sem gall Gripum hádi vída, Laust svo manna hey um hjall Hrakníng nádi lída.

Tók oss gripid ægir af Orku ríkann kvída, Tók út skip, en hjørd í haf Hrakti lika vída.

Sydra lýdur fiskifátt Fékk um vetrar kaflann, Flidru hlídar gjálfur grátt Gaf hér betri aflann.

Marga hæfir nockur neyd, Næm er vinda øldin, Margann svæfir dapur deyd, Drjúg eru synda gjøldin.

Gagn og sóma efldi ør, Æfi léns á skeidi, Magnús, dóma kænn vid kjør, Konferentsrád deydi.

Prísinn heyra merkismanns Mønnum letur unna, Lýsi þeir því hródur hans Hér sem betur kunna.

Dóma þvadur vørumst vær, Vondt ei her ad spjalla, Róma sladur túngur tvær Tídast hér um alla.

Síra Jóni, lífs þá leid Linnti þrotin halnum, Er í fróni gésin greid Grøf í Otrardalnum.

Huldi prestinn Jónsson Jón Jørd í Klausturhólum, Puldi bestann sálma-són Sá med raustar gjólum.

Hardt framknúin þraut ei þver, Pýngsla frek ad bera, Marta frúin ønduð er Olafs sekretéra.

Þvíngun mørg hér amar ad, Árs á tída skeidi, Ingibjørg á Stadastad Stordar prýdi deydi.

Sár er von þó gledi grønd Gudmund Síra nísti, Prjár hann svona hér frá hønd Hnossir dýrar misti.

Kvennabrecku víf sem var Vildis þjódar heidur, Enn af reckum þreyd er þar Pockagód Alfheidur.

Hálfdán prestur fetar fár, Fagnad má nú byrgja, Sjálfur bestur Herrann hár Huggi þá er syrgja.

Ædir naudin þrávalt þad, Prísa sóar standi, Prædir daudinn ítum ad Eins á sjó og landi.

Æg ef hrærir bylgjan brún, Brád med vana strídum, Næg verkfæri hefur hún Hér til bana lýdum.

Skip frá Hellnum bards um bed, Bárur því ad slóu, Gripid svellnum mætti med, Menn þar níu dóu.

Eya-landi frá skip frídt, Frétt er, nædi sigla, Fleya grandi kamur tídt Tók sig grædir ýgla.

Stórt gat leid um eyband á Orfa þórum fargad, Fjórtán deydu þegnar þá, Þó vard fjórum bjargad.

Fljót ei dvalar lífs hér leid, Lítid veit nær deyum, Snót og halur bana leid Af bát í Geitareyum.

Leida fól ei hrokann há Herkir enn á ládi, Breidabólstad er hann á Eldhús brenna nádi.

Grøndin ýfdi funi flest, Fridinn kjøri banna, Høndin hlífdi blída best Bæ og fjøri manna.

Virdra réttur. frídka fer, Fridur vor svo hjarni, Nyrdra settur amtmann er, Assessor hann Bjarni.

Jøfurs frída réttarrád Røksemd dóma gêfur, Gøfugt vída lof um lád Lundur skjóma hefur.

Núna leidist hærdum hér Hródrar tóninn magna, Rúna eydist máttur mér, Mál er Jóni ad þagna.

Herrann geymi land og lýd, Lagi sídar standid, Þverri beima stygd og stríd, Styrkist fridar bandid!

Blessist ydur løgur, land, Loptid, fjør og stundir, Pressist nidur gledi-grand Gæfu-kjørum undir.

Bræstur dagur, lenda ljód, Lítil bera gædi, Prestur bagur endar ód, Ytir sér ad nædi.

## 56ta Tídavísa
### yfir árid 1834.

Odýr Stafhenda.

Nýtt ár komid ennþá er, Alda fodur prísa ber, Ydar tíd-in áfram dym Atján hundrud þrjátíu og fim.

Vetur lidinn veitti þjód Vedra kostin hørd og ód, Snæfg-ur fønn um bygdir bar, Blotatamur, hagaspar.

Um Vestfjarda frón þó hét, Frekust hefdu bylja hret, Haga-bønn sem hjørdum bjó, Hrakid fé í ár og sjó.

Vorid stórann vann ei prís, Vitjadi fjarda Grænlands ís, Kulda sá um haudrid hratt, Hvaraf grasid midur spratt.

Tødu-brestur vídast vard, Væta haustsins gjørdi skard Heyskap engja einninn á, Uti sem í hrídum lá.

Marga þjádi mædan fast Mikid gjørdi snjóa-kast, Ohæg-iligt ullum brands, Einkanliga nordanlands.

Bjargrædanna vegnm var Vída og til hindrunar, Feugs ad bedju forurí á Fjøldi manna sjúkur lá.

Skjóma vidir, skértir sátt, Skridu opt med veikann mátt Ut til þarfa ydjunnar, Ardurinn svo lítill var.

Þeir sem sóktu sjó med skut, Sæmiligann tóku hlut, Var og siskur vætu-frí Velborgadur høndlun í.

Marga hefur menn nu bygd Meidt hin bitra dauda sigd, Af því rádid Herrans hýrt Hefur henni þartil stýrt.

Sú ei spardi sárbeitt enn Sions múra vokumenn, Peg-ar reisan endud er Allir fara hljótum vér.

Síra Gísli í Selárdal, Sannkalladur mannaval, Elli lúinn leid hér frá Launin dygda til ad fá.

Bana dæmid birtist á Breidabólstad austur frá, Sannri þar med sálar-ró Síra Torfi Jónsson dó.

Grafar lagdist sæll í sal Síra Jón í Gufudal, Hrum-ur þá úr hardri sótt Heimi baud hann góda nótt.

Svæfdi bana sóttin kná Síra Runólf Brjámslæk á, Er-lends soninn, hann svo hlaut Hníga nidur í jardar-skaut.

Svo í fyrra sæll af von Síra Arni Snorrason Hné frá Tjørn ad svefna sal, Svarfadar — í breidum — dal.

Til ad ekta kjalars kvon, Klerkurinn Jón Asgeirsson Elli hníginn andast vann, Ingjaldshóli kénti hann.

Sóttar bægdi særing kná Síra Þórdi Lundi frá, Hann í fridi hédan fór, Hvílir svo í jerdu rór.

Olaf blídanu bóka runn, Blöndudals — í — hólum kunn, Leiddi sótt til svefna rans, Sömu viku konu hans.
Pjáníng daudans búnga fann Pórdur Björnsson sýslumann Kænn sem var med kunnri dád Kancellie — nefndur — ráð.
Svæfdi hel vid sídsta stínt Sýslumanninn Gunnlaug Brím, Hann þó var um hæfid lád Hérua nefndur Kammerráð.
Kvitt vard og vid kveiu og pín Kvennval Gróa Hjaltalín, Marga dygd og ment sem bar, Margra barna ljósa var.
Ekta-bundin ádur hér Árin fim og þrjátíger, Sýndi dygda ávalt ard, Átta barna módir vard.
Eckill hjarir heilsu rír, Hálfníræðann gledin flýr, Blis því lífsins blaktir á Blá-skarinu kalli hjá.
Stiftprófastsins húsfrú hér Högua déttir Gudný er Leidd frá heimsins lúa sid, Logd í jördu hefur frid.
Alptarness á Brecku beid Blídlynd Jórun sælann deyd, Prófasts eckja oldrud gjörd Er med fridi lögd í jörd.
Önnur prófasts eckja kyrr, Audkúlu sem bygdi fyrr, Jórun Porsteinsdóttir dó, Dygdug féck í moldu ró.
Á Undirfelli æru frjáls Ektakvinna Síra Páls, Gudrún Bjarnadóttir deyd Dygda sprundid einninn leid.
Haldóra Jónsdóttir dó, Dygg prests eckja Audnns þó, Mæt féck værdir moldar rans Módir Blöndals sýslumanns.
Eystra hné ad kjalars kvon Klerkur Stephán Porsteinsson, Starfi jardar stefndur frá, Stóra Núpi þénti sá.
Í Grímsnesi æru frjáls, Ektakvinna prestsins sjálfs, Ástrídur Lýdsdóttir djörf Dáin forlét jardar störf.
Hastarliga lífid þver, Lífs og daudans milli hér Sára litid sýnist bil, Sjór og votn þar hjálpa til.
Alptarnesi af í senn Einn dag tvennir þrettán menn, Hofn og landi hraktir frá, Herfáng daudans urdu þá.
Af Akranesi sama sinn Sjáfar-ölgu brædin stinn Sorgar dæmin sendi slík, Sextán menn þar urdu lík.
Ur Bjarneyum eitt fórst skip, Ógur deyddi þar í svip Sex manneskjur, sem ad þar Svædid huldi geirreidar.
Ur Vestmannaeyum fór Utá djúpid siglu-jór, Holdar dóu þrettán þar, Pó fim odrum bjargad var.
Hér úr Rifi ferda-far Fór um haga géddunnar, Féck þad drofnin fyllt ósvíf, Fjórir vid þad mistu líf.
Eystra fundu feigd í sjó Fedgar tveir af árakló, Fadirinn, dýra dygd sem bar, Danuebrógs þó madur var.

Daudans eru dœmin ljós, Druknadi einn í Budar=ós, Þar med lidu þróttar=stans Prír menn úti nordanlands.
Siglufjardar aldan or Itum sendi hrygdarkjor, Dýra ugga djúpt um skeid, Drucknudu sim á kyrkjuleid.
Madur reiddi yfir á Ekta=víf, en bædi þá Hnigu af jór í hylinn þó, Halurinn lifdi, konan dó.
Uppsum á vid Eyafjord Unglíugs stúlka bráð=feig gjord Hrasadi bissu hlodna á, Hún svo bana rédi fá.
Stúlka tom vid storfin ljós Stakst í brunn frá Hvammi í Kjós, Hvitársídu fljód eitt frá Fórst og þar í nefndri á.
Heyskúta vard undir ein, Er og hreppti daudans mein, Og lífdaga endti tal Frá Eyvindartúngu í Laugardal.
Ennis fjalli undir gék Einn, sem bana þaraf fékk, Hann því fannst med rírri ró Rekinn daudur lík af sjó.
Æ! sú belging brennuvíns Bregdur old í haminn svíns, Manna gæfu meidsla hál Myrdir bædi líf og sál.
Skodast dœmin skadarík, Skipherra í Reikjavík Steypti sér í sjó á kaf, Sárri sturlun kvalinn af.
A þad lita lýdum her Lífid besta gjofin er, Kvol og heimsku kalla má Ad kasta því med ólund frá.
Þrjú kaupmanna — fengu — for Vid frón hér nockur svadil kjor, En samt madur enginn þó Af þeim misti líf í sjó.
Eitt féck nyrdra áfoll slík, Annad nálægt Grindavík, Pridja slis af þúnga sjós Poldi hér í Búdar=ós.
Tídin kynnir kátligt stand, Krónprinz reisti hér um land, En hvad tildró eda hvad Af því leidir, Gud veit þad.
Pórdur Sveinbjorns sonur er, Seggja blómid fagurt hér Yfirréttar assessor Ordinn, Gud hans blessi spor!
Sú þar bætist saga vid, Ad sekretéra embættid, Adur sem hér inn var sett, Upp sé hafid vid þann rétt.
Lucku breyting lisir frek, Læknir fróns og apóthek Allt er flutt med atvik rík Inn í stóru Reikjavík.
Adur fjoldi ita var Ærinn samankominn þar, Brjál sýndist ad bera því Backafullann lækinn í.
Land vort, bygdir, fólk og fé, Fjor og ydar gjorvalt sé, Astand, kjorin, efni, rád Umgirdt blídri Drottins náð.
Mærdar stird nú endíng er, Alla galla hendíng ber, Beikur hikar máttur minn, Minnid linna þrátt eg finn.

---

# Stutt ágrip

## af æfisøgu Síra Jóns Hjaltalíns.

---

**Jón** prestur **Hjaltalín** er fæddur á Korpúlfsstødum í Mosfellsveit þann 16da sunnudag eptir Trínitatis árid 1750. Fadir hans var **Oddur Hjaltalín**, sem í mørg ár var løgréttumadur í Gullbríngusýslu, sonur **Jéns Hjaltalíns** sýslumanns í Reikjavík. Módir **Odds** hét **Metta María**, dønsk af ætt, fógéta dóttir frá Jótlandi. Módir **Jóns** var **Oddný**, dóttir **Erlendar** bónda í Gøtuhúsum, sonar **Brands Bjarnhédinssonar**, sem var løgsagnari og héradsdómari í Reikjavík. Í foreldrahúsum ólst Síra **Jón** upp til þess hann á 10da aldurs ári var til sósturs tekinn af føduvbródur sínum **Niels Hjaltalín**, sem var løgréttumadur og lóts, og bjó í Hlídarhúsum hjá Reikjavík. Hjá hønum dvaldi **Jón** 10 ár og þareptir eitt ár hjá **Gudmundi Vigfússyni**, sem þá var Oeconómus vid þad íslendska tukthús á Arnarhóli; þadan fór **Jón** vestur á Skutulsfjardareyri til bródur síns **Hans Hjaltalíns**, sem þá var ordinn undirkaupmadur hjá þeim nafnfræga yfirkaupmanni **Hermann Aystrúp** á Ísa- og Dýrafirdi. Hér dvaldi **Jón** einn vetur ádurenn bródir hans kom hønum til kénnslu hjá prestinum Síra **Jóni Asgeirssyni** á Mýrum vid Dýrafjørd, hvar hann dvaldi einn vetur, en næsta vetur fór hann í Skálholts skóla, og sat allann þann vetur næstur þeim nedsta í nedra beck. Haustid eptir færdist hann upp yfir 12, og var þá settur vicarius í nedra beck, og sorsaungvari í kyrkjunni. Haustid næst eptir komst hann uppí efra beck, og var þadan eptir tvo vetur útskrifadur med besta vitnisburdi. Hjá biskupi **Finni** dvaldi hann samt næsta vetur til enn betri lærdóms framfara. Øll þessi sumur var **Jón** hjá bródur sínum á Skutulsfjardareyri og afhendti þar alla utanbúdar vøru. Árid 1777 var **Jón** kalladur og vígdur til sóknarprests ad Hálsi vid Hamarsfjørd í Múlasýslu; þessu braudi þjónadi hann í 3 ár, en fluttist þadan árid 1780, hafdi stiptamtmadur **Thódal** þá veitt hønum Garpsdal í Bardastrandarsýslu; þad prestakall afþackadi hann, en kaus heldur Kálfafell á Sídu, og fluttist þángad um sumarid, en **Þórdur** prestur **Jónsson**, sem þar var, kaus aptur Háls, og þared þad prestakall ecki var úttekid af Síra **Jóni**, ádur hann þadan fór, álitu menn sem prestarnir **Jón** og **Þórdur** hefdu haft brauda skipti sín á milli og létu svo búid standa. Á Kálfafelli undi Síra **Jón** best sínum hag; þar var sókn lítil og audveld yfirferdar; fólk eitt hid besta en bújørd hin hagkvæmasta;

trjáreki yfirgnæfandi og mikil selaveiði; hagar þeir bestu, en eggslétt og grasgéfið túnið. Samt urðu honum afslepp þessi gæði, því þegar mikla eldgosið brauzt út verið 1783, neyddist bæði hann og aðrir til að flýa búsfaði sína, og leita sér samastaðar í öðrum sveitum. Þá var Síra Jóni veittur Hvammur í Norðrárdal, hvar hann dvaldi næstu 3 ár, en fékk árið 1786 Saurbæjar prestakall við Hvalfjörð, hverju hann þjónaði í 25 ár. Árið 1811 var honum veittur Breiðabólstaður á Skógarströnd, og þá hann hafði þjónað því kalli í 24 ár, þáði hann lausn frá embætti sínu 1834, hafði hann þá fjóra um áttrætt, en gégnt prestsverkum í samfeld 57 ár.

Jón prestur Hjaltalín var tvígiptur; átti hann fyrst Guðrúnu dóttur Jóns prófasts Bergssonar á Bjarnanesi og Herdísar dóttur Hjørleifs prófasts á Valþjófsstað í Múlasýslu. Þeirra børn voru þessi: 1) Herdís, sem deyði 11 vikna gømul. 2) Oddur, sem er handlæknir í Vestfirðínga-fjórðúngi, og var um tíma skipaður Landphysikus. 3) Jón, sem er snikkari. 4) Guðný, sem deyði 8 vetra gømul. 5) Guðrún, er deyði á únga aldri. 6) Guðrún gipt með Vigfúsi hreppstjóra Guðmundssyni, og búa þau á Auðunarstøðum í Reykholtsdal. 7) Guðbjørg, fyrst gipt með Factor Jóni Jónssyni á Ísafirði, síðan jarðeiganda Amunda syni Haldórs prófasts á Melstað. 8) Guðfinna, gipt svonefndum Hnausa-Bjarna. 9) Bergur, giptur bóndi í Ørney. 10) Jóseph, blóðtøkumaður, bólusetjari og meðhjálpari á Vatnshamri á Skógarstrønd. 11) Vigfús, giptur Þorbjørgu Sigurðardóttur, býr í Brokey. 12) Guðný gipt Sigurði bónda Snorrasyni á Valabjørgum. 13) Sigríður, deyði viku gømul; og 14) Stúlka, er andvana fæddist. Árið 1798 misti Jón prestur Hjaltalín konu sína Guðrúnu á barnssæng; en giptist árið eptir Grónu dóttur Odds prests Þorvarðssonar á Reynivøllum í Kjós og Kristínar dóttur Haldórs prests að Hólum undir Eyafjøllum. Við henni átti Jón prestur þessi 8 børn: 1) Guðrúnu. 2) Hans. 3) Odd. 4) Hans, er øll dóu á únga aldri. 5) Guðrúnu gipt Jóni Daníelssyni, høndlara í Grundarfirði. 6) Jón, Studios. chirurgiæ við Kaupmannahafnar háskóla. 7) Guðrúnu, gipt Magnúsi Jónssyni (sem um tíma var sýslumaður í Árnessýslu), búa þau á eignarjørð sinni Felli í Biskupstúngum. 8) Kristínu, sem er ógipt. Árið 1834 misti Síra Jón seinni konu sína Grónu, gaf hann þá frá sér prestskap og stað, einsog áður er ávikið, en áskildi sér 4ða part inntektar; var honum þá og veitt sem konúngleg náðargjøf 50 Rbd. silfurs í næstu 3 ár.

## Til Lesarans!

Samkvæmt heitum vorum í fyrra vor leggjum við nú hér Tíðavísur Síra Jóns Hjaltalíns fram fyrir alþýðu sjónir, prentaðar eptir höfundsins eiginhandarriti, og felum þær öllum góðfúsum lesurum á hendur til meinlausrar skémtunar en meðfram til athuga og eptirþánka. Tíðavísur þessar byrja, einsog sjá má af titilblaði þeirra, með árinu 1779 og enda með 1834 og fara þannig yfir 56 ár. Í þeim er gétið enna merkustu atburða, er við hafa borið á fósturjörð vorri á greindu tímabili, einnig veður-áttufars og árferðis bæði til lands og sjáfar, líka slisfara og dauða heldri manna og kvenna, og loksins embætta- og nafnbóta-veitínga, einkum veraligrar stéttar manna. Sérhvör Tíðavísa lýsir þannig nákvæmliga því ári, er hún greinir frá, bæði hvörnig viðrað hafi, heyast og fiskast, hvörjir heldri menn dáið, hvaða atburðir viðborið og hvörjar umbreytíngar í einu eða öðru tilliti viðgengist. Vísur þessar eru því einka fróðligar vegna síns efnisríka innihalds, en þær eru eigi síður skémtiligar vegna margbreytni bragarháttanna, í hvörjum þær eru kveðnar, má því ætla, að þær verði mörgum löndum vorum géðþeckar. Skéð gétur að ýmisligt í þeim sé miður áreiðanligt enn skyldi, þareð höfundurinn sem optast hefir orðið að reiða sig á söguögn annara og stundum á flugu fregnir, og munu allir nærgætnir lesarar því heldur afsaka þetta, sem það að

nockru leiti er ómøgulegt ad fá fullkomna viſsu um ſvo margbreytta atburdi.

Þad hefdi án efa þókt vel fallid ad prenta hér aptan vid ønnur Ljódmæli þau, er Síra Jón Hjaltalín hefir kvédid, og hvaraf mørg eru mikid ſnotur, einkum hans Audnu-braut, Lifnadar-leidſla, Aldarháttur og Ritlínga-rekſtur, en bædi var tíminn þartil ofnaumur, og líka hefdi víſnakver þetta ordid því mun dýkara, þeſsvegna høfum vid í þetta ſinn, ad ſvo vøxnu máli, ſleppt því.

Kaupmannahøfn, 10da Marts 1836.

Þorgeir Gudmundsſon. Jón Hjaltalín.

---

## Prentvillur.

Sidu 5 línu 29 ád ofan: hér les her. S. 6 l. 13 ſnera l. ſnerra. S. 11 l. 7 mockur l. møckur. S. 12 l. 25 feigum l. feigdum. l. 26 Fengu l. Hrepptu. S. 21 l. 19 ſkurirnar l. ſkúrirnar. l. 29 velidinn l. vellidinn. S. 22 l. 9 Róms l. Roſm. S. 24 l. 1 valla-ſveitir l. valla ſveitir. S. 25 l. 4 dátt l. datt. S. 36 l. 1 reikhafs l. reykháfs. S. 38 l. 24 ſlafa l. ſiaſa. S. 44 l. 29 Holls l. Holts. S. 46 l. 2 er er l. er. S. 47 l. 5 túgga l. tugga. S. 48 l. 11 tja l. tjá. S. 63 l. 5 Ægirhardur l. Ægir hardur. S. 64 l. 21 ljánn l. ljáinn. S. 67 l. 24 Bógi l. Bogi. S. 68 l. 3 ſugur l. ſúgur. l. 18 gnód l. gnod. l. 25 þrutu l. hrutu. S. 74 l. 27 klæda l. kvæda. S. 77 l. 5 Holter l. Hølter. S. 79 l. 2 Og l. og. l. 15 ſendt l. ſend. S. 91 l. 7 hróda l hroda. S. 95 l. 6 þrá l. þrjá. S. 104 l. 1 vodnm l. vodum. l. 16 Ymſir l. Ymſar. S. 107 l. 18 Kyrkjugardar l. kyrkjugardur. S. 112 l. 7 þora l. þóra. S. 114 l. 17 lambdi l. lambi. l. 25 batar l. bátar. S. 115 l. 5 úr l. í. S. 123 l. 15 ſtorri l. ſtórri. S. 141 l. 18 Einn l. Ein.

Hvad fleiri, ſem rángprentad kynni ad vera, umbidſt gódfús leſari ad leidrétta og leſa í málid.

---

